# TÍMARIT

**Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi**

XLVI. ÁRGANGUR

---

Tilgangur félagsins er:

1. Að stuðla að því af fremsta megni að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu meðal Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli og hvetja vill þá til framsóknar og virðingar til jafns við þá þjóðflokka aðra, er þetta land byggja.

**Meðlimagjald $2.00 á ári**

---

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi**

Winnipeg, Canada

# IN MEMORIAM

## HEIÐURSFÉLAGAR OG FORSETAR

His Excellency Lord Tweedsmuir, Hon. Patron
His Excellency the Rt. Hon. The Earl of Athlone, K.C.
Kjartan Helgason, fyrrum prófastur
Stephan G. Stephanson, skáld
Frú Stefanía Guðmundsdóttir, leikkona
Prófessor Sv. Sveinbjörnsson, tónskáld
Þorbjörn Bjarnason, skáld (Þorskabítur)
Einar H. Kvaran, rithöfundur
Ragnar E. Kvaran, fyrrum prestur og forseti
Kristján Níels Júlíus (K. N.), skáld
Séra Jónas A. Sigurðsson, skáld og forseti
Dr. Rögnvaldur Pétursson, forseti og ritstjóri
Prófessor F. S. Cawley, Ph.D.
Friðrik Swanson, málari
Kapt. Sigtryggur Jónasson
Dr. B. J. Brandson, læknir
J. Magnús Bjarnason, rithöfundur
Dr. Hjörtur Thordarson, raffræðingur
Mrs. Guðrún H. Finnsdóttir, skáldkona
Friðrik Hallgrímsson, dómprófastur
A. S. Bardal, útfararstjóri
Ólafur Pétursson, fasteignasali
Sveinn Björnsson, forseti Íslands
Árni Pálsson, prófessor
Sigurgeir Sigurðsson, biskup
Ásmundur P. Jóhannsson
Dr. A. H. S. Gilson, U. of M. Pres.
Einar Jónsson, myndhöggvari
Jón J. Bíldfell, fyrrum ritstjóri
Einar Sturlaugsson, prófastur
Þ. Þ. Þorsteinsson, skáld
Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, skáld
Gunnar B. Björnsson
G. J. Oleson
Halldór Hermannsson, prófessor
Dr. theol. Rúnólfur Marteinsson
Einar Páll Jónsson, ritstjóri og skáld
Dr. Þorkell Jóhannesson, háskólarektor
Rt. Rev. C. V. Pilcher, Sydney, Australia
Dr. John C. West, fyrrv. forseti U. of N.D.
Dr. Vilhjálmur Stefánsson
Thor Thors, sendiherra

# Félagatal Þjóðræknisfélagsins 1964

---

### A. Heiðursverndarar (Honorary Patrons)

George P. Vanier, D.S.O., M.C., C.D., Governor-General of Canada.
Herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands.
His Excellency the Honourable Vincent Massey, former Governor-General of Canada.

### B. Heiðursfélagar (Honorary Members)

Prófessor Sigurður Nordal, Reykjavík, Ísland
Dr. Watson Kirkconnell, President, Acadia University, Wolfville, N. S.
Dr. Henry Goddard Leach, New York, N. Y.
Jóhannes Jósefsson, íþróttamaður, Reykjavík, Ísland
Guttormur J. Guttormsson, skáld, Riverton, Man.
Mrs. Jakobína Johnson, skáldkona, Seattle, Wash.
Mrs. Laura Goodman Salverson, skáldkona, Toronto, Ont.
Fröken Halldóra Bjarnadóttir, ritstj. Hlín, Blöndósi, Ísland
Jónas Jónsson, fyrrv. alþingismaður, Reykjavík, Ísland
J. T. Thorson, yfirdómari, Ottawa, Ontario
Árni G. Eylands, stjórnarráðsfulltrúi, Stavanger, Noregi
Vilhjálmur Þór, bankastjóri, Reykjavík, Ísland
Gísli Jónsson, ritstjóri Tímaritsins, Winnipeg, Manitoba
Próf. Ásmundur Guðmundsson, fyrrum biskup Íslands
Séra Albert E. Kristjánsson, prestur, Blaine, Washington
Pófessor Richard Beck, Grand Forks, North Dakota
Dr. Helgi P. Briem, fyrrv. sendiherra, Reykjavík, Ísland
Sigurður Þórðarson, söngstjóri, Reykjavík, Ísland
Dr. Thorbergur Thorvaldson, prófessor emeritus, Saskatoon, Sask.
Dr. Árn Helgason raffræðingur, Chicago, Ill.
P. H. T. Thorlakson, M.D., Winnipeg, Manitoba
Guðmundur Grímsson, fyrrv. yfirdómari, Bismarck, North Dakota
Stefán Einarsson, fyrrv. ritstjóri Heimskringlu, Vancouver, B.C.
Dr. Stefán Einarsson, próf. emeritus, Reykjavík, Ísland
Gunnar Thoroddsen, ráðherra, Reykjavík, Ísland
Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir, Minneapolis
Guðmann Levy, fjármálaritari Þjóðræknisfélagsins, Winnipeg, Manitoba
Dr. theol. Valdimar J. Eylands, Winnipeg, Manitoba
Mrs. Kristín Thorsteinsson, Gimli, Manitoba
Hon. John G. Diefenbaker, fyrrverandi forsætisráðherra Kanada
Hon. Dufferin Roblin, forsætisráðherra Manitobafylkis
Guðm. Í. Guðmundsson, utanríkisráðherra Íslands
Sigurður Sigurgeirsson, bankaritari, Reykjavík, Ísland
Ólafur Hallsson, Eriksdale, Manitoba
Dr. H. H. Saunderson, President University Manitoba
Dr. Finnbogi Guðmundsson, Reykjavík, Ísland.
Einar Baldvin Guðmundsson, formaður H/F Eimskipafjelags Íslands.

**C. Styrktarfélagar**

**Sustaining members for 1964.**

Mr. Grettir Leo Johannson.

Mr. J. T. Beck

Mr. Walter Johannson

Mrs. Louisa G. Gislason, Morden, Man.

**D. Life members**

K. Valdimar Björnson, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Björn Björnson, Consul of Iceland, Minneapolis, Minn., U.S.A.

Dr. Helgi P. Briem, Reykjavík, Iceland

Grettir Eggertson, Winnipeg, Man.

Dr. Árni Helgason, Consul of Iceland, Wilmette, Ill., U.S.A.

Eric Ísfeld, Winnipeg, Man.

Grettir Leo Johannson, Consul of Iceland, Winnipeg, Man.

J. Walter Jóhannson, Pine Falls, Man.

Mrs. B. E. Johnson, Winnipeg, Man.

Guðmann Levy, Winnipeg, Man.

Mrs. Anna Margrét Levy, Winnipeg, Man.

Óskar E. Levy hreppstjóri, Ósum, Húnavatnss., Iceland

Gunnar R. Pálsson, Lake Park, Florida, U.S.A.

Rev. P. M. Pétursson, Winnipeg, Man.

Árni Sigurðsson, Seven Sisters Falls, Man.

Dr. P. H. T. Thorlakson, Winnipeg, Man.

Dr. Richard Beck, Grand Forks, N. Dak.

Mrs. Margret Beck, Grand Forks. N. Dak.

Einar E. Stephanson, Red Deer, Alta.

Walter Maxon, Innisfail,Alta.

Mrs. Louisa Gislason

1. ÍSLAND

**E. Ársfélagar**

Jóhannes Eiríksson, Kristneshæli, Eyjafjarðarsýslu

Landsbanki Íslands, Reykjavík

Miss Kristín H. Pétursdóttir, Reykjavík

Séra Ásgeir Ingibergsson, Hvammi í Dalasýslu.

2. ENGLAND

The Library, University College, London. Gower Street, W. C. L., England.

3. REPUBLIC OF IRELAND
Dr. James Delargy Director "Irish Folklore Comm," University College, Dublin 2.

4. CANADA

**Ashern, Man.**
Björn Jónasson

**Atikokan, Ont.**
Einar I. Swanbergson

**Baldur, Man.**
Hansina Gunnlaugson
Mrs. B. K. Jónsson

**Brandon, Man.**
Dr. E. J. Skafel

**Dowson Creek, B.C.**
Kristinn O. Oddson.

**Elfros, Sask.**
Helgi Hornfjörð
Rósmundur Árnason

**Foam Lake, Sask.**
Mrs. Steinunn Inge.

**Eiriksdale, Man.**
Mrs. J. R. Johnson.
Miss Emma J. Sigurdson.

**Hayland, Man.**
Sigurður B. Helgason

**Kristnes, Sask.**
Guðmundur Stefánsson
Bæring Gablielsson

**Leslie, Sask.**
Ásgeir Gíslason
Páll Guðmundson

**Matheson Island, Man.**
Árni G. Johnson

**Chilliwack, B. C.**
Mr. and Mrs. K. A. Magnússon.

**Langruth, Man.**
Mrs. B. Bjarnason,
V. Valdimarson.

**Islington, Ont.**
Mrs. Ragnhildur Guttormsson.

**McCreary, Man.**
Mrs. Hlida Crout.

**Montreal, Ont.**
Mrs. H. L. Robson

**Ottawa, Ont.**
August S. Johnson.

**Regina, Sask.**
Mr. and Mrs. Hafsteinn Bjarnason.

**Riverton, Man.**
Hallgrímur Joh.Stadfeld
Valgeir G. Stadfeld
M. Coghill
Kris. Thóransson
S. B. Johnson
Guðjón E. Johnson
Björgvin Anderson.
Ólafur C. Anderson.

**Saachton, B.C.**
Mrs. Thordis Fischer.

**Toronto, Ont.**
H. J. Péturson.

**Vancouver, B.C.**
Stefán Eymundson.
Herman Sigurdson.
Mrs. Alla Warburton.

**Winnipeg, Man.**
Mrs. L. A. Björnson
J. A. Eastman
Alma S. Easlman
Miss Vilborg Eyjólfsson
Miss Carolina Gunnarsson
Mrs. Gyða Hurst
Halldór J. Stefánsson
David Björnson
Mrs. Rose Björnson
G. F. Jónasson
Lovisa Bergman
Loyd Magnus
J. M. Page
Simon Shannon
J. H. Johnson
Miss Katrín Brynjólfsson
Magnús Elíasson
Mrs. Guðrún Thorkelsson
Mr. and Mrs. Earl J. Helgason
Mrs. Maria Sivertson
Mrs. Halldóra Peterson

**Wynyard, Sask.**
Thorsteinn Guðmundson
Magnús Jónasson

5. BANDARÍKIN

**Boston, Mass.**
Kormákur Ásgeirsson
Kapt. Jóhannes G. Ásgeirsson
Valgeir Einarsson
Kapt. Thor Guðmundss.
Kapt. Guðm. Jóhanness.
Gunnlaugur Jónsson
Kapt. Theodór Jónsson
Guðmundur Pálsson

**Cashmere, Wash.**
Chris Guðmundson

**Charlottesville, Virg.**
Prof. R. L. Kellogg

**Ft. Landerdale, Fla.**
Gunnlaugur Illugason

**Grand Forks, N. Dak.**
Mrs. V. Guðmundson, University of N. Dak. Library

**Ithaca, N.Y.**
Vilhjálmur Bjarnar

**Lincoln, Nebraska**
Prof. Paul Schach

**Hopple, N. Dak.**
Mrs. Laufey Aaland

**New Brunswick, N.J.**
Prof. Helgi Johnson, Rutgers University Library

**Minneapolis, Minn.**
G. T. Athelstan
Mrs. Edda Laxdal
Miss Hjördís Bjarnason

**Rochester, Minn.**
Þórey J. Sigurjónsdóttir, M. D.

**New Haven, Conn.**
Yale University Library

**Hickville, L.I., N.Y.**
Olaf Helgason

**Oceanside, L.I., N.Y.**
Andrés Guðmundson

**Portland, Oregon**
Miss Ollie Gislason

**Salinas, Calif.**
Prof. Loftur Bjarnason

4. DEILDIR OG SAMBANDSFÉLÖG

**The Icelandic Society of New York**
Hannes Kjartansson
Jerome Miller
Mrs. Jerome Miller
Miss Halldóra Rútsdóttir
Ludvik Jónsson
Richard Richardson
Mrs. Margrét Rossback
Mrs. Thorey Vogle
Edward Eoulfield
D. Sommerfield
Árni Ólafsson
Capt. Olaf Olsen
Capt. Magnús Norðdahl
Mrs. William Richards
Mrs. Edda Magnússon
Mrs. Eane Thomson
Mrs. Nanna Kolberg

**„Frón", Winnipeg**
Forseti
Jakob F. Kristjánsson
Varaforseti
Próf. Haraldur Bessason
Skrifari
Páll Hallson
Varaskrifari
Skúli Jóhannson
Gjaldkeri
Jochum Ásgeirsson
Varagjaldkeri
Miss Guðbjörg Sigurðsson
Fjármálaritari
Gunar Baldvinsson
Varafjármálaritari
Valdimar Lárusson
Bókavörður
Mrs. Ólína Johnson

**Meðlimir**

Ævifélagar:
Grettir L. Johannson
Séra Philip M. Pétursson
Walter Johannson
Grettir Eggertson
Guðmann Levy
Anna M. Levy
Mrs. B. E. Johnson
Eric H. Ísfeld

**Meðlimir, ársfélagar**

Mrs. Valdheiður Thorlakson
Mr. Thorleifur Hanson
Mr. Otto Hallson
Mrs. Olína Johnson
Mr. Olafur Olafson
Mr. Páll Johnson
Mrs. Lily Olafson
Mr. Jens Eliasson
Mr. Axel Vopnfjord
Mrs. Laufey Helgason
Mr. W. Kristjanson
Miss Hall Josephson
Mr. Thorsteinn Olafson
Mr. Skuli Böðvarson
Mr. Argi G. Eggertson, Q.C.
Mr. F. Skaptason
Mr. and Mrs. J. Asgeirson
Mrs. Inga Johannson
Mrs. S. Thorkelson
Mr. and Mrs. Pálmi Johnson
Mrs. Ása Friðrikson
Mr. & Mrs. G. Baldwinson
Mr. & Mrs. Njáll O. Bardal
Mr. & Mrs. Maurice P. Sullivan
Mrs. Rae Gordon
Miss Guðbjörg Sgiurdson
Mr. K. W. Johannson
Miss Rósa Sigfusson
Mrs. Rosa Johannson
Hon. Walter J. Lindal
Mrs. Sigrún Thorgrímsson
Mr. & Mrs. Jakob F. Kristjansson
Miss Regina Sigurðson
Mr. Fred Thordarson
Mrs. Ingibjörg Jónsson
Mr. T. L. Hallgrimson
Mrs. Sesselja Oddson
Mr. Andres Björnsson
Mrs. R. Gíslason
Mr. Karl Hansson
Mr. Thor. Thorsteinson
Miss Bertha Jones
Mr. Páll Einarson
Mrs. Ljótun Young
Mrs. M. Block
Mr. O. G. Bjornson
Mr. John Gillies
Mrs. Johanna Jonasson
Mr. Helgi Marteinsson
Miss Thorbjörg Brynjolfson
Mr. Sveinn Sveinson
Mr. Orn Thorsteinson
Mr. Hallgrímur Axdal
Mrs. Friðrik Kristjansson
Mr. Jón K. Laxdal
Mr. J. Arnason
Mrs. Hrund Skulason
Prof. & Mrs. Haraldur Bessason
Mr. Kristján Thorsteinson
Mr. & Mrs. Oliver B. Olsen
Mr. Roy H. Ruth
Mrs. Laura Shaver
Mrs. Madeline Halldorson
Mr. Beggi Sveinson
Mrs. Jakobína Nordal
Mrs. Soffía Benjaminson
Mr. & Mrs. J. T. Beck

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

FERTUGASTA OG SJÖTTI ÁRGANGUR, 1964

Ritstjórar

GÍSLI JÓNSSON

HARALDUR BESSASON




WINNIPEG, MANITOBA

Gefið út af Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi

1965

# Myndir



PRENTAÐ HJÁ COLUMBIA PRINTERS, WINNIPEG

# Efnisyfirlit

DR. RICHARD BECK:

# Þjóðskáldið Davíð Stefánsson kvaddur

Í merku kvæði, sem hinn víðfrægi norski rithöfundur Knut Hamsun orti um landa sinn, þjóðskáldið Björnstjerne Björnson, komst hann svo að orði, að þegar rödd hins síðarnefnda hljóðnaði, yrði þögn í landinu. Sannaðist það einnig eftirminnilega.

Þessi orð hins norska ritsnillings um hinn mikla skáldbróður sinn urðu mér rík í huga, þegar mér barst yfir hafið sú harmafrétt, að þjóðskáldið Davíð Stefánsson frá Fagraskógi hefði látizt á sjúkrahúsi á Akureyri sunnudagsmorguninn þ. 1. marz 1964, 69 ára að aldri. Og ekki sóttu fleyg orð hins norska ritsnillings síður á hug minn, þegar við hjónin síðastliðið sumar lutum höfði í hljóðri þökk og virðingu við legstað Davíðs Stefánssonar í kirkjugarðinum á Möðruvöllum í Hörgárdal, þar sem hann var, eins og vera bar, lagður til hinztu hvíldar við hlið foreldra sinna. Fjölmenni mikið var viðstatt jarðarför hins ástsæla skálds, og í þeim hópi margir leiðtogar íslenzku þjóðarinnar og menningarfrömuðir hennar. En svo mikil ítök og djúp átti skáldið í hugum og hjörtum þjóðar sinnar, að segja má, að hún hafi öll fylgt honum til grafar. Hina síðari áratugi hafði hann verið **þjóðskáld** hennar í sönnustu og fegurstu merkingu þess virðulega orðs.

Þetta vissu menn og viðurkenndu löngu áður en hann var allur, en það varð enn ljósara, þegar ævidagur hans var á enda, hvern öndvegissess hann hafði skipað í flokki íslenzkra samtíðarskálda, og hversu víðtæk og djúpstæð áhrif ljóða hans og persónuleika höfðu verið með þjóðinni.

Ekki verður hér rakinn rithöfundarferill Davíðs Stefánssonar í heild sinni, en það leitaðist ég við að gera, fram að því aldursári hans, í ritgerð minni „Davíð Stefánsson skáld“, sem prentuð var í riti þessu 1946. Hins vegar vil ég færa hér í einn stað, með nokkrum úrfellingum og öðrum breytingum, greinar þær, sem ég hefi skrifað í íslenzk blöð beggja megin hafsins um þær bækur hans, sem út komu eftir að hann varð fimmtugur, en þær eru þannig vaxnar um auðugt og fjölbreytt innihald, að þær uku drjúgum skáldfrægð hans og mikið og varanlegt framlag hans til íslenzkra bókmennta.

Kemur þar fyrst til athugunar ljóðasafn hans **Ný kvæðabók** (Akureyri 1947). Davíð er enn sem fyrri, um annað fram, hinn ljóðræni söngvasvanur í þessum nýju kvæðum sínum, meistari mjúkstígra bragarhátta, málfegurðar og myndauðugra lýsinga. Þó að hér gæti minna ólgandi ástríðuelda en í

mörgum fyrri kvæðum hans, þá er innileiki og dýpt tilfinninganna engu áhrifaminni, nema síður sé, samfara sterkari alvöru, meiri festu og ríkari íhygli. — Skáldið og hugsjónamaðurinn eiga, með öðrum orðum, tíðum samleið í þessum nýju kvæðum, hinn andheiti umvandari og umbótamaður, sem lætur svipu ádeilu sinnar dynja á einræði og harðýðgi, vígaferlum og vopnaburði, efnishyggju og eigingirni.

Öndvegið skipar í þessari kvæðabók sérstaklega fagurt og andríkt kvæði um Jónas Hallgrímsson á andlátsstund hans, en Davíð dáði mjög þennan listræna fyrirrennara sinn, brautryðjanda í íslenzkri ljóðagerð og eldheita ættjarðarvin, enda er ekki erfitt að sjá andlegan skyldleika þeirra. Í þessu kvæði kemur það einnig glöggt fram, hve fasttengdur Davíð var móðurmold sinni, íslenzkri náttúru, sveitalífi og menningu, enda eru ýmis fallegustu kvæðin í þessari bók hans, beint og óbeint, hjartaheitur lofsöngur um sveitina og bóndann, hetjuskap hans og frjósamt starf.

Enn þá svipmeira og stórbrotnara heldur en hið fagra kvæði um Jónas Hallgrímsson er þó minningarkvæðið „Askurinn“ um Bólu-Hjálmar, þar sem höfundur lætur hið aldurhnigna og mædda skáld, „skinið af hungri“, bjóða sjálfum dauðanum byrginn og skera „máttuga meginstafi og myndir“ í tóman askinn sinn. Hreinum og sterkum dráttum dregin er sú mynd, sem hér er brugðið upp, og gerð af mikilli orðsins list, eins og sjá má af þessum erindum:

Brúnaþungur er bóndi orðinn
og brjóstið þrútið af heift.
Aldrei fyrr var hungraðra hatur
í harðari viðu greypt.
Aldrei var skáldið af lífinu lostið
jafn logandi sálarkvöl.
En til er annar og meiri máttur
en myrkur og jarðneskt böl.

Brátt munu tímans bárur skola
blóðið úr asksins lögg.
Tárin í skeggi skáldsins minna
á skínandi morgundögg.
Frá sjónum geislar andlegur eldur
og ógnandi reginbæn.
Skuggarnir flýja, fönnin bráðnar,
og foldin verður græn.

Minningakvæðin í þessu ljóðasafni skipa því virðulegan sess meðal slíkra kvæða skáldsins og jafnframt í íslenzkum nútíðarbókmenntum. Svipmikið er kvæðið um Þorgerði Egilsdóttur, eitt hið ágætasta af mörgum snjöllum söguljóðum skáldsins, þrungið norrænum hetjuanda. Magni þrungið og miklu mannviti er hið skörulega og orðhaga ávarp, er skáldið flutti í Reykholti við afhjúpun Snorra-styttunnar þar. Eftirfarandi erindi verður að nægja sem dæmi þess, hvernig skáldlegt hugarflug og orðsins list haldast þar í hendur:

Enn veitir unað
orðlist Snorra,
stíll Sturlunga,
stuðlum skreyttur.
Heillast hugur,
er háir tindar
sindra sólgljáðir
í svanavötnum.

Þessi kvæðabók Davíðs ber því einnig órækan vott, hve djúpt hann hefir orðið snortinn af „stormum sinna tíða“ á örlagaþungum styrjaldarárunum. Frelsisást hans og djúpstæð réttlætiskennd blossa upp í djarfmæltum og markvissum ákærum á hendur einræðisherrunum og fylgifiskum þeirra, valdafíkn, ranglæti og friðarrofum, í kvæðum eins og „Vér skipuleggjum“, „Í dýragarði“ og „Sverðið“.

Örlög frændþjóðarinnar norsku á stríðsárunum hafa auðsjáanlega gripið hug Davíðs mjög sterkum tökum, og fór það að vonum um mann, sem stóð eins djúpum rótum í jarðvegi norrænnar menningar eins og hann gerði. Kvæði hans „Norræn jól“ og „Norðmaðurinn“ eru einnig hvað svipmest og listrænust af kvæðum hans frá styrjaldarárunum. Fagurlega og skáldlega lýsir hann hinni norsku hetju sem táknmynd ótrauðrar þjóðar hennar í baráttunni gegn ofurefli innrásarmannanna.

En þó margt sé í þessari bók tilkomumikilla kvæða um stórbrotin yrkisefni, sem lýsa vel mælsku skáldsins, andagift hans og hugsjónaást, þá eru eigi síðri, frá listarinnar sjónarmiði, ýmis önnur kvæði bókarinnar, þar sem slegið er högum höndum á ljóðrænni strengi hörpunnar; ljóð eins og „Vor“ og „Vornótt“, „Í gróandanum“, og „Ég leiddi þig í lundinn“, eða þá „Haustljóð“: —

Ljúfasta stundin
er löngu horfin
og liðið að hausti.
Skjálfa viðir,
en skipið fúnar
skorðað í nausti.

Og sorgin læðist
í svörtum slæðum
um sölnuð engi.
Blöðin hrynja
í bleikum skógum
á brotna strengi.

Löng er nóttin
og nístingsköld
við niðandi ósa.
Hjartað stinga
hélaðir þyrnar
heilagra rósa.

Í kvæðinu „Við Sellandafjall“ er brugðið upp listrænni og hugþekkri mynd af íslenzkri náttúrufegurð og seiðmagni sveitalífsins. Yndislega léttstígur og heillandi er „Morgunsöngur litlu systranna við brunninn“, og „Kvæðið um fuglana“ gullfallegt og skáldlegt að sama skapi. Í látleysi sínu og einlægni bregður það bjartri birtu á hugðarmál skáldsins, svo að jafnvel má segja, að þar geri hann sína trúarjátningu sem skáld.

Eins og vænta mátti, varð þessi ljóðabók hinum mörgu velunnurum skáldsins og öðrum unnendum fagurra ljóða kærkominn lestur. Hitt var þó enn meira um vert, að hún var lifandi sönnun þess, að mikils mátti enn vænta af skáldinu í ljóðagerðinni.

## II.

Leið nú nærri áratugur, þangað til Davíð Stefánsson sendi frá sér nýja ljóðabók, en það var kvæðasafnið **Ljóð frá liðnu sumri** (Reykjavík

1956). Þar skipar öndvegi hið gullfagra kvæði „Segið það móður minni“, sem telja má hiklaust meðal allra fegurstu og snilldarlegustu kvæða skáldsins. Er það kvæði, eins og önnur afbragðskvæði hans, svo heilsteypt, að menn verða að lesa það í heild sinni, til þess að njóta fegurðar þess til fulls, en upphafserindin gefa þó nokkura hugmynd um það, hve meistaralega þar er gripið í gígjustrenginn: —

Segið það móður minni,
að mig kveðji til ljóða
andi frá ókunnu landi
og ættjörðin góða,
máttur, sem storm stillir,
stjörnublik á tjörnum
og löngum til þess að lýsa
leitandi börnum.

Segið það móður minni,
að mér sé hennar tunga
söngur, er létti löngum
lífsharm, snjóþunga.
Sá ég í orðum og anda
Ísland úr sæ rísa
og hlaut í völvunnar veðrum
vernd góðra dísa.

Næst er á blaði hið svipmikla og tilþrifamikla „Ávarp Fjallkonunnar“, er skáldið orti í tilefni af 10 ára afmæli íslenzka lýðveldisins, og lesið var upp á lýðveldishátíðinni í Reykjavík 17. júní 1954. Er kvæðaflokkur þessi efnismikill og afburðasnjall, faguryrtur og spakyrtur í senn, og fór því ágætlega á því, að Ríkisstjórn Íslands gaf hann út sérprentaðan með prýðilegum hætti. Lokalínur þessa snilldarríka kvæðaflokks gefa ágætlega í skyn anda hans og boðskap til íslenzku þjóðarinnar:

Þrýtur hvorki þrótt né vilja
þjóð, sem á sín himinfjöll.

„Fjallkonuljóð skáldsins sverja sig í sömu ætt um myndauðlegð, málsnilld og heitan undirstraum einlægrar ættjarðarástar. Hún hitar áreiðanlega hverjum sönnum Íslendingi um hjartarætur þessi lýsing Fjallkonunnar á sjálfri sér í orðum skáldsins:

Sjá, ég er konan, landsins leynda sál,
sem lítil börn og skáld til drauma vekur.
Í æðum mér er blóðið orðið bál.
Bylgjunnar niður er mitt tungumál
og brjóst mitt aðeins bjarg, sem undir tekur.
Augu mín hef ég erft frá bláum tjörnum.
Mitt innra blik er skin frá sól og stjörnum,
en höfuðskrautið fönn og fægður ís.
Fjallkona er ég nefnd og jökladís.

Úr sama jarðvegi ættjarðar- og átthagaástarinnar eru sprottin kvæðin „Heim“, og „Föðurtún“. Einkum er slegið á næma og djúpa strengi í „Föðurtúnum“. En Davíð Stefánsson var tengdur íslenzkri sveit og sveitalífinu nánum og traustum böndum, eins og kvæði hans bera fagurt vitni. Af þeim toga spunnin eru kvæðin „Húsmóðir“, Fjallastígur“ og ‚Bóndi“ í þessari bók hans, og hvert öðru betra. En þó að sveitin og sveitafólkið eigi eins djúpstæð ítök í huga Davíðs og raun ber vitni, gleymir hann ekki sjómönn-

unum íslenzku. Þeir hljóta sinn verðskuldaða hetjuóð í kvæðunum „Útnesjamenn“ og „Brimlending“, og einnig í hinu fagra og hreimmikla kvæði „Óður til hafsins“, þar sem máttarvaldi þess og stórfelldum svipbrigðum er lýst af mikilli snilld.

Sögulegu kvæðin í þessari bók eru eigi síður tilkomumikil, svo sem kvæðið „Bólu-Hjálmar kemur til beitarhúsanna“, en um þann tröllaukna andans mann hafði Davíð áður ort stórbrotið kvæði, eins og fyrr getur; með sömu prýði er kvæði hans „Norðlendingar flytja lík Jóns Arasonar heim að Hólum“, sem tekur hug lesandans sérstaklega föstum tökum, enda er það þrungið undirstraum seiðmagnaðrar angurblíðu.

Ádeilu kennir, hins vegar, í ýmsum kvæðum þessarar bókar, eins og í „Gamankvæði um Grýlu“, þó að í léttum tón sé, og í kvæðunum „Hávaðamenn“, „Sprek“, „Skessuríma“ og „Sálmur bókaútgefandans“, er hitta ósjaldan vel í mark og hressilega.

En svo eru önnur kvæði, sem þrungin eru íhygli, þar sem skáldið hvessir sjónir út yfir mannlífið, og túlkar það og rök þess í skáldlegum myndum og eggjandi til umhugsunar og frjósamra dáða, kvæði eins og „Hugvekja“, „Sonur jarðar“ og „Á vesturleið“, sem eru hvert öðru athyglisverðara. Þá vekur hið fagra kvæði um Krist, „Gesturinn“, eigi síður til umhugsunar, efnismikið og tímabært eins og það er. Ádeilan, sem í því felst, nær svo ágætlega tilgangi sínum, einmitt fyrir það, hve snilldarlegur skáldskapur kvæðið er samtímis, en það er á þessa leið:

Þú hlýtur að hafa vilzt af vegi.
— Ég vitja sérhvers manns.
Er gesturinn ekki göngumóður?
— Gangan er köllun hans.
Til hvers leggur þú land undir fót?
— Ég lækna andleg sár.
Nutu menn lengi náðar þinnar?
— Í nítján hundruð ár.

Hefur þú aðrar fréttir að flytja?
— Fagnaðarboðskap minn.
Og hvað er þá mest og æðst af öllu?
— Að elska bróður sinn.
Bauð þér nokkur hús eða hæli?
— Hörð eru margra kjör.
Trúa menn þeim, er sannleikann segja?
— Það sýna mín naglaför.

Vilja þá engir við þig kannast?
— Þeir veiku taka mér bezt.
En hinir, sem trúa á mátt sinn og megin?
— Margir fá stundar frest.
Býður þér enginn sess eða svölun?
— Sumir falskan koss.
Herra, herra, hvað berð þú á baki?
— Bjálka í nýjan kross.

En sum fegurstu kvæðin í bókinni eru þó stuttu ljóðrænu kvæðin, „Sorg“, „Vornótt“ og „Ljóð“, næst síðasta kvæði bókarinnar, hreinasta perla. Annars er ljóðræni strengurinn, sem alltaf hefir verið áberandi í ljóðum Davíðs, sterkur í þessum kvæðum hans, t.d. í hinu hraðstreyma og myndríka kvæði „Hvítu skipin“ og þá eigi síður í kvæðinu „Minning“, einu af hinum hugljúfu kvæðum, sem hann hefir

ort um íslenzkar konur, en þetta ljóð sitt leggur skáldið á tungu Þóru Gunnarsdóttur, sem hið fagra kvæði Jónasar Hallgrímssonar „Ferðalok" er ort til.

Óneitanlega kennir sums staðar nokkurrar tregakenndar í þessum kvæðum Davíðs, einkum í lokakvæðinu „Gestaboð", og í kvæðinu „Hvítu skipin" falla skáldinu þannig orð:

En nú er að hefjast haustsins saga
um höf mín og græna skóga,
því hnigin er sól minna sumardaga
og siglur hættar að glóa.

En þó er sagan þar ekki nema hálfsögð, því að skáldið lýkur sama erindi með eftirfarandi ljóðlínum:

En leiftur birtast frá liðnum árum,
ef lengi og heitt er beðið,
og stundum er líkt og lyftist úr
bárum
það ljóð, sem aldrei var kveðið.

Umrædd ljóðabók Davíðs var í heild sinni öflug staðfesting þess, hve vel hann ætlaði að eldast, andlega talað. Augljóst var, að litlum haustfölva hafði enn sem komið var slegið á Fagraskóg ljóða hans.

III.

Kemur þá að því ljóðasafni Davíðs, er seinast kom frá hans hendi, en það var **Í dögun** (Reykjavík 1960). Þetta var níunda ljóðabók hans, og stærst þeirra, yfir 60 kvæði, og hafði ekkert þeirra kvæða hans áður komið á prenti.

Bókin hefst á samnefndu kvæði og gullfögru, þar sem skáldið lýsir á yndislegan hátt hrifningu sinni yfir döguninni og áhrifamagni hennar, en þetta er lokaerindið:

Sá einn er sæll, sem á sinn
morgunheim.
Sá einn er tign, sem lýtur mætti
þeim,
er getur björgum líkt og laufi feykt
og lífsins eld á jörð og himni kveikt.

Davíð er maður morguntrúaður, þótt hann deili óvægt, í mörgum þessum nýju kvæðum sínum, á veilurnar í þjóðfélaginu og hugsunarhætti manna. Mögnuð er ádeilan einmitt í næsta kvæði bókarinnar, „Um páskaleytið", þar sem fram kemur jafnframt djúpur skilningur skáldsins á krossferli mannsins til hinnar æðstu þróunar, eins og hann orðar það eftirminnilega í upphafserindinu:

Frá vöggunni liggur
leiðin er þar að kemur
um leiti og hæðir,
fram hjá krossunum þremur.
Menn verða að fara,
þó víða sé urð og klungur,
og vaða árnar,
þó straumurinn sé þungur.

En svo eru þeir, sem ekki eiga hug til þess að hefja krossgönguna, þótt hinir séu fleiri, er þola þá raun og verða fyrir það meiri menn og betri. Hvorum tveggja lýsir skáldið í næsta erindi kvæðisins:

Til er að heiglar
hendi sér í fossinn,
hyggi það minni raun
en nálgast krossinn.

En þó eru hinir
þúsund sinnum fleiri,
sem þjáningin gerir
vitrari og meiri.

Davíð veit og skilur, að lífi vor mannanna barna er nú einu sinni þannig farið, ef vér horfumst í augu við veruleikann, að í beinum sem táknrænum skilningi er það laukrétt:

Að baki páska
er föstudagurinn langi.

Í seinni hluta kvæðisins er þjóðfélagsádeilan meginþáttur, og hittir kröftuglega í mark. Þrátt fyrir það, er Davíð fasttrúaður á sigurmátt sannleikans og kærleikans að lokum, eins og ótvírætt lýsir sér í lokakafla kvæðisins, og hið hreimmikla og fagra kvæði „Óður lífsins" ber frekar vitni.

Líklega mun mörgum finnast kvæðið „Klakastíflur" stórbrotnasta og svipmesta kvæðið í bókinni, enda er það þrungið kyngimagni, sem orkar djúpt á hug lesandans. Annars vegar hörð og beinskeytt ádeila á hugleysi og lítilmennsku, en hins vegar jafn drengilegur lofsöngur hetjuskapar og karlmennsku, sem horfast djarflega í augu við hættur og örðugleika og ganga hiklaust á hólm við þá. Af lengri kvæðunum í bókinni, og eru miklu fleiri heldur en hér verða talin, þykir mér „Stjörnudraumur" samt bera af, en hann er í senn afburða merkilegt og fagurt kvæði, svo að ekki hefir ástinni og göfgandi mætti hennar verið fegurri eða tærri óður kveðinn á vora tungu. Hver sá, er það les gaumgæfilega, mun skjótt hrífast af andríki þess, orðsnilld og speki.

Ekki eru styttri kvæðin í þessari bók með minni snilldarbrag heldur en þau lengri. Unaðsleg náttúrulýsing er kvæðið „Fjallavatn", og ekki er kvæðið „Skógarhind" með minni snilldarbrag, enda hefir það vakið mikla aðdáun. Svipað má segja um kvæðin „Hans þögn er ljóð" og „Þagnarljóð", er lýkur með þessum mjúkstígu ljóðlínum:

Í sálir vorar streymir óðsins andi
frá æðri heimum, þjóð og föðurlandi.

Davíð Stefánsson var fasttengdur landi sínu og þjóð, þótt hann ætti jafnframt heimsvíðan sjónhring, eins og víða lýsir sér í þessari kvæðabók hans, því að samúð hans nær til allra þeirra, sem kúgaðir eru og sviptir rétti sínum, hvar sem þeir eiga dvöl. En ættjörðin kæra er löngum ofarlega í huga hans, fortíð hennar, samtíð og framtíð. Íslenzkum menningarerfðum unni hann flestum fremur, og þá ekki sízt íslenzkum bókmenntum. Því til staðfestingar þurfa menn ekki annað en lesa kvæðið um íslenzku handritin í þessari bók hans.

Davíð Stefánsson hafði áður ort framúrskarandi fagurt og hjartaheitt kvæði til móður sinnar; af skyldum toga spunnið er kvæðið í þessari bók „Ef sérð þú gamla konu", sem hver góður og ræktarsamur sonur mun taka undir heilum huga og vilja tileinka sér:

Ef sérð þú gamla konu, þá minnstu
móður þinnar,
sem mildast átti hjartað og þyngstu
störfin vann
og fórnaði þér kröftum og fegurð
æsku sinnar
og fræddi þig um lífið og gerði úr
þér mann.

Þú veizt, að gömul kona var ung og
fögur forðum,
og fátækasta ekkjan gaf drottni
sínum mest.
Ó, sýndu henni vinsemd í verki og
í orðum.
Sú virðing sæmir henni og móður
þinni bezt.

Því aðeins færð þú heiðrað og metið
þína móður,
að minning hennar verði þér alltaf
hrein og skír,
og veki hjá þér löngun til að vera
öðrum góður
og vaxa inn í himin — þar sem
kærleikurinn býr.

Hér verður eigi lengra út í það farið að telja upp, hvað þá túlka, kvæðin í þessari innihaldsríku kvæðabók skáldsins. Þau eru, í fáum orðum sagt, hvert öðru fegurra og athyglisverðara. Hér er mikil fjölbreytni í yrkisefnum, erlendum og íslenzkum jöfnum höndum, en ávallt er orðsnilldin söm við sig, hæfileikinn til þess að segja djúpan og sígildan sannleika í auðskildum orðum, svo að bókin er auðug að meitluðum og margvísum spakmælum, eins og t.d. þessum ljóðlínum úr kvæðinu „Skiptapar“:

En sá er heitast sokknu fleyi unni
mun sárast harma — önnur skip.

Og þessi kvæði eru þrungin þeirri víðfeðmu trú á mennina og lífið, sem svipmerkti Davíð í vaxandi mæli, þótt umbótaþrá hans brjótist einnig fram í óvægum ádeilum hans. Einlægnin, trúnaðurinn við hið bezta í sjálfum sér, er einnig aðalsmark þessara ljóða. Boðskapur Davíðs er alltaf jákvæður í innsta eðli sínu. Því segir hann í eggjandi kvæði sínu „Gakk heill“:

Bylting sú, sem bjargar þjóðum,
býr í vitund sérhvers manns.
Í dáð, en ekki digrum sjóðum,
dafnar líf og vilji hans.
Allar nýjar endurbætur
eiga sínar dýpstu rætur
í fylgsnum hjartans, fleygri sál.
Loks fá dimmar draumanætur
dagsins tungumál.

— — —

Grárri þoku geigs og trega
getur þú af öllum létt,
öllum beint til betri vega,
brennt í hjörtun lög og rétt.
Þegar allir, meiri og minni,
mega treysta elsku þinni,
þá er samin sáttargjörð,
frelsið tryggt í fyrsta sinni,
friður guðs á jörð.

IV.

Seinasta bók Davíðs Stefánssonar var ræðu- og ritgerðasafn hans, **Mælt mál**, er út kom í Reykjavík laust fyrir hátíðarnar í fyrra, merkileg bók um efni sem meðferð þess, er varpar um margt ljósi á þroska-

feril skáldsins, hugðarmál hans og lífsskoðun í heild sinni. En þar sem ég hefi svo nýlega (19. marz 1964) birt í vikublaði voru **Lögbergi-Heimskringlu** allítarlega umsögn um þessa innihaldsríku og heillandi bók skáldsins, verður sú lýsing hennar eigi endurtekin hér, enda var grein mín einnig prentuð í blaðinu **Degi** á Akureyri. Hins vegar vil ég á ný draga athygli lesenda að hinni snilldarlegu ritgerð Davíðs (í umræddu riti hans) „Kynni mín af séra Matthíasi", en þar er að finna hina meistaralegu lýsingu höfundar á því, er þeir kvöddust norður á Akureyri, séra Matthías og Stephan G. Stephansson, í Íslandsferð hins síðarnefnda árið 1917, og það mun á daginn koma, að sú snilldarlýsing á kveðjustund þeirra miklu skáldbræðra verði sígild í íslenzkum bókmenntum. Þessi afburða snjalla ritgerð Davíðs um séra Matthías er einnig prentuð í ritinu **Skáldið á Sigurhæðum**, en það er safn ritgerða um þjóðskáldið Matthías Jochumsson eftir 27 höfunda, sem Davíð tók saman, og út kom á Akureyri í fyrra haust.

En um ræðu- og ritgerðasafn Davíðs sjálfs leyfi ég mér að vitna til niðurlagsorða fyrrgreindrar ritfregnar minnar:

Þessi bók hans er fagurt dæmi þess, hver snillingur hann var á íslenzkt mál, **mælt mál**, eigi síður en stuðlað, og þess vegna hefði þetta ræðu- og ritgerðasafn hans eigi getað hlotið betra heiti en það ber. Þar fara saman fágæt málfegurð, víðfeðmi og heiðríkja í hugsun. Í heimi hins mælta máls hans er jafn þroskavænlegt að dveljast og í veröld ljóða hans: — fegurðarástin, sannleiksástin og mannástin skipa öndvegi í þeim báðum.

* * *

Davíð Stefánsson frá Fagraskógi var mikill ræðusnillingur, og kvæði sín las hann af frábærri snilld. Fór þar saman óvenjulegur glæsibragur persónu hans, tungutak og málhreimur, er áttu sér töfrandi seiðmagn. Áttum við hjónin því mikla láni að fagna að hlýða á Davíð lesa upp valda kafla úr hinum fagra og tilþrifamikla ljóðaflokki sínum á 50 ára afmælishátíð Háskóla Íslands haustið 1961, og hrifumst svo af glæsimennsku hans og málsnilld, að okkur mun aldrei úr minni líða. Jafn minnug erum við hlýjunnar, sem streymdi úr hendi hans, er hann kvaddi okkur jafn hjartaheitum orðum stuttu síðar í Reykjavík. Til daganna enda hljómar mér í eyrum þessi þjóðræknishvöt hans úr Háskólaljóðunum, vermd þeim innra eldi og borin fram af þeim þunga tilfinninganna, sem hann bjó yfir í svo ríkum mæli:

Við tölum íslenzkt tungumál.
Við tignum guð og landsins sál
og fornan ættaróð.
Þeir gjalda bezt sinn gamla arf,
sem glaðir vinna þrotlaust starf
til vaxtar vorri þjóð.



**RICHARD BECK:**

# Átthagadraumur

(Ort í Denver, Colorado)

Mér hlær við sjónum Hólmatindur fagur,
er himinblátt mér fjall við augum skín;
úr djúpi stígur æsku-yndisdagur
með unaðsbjörtu draumalöndin sín.
Og fjörðinn kæra gullinn lít ég glitra
í geislum, sem í logni kvöldsins titra.

Og sól er yfir bernskubænum mínum
og bjart um Reyðarfjallsins konungsstól,
er oft um kvöld í silkislæðum sínum,
úr sumarþoku ofnar, höfuð fól.
Nú blikar ásýnd þess í bládjúps lindum,
sem brosa himni mót í geislamyndum.

Nú finn ég grænar hlíðar aftur anga
og aftanblærinn leikur mér um kinn,
sem mildri hendi móðir strjúki vanga
og mjúkum örmum vefji drenginn sinn.
Ég heyri læki hjala lágum niði
og hvísla „Góða nótt!" í kvöldsins friði.

Um helgan reit, er hjartans vini geymir,
ég hægum skrefum geng í kvöldsins ró;
frá heimi þagnar heitur andblær streymir,
sem huga klökkum vekur djúpa fró.
Ég ljósar skil: — að liggja sálarrætur
í lands míns vígðu jörð — til hinztu nætur.

**Athugasemd.** Seinasta erindi kvæðisins lýtur til þess, að í Litlu-Breiðuvík við Reyðarfjörð, þar sem höf. er alinn upp, er grafreitur, þar sem faðir hans og fleiri nánir ástvinir hvíla í mold.

DR. STEFÁN EINARSSON:

# Íslenzkar bækur 1961-63

Tvær bækur voru mjög ræddar árið sem leið. — Önnur var þættir úr sjálfsæfisögu Halldórs Kiljans Laxness, kölluð **Skáldatími** (Helgafell 1963), hin var **Hannes Hafstein, æfisaga**, eftir Kristján Albertsson (Almenna Bókafélagið, fyrri hluti annars bindis, 1963, fyrsta bindi hafði komið út 1961 og verið metsölubók, seld 6000 eintök). Sem von er vakti bók Laxness mikla hrifningu í herbúðum sjálfstæðismanna í landinu en minni var hrifningin hjá gömlum samherjum sem tæplega munu hafa búizt við svo algerri kúvendingu skáldsins. Þetta eru nú þriðju sinnaskifti hans síðan hann tók kaþólska trú. Maður hélt hér á árunum, að Þórbergur væri maður endurfæðinganna, enda kemst Kiljan ekki nema í hálfkvisti við hann, því hann endurfæddist sex sinnum. Samt á Halldór sjálfur tæplega nógu sterk orð til þess að lýsa andstyggð sinni á sínum fyrra kommúnistiska manni eða trú sinni á lýgina í hinum kommúnistiska áróðri, einkum þó á dögum Stalíns. Hér efast ég um að Þórbergur hafi jafn mikla andstyggð á sínum fyrri mönnum, því það mun vera staðreynd að hann er eigi aðeins ennþá Stalínisti, heldur einnig guðspekingur og astrólóg Bretadrottningar, en Marxisti getur hann tæplega verið með því móti. Aftur á móti virðist Halldór ekki hafa neitt á móti sósíalisma Krúsjeffs, enda segja sumir gamlir samherjar hans (Gunnar Benediktsson) að hann hafi verið heilaþveginn í Moskva. Til gamans má geta þess að heilaþvottur er ekki óþekkt fyrirbæri í Íslendingasögum. En hvað er það þótt Halldór hneyksli nokkra gamla félaga með kenningum sínum hjá öllum þeim ungmennum sem hann hefur snúið frá kristinni trú að sögn biskupsins yfir Íslandi. Þetta kom fram í útvarpsumræðum um bókina. Vonandi fara þeir nú að dæmum hans og snúast frá hinum illa kommúnisma. Ætti kirkjan þá líka að sjá sér leik á borði að kristna þá. Halldór upplýsir það í þessari bók að sér hafi alltaf verið eins illa við þýzka heimspeki eins og hann hafi elskað þýzka músík einkum Bach. Er merkilegt að athuga hve smekkur okkar hefur verið líkur í þessum efnum á æskuárum okkar. Ef við hefðum haft morð fjár, ætli við hefðum þá ekki báðir slegið okkur á það að stúdera músík. Hann hefði orðið Sibelus Íslands og ég hefði tæplega skrifað verri músíksögu en bókmennta. Eitt er víst að sem Sibelius Íslands hefði hann ekki

getað fengið Nóbelsverðlaunin, því þau eru ekki gefin fyrir svo lítilmótlega list. Þegar ég las **Vefarann** taldi ég mér trú um að höfundurinn hefði að minnsta kosti meira en nasavit í þýzkri heimspeki (ekki sízt Nietzsche) fyrir utan Marx, sem átti eftir að verða biblía hans í kommúnisma án þess þó að hann væri nokkurntíma handgengnari henni en ég biblíunni (mér til stórskaða). En líklega hafði Finnur Jónsson rétt fyrir sér í því að Íslendingar væri ekki að öllum jafnaði mjög heimspekilega vaxnir. Sigurður Nordal var þar hin mikla undantekning. Halldór játar það að trúarbragðakerfi hafi jafnan höfðað meir til sín en heimspeki, enda tók hann kaþólsku í gamla daga, þótt hún síðar gufaði upp hjá honum. Hann hefur líka stúderað mormónsku og kannske fleiri trúarbrögð. Á síðari árum hefur slíkt verið miklu auðveldara en var í okkar ungdæmi enda kannske tízka nútímans. Þá var heldur enginn sérfræðingur í samanburðartrúarbrögðum við háskólann eins og nú, en aftur á móti í samanburðarmálfræði, sem góð var til síns brúks, en náði ekki eins langt. Sennilega er fulltrúi andans úr Japan í **Strompleik** Halldórs einn vottur um áhuga hans á trúarbrögðum. En uppáhaldsheimspeki hans eða trú er nú hinn kínverski taóismi, sem hann segir að Erlendur í Unuhúsi hafi kennt sér. Til allrar hamingju hefur Pétur Hallberg brugðizt við skjótt og skrifað ágæta ritgerð um Taóismann í ritum Halldórs „Litla bókin um sálina og Halldór Laxness," (Tímarit Máls og Menningar 1962, 119—131). Er þar einkum bent á Taóismann í **Brekkukotsannál**, sem Halldór var að ljúka við að lesa í útvarpið.

En þó trúskipti Halldórs séu mest tíðindi bókarinnar þá er margt í henni fleira, sem hann hefur ekki áður skrifað bréf um og því ekki komizt á bækur okkar Hallbergs um hann eða ég hef mishermt. Til dæmis má nefna uppvöxt hans í fiðlumúsík á efnuðu sveitaheimili, þar sem þeir feðgarnir spiluðu saman, áhrif Páls Ísólfssonar og Bachs á hann í æsku og skordýrastefnivarg, er var daglegt brauð hans í Taormina, meðan hann var að setja saman **Vefarann.** Meðal þeirra góðu og efnuðu manna er skrifuðu upp á víxil fyrir hann til að gera honum kleift að skrifa **Vefarann** var Árni frá Múla. Mun afneitun Kiljans á kommúnisma gleðja hann í gröfinni. Um áhrif Sinclair Lewis á bækur hans, skal þetta tekið fram:

Það var af honum og öðrum höfundum kreppuáranna í Ameríku að Halldór lærði sósíalisma en ekki af Marx. Um Upton Sinclair, sem hann nú dæmir eins og Richard Beck gerði, en hann gerði lítið úr honum, er Kiljan hafði nýskrifað ritdóminn fræga um **Boston.** Af öðrum miklum mönnum sinnar tíðar hefur Halldór kafla um James Joyce, sem hann með réttu kallar Fjallið eina í surrealisma (sem ég hef leyft mér að kalla antinaturalisma í list Picassos), kafla um Marcel Proust, sem hann telur ámóta hættulegan ungum höfundum á sínum tíma, og kafla um Thomas Mann. Skemmtileg er líka skopteikning hans á þeim mikla manni Emil Ludwig, sérfræðingi í mikilmennum, en sorglegar frétt-

irnar af Stefáni Zweig, sem nú kynni að vera ofan moldar ef hann hefði komizt til Reykjavíkur og leigt sér þar herbergiskytru á stríðsárunum verri og síðari.

Þótt merkilegt sé hefur bók Kristjáns um Hannes Hafstein orðið sízt óumdeildari en bók Halldórs Kiljans, og þó menn hafi ekki kvatt Kristján í útvarpið eins og Kiljan, þá hefur verið haldinn stúdentafélagsfundur um bókina. Umræður um bókina hófust með því að Sigurður A. Magnússon, aðalritdómari **Morgunblaðsins,** lýsti bókinni eins og reifara, þar sem Hannes Hafstein væri hin góða söguhetja með hirð mætra manna um sig eins og Jóns Ólafssonar, Þorsteins Gíslasonar, Lárusar H. Bjarnasonar, Finns Jónssonar. Þar á móti komu valdabraskarar eins og Valtýr Guðmundsson, Björn Jónsson, Einar Hjörleifsson og pólitískir tækifærissinnar eins og Bjarni frá Vogi, Sigurður Guðmundsson, Skúli Thoroddsen, Benedikt Sveinsson og Einar Benediktsson. Ég furðaði mig á þessari lýsingu, því hún minnti mig grandgæfilega á skoðanir þær sem Halldór Hermannsson hafði á þessum mönnum, en hann var gamall heimastjórnarmaður. En ég furðaði mig ekki lengur á henni, eftir að ég frétti að Kristján Albertsson hefði líka verið gamall heimastjórnarmaður. Það leið ekki á löngu áður kom hljóð úr horni frá syni Benedikts Sveinssonar (Sveini) sem var foringi þeirra Landvarnarmanna. Næst kom svar frá sonarsyni Björns Jónssonar, Henrik Björnsson, sendiherra á Englandi. Þá skrifaði Þorsteinn Jónsson (Þórir Bergsson) um aðförina að Hannesi í sambandi við símamálið. Þá skrifaði Ásgeir Þorsteinsson, tengdasonur Hannesar til varnar honum. Þá skrifaði Pétur Magnússon, bróðursonur Bjarna frá Vogi til varnar sjónarmiðum Bjarna. Þá skrifaði Benjamín Eiríksson, bankastjóri, grein og komst að þeirri niðurstöðu, að bókin væri kannske heldur hlutdræg Hannesi í vil. Þá skrifaði Bernharð Stefánsson, alþingismaður að norðan og lofaði mjög bókina. Á stúdentafundi var S.A.M. formælandi en Guðmundur G. Hagalín hélt uppi vörnum fyrir Landvarnarmenn. Einhver á fundinum lét svo um mælt að þetta væri ástarsaga Hannesar Hafsteins. Aftur á móti sagði einn af bókavörðum á Landsbókasafni að þetta væri vond bók. Hitt mun sannara að bókin sé mjög góð og prýðilega skrifuð en aðeins dálítið hlutdræg í garð Hannesar og Heimastjórnar og þó víst ekki eins hlutdræg og hinn fyrsti dómur S.A.M. gaf í skyn. En af þessu máttu sál mín sjá að hefði Kristján skrifað íslenzka bókmenntasögu eins og við skólabræður hans væntum af honum í æsku, þá hefði kommúnistar tæplega fengið betri útreið í bók hans en íhaldsmenn í bókmenntasögu Kristins Andréssonar, enda hafa þeir tæplega átt betri útreið skilið að dómi Halldórs Kiljan Laxness nú. Í fyrra bindi bókar er nokkuð slæm villa en Kristján leiðréttir hana sjálfur í síðara bindi. Það er undarlegt að enginn af afkomendum Einars Kvarans skyldi taka til máls til varnar honum og á hann þó nokkra ritfæra menn í þeim hópi.

Í kvæði Gröndals „Þingvallaferð" er getið félags sem þá bar lengst nafn allra félaga á landinu af því að félagskona var með í förinni. Þetta félag hét „Flateyjar-framfara-stiftunar-stofnfélags-bréflega-félag." Var góður að því nauturinn, því andinn var sá sami og í Lærdómslistafélagi Jóns Eiríkssonar og The American Philosophical Society at Philadelphia, stofnað af Benjamín Franklin, en um bæði þessi félög má lesa í bókmenntasögu minni, íslenzkri. En um afrek félagsins með langa nafnið hefur Lúðvík Kristjánsson skrifað **Vestlendingar I** ( Heimskringla, Reykjavík 1953, II, 1955, II₂ 1960). Nú var Jón Sigurðsson, sem kunnugt er, Vestlendingur, en á aldarafmæli hans skrifar sami höfundur um hann merkilega bók, **Á slóðum Jóns Sigurðssonar** (Skuggsjá, Hafnarfirði, 1961). Loks hefur hann skrifað æfisögu Þorláks O. Johnson, kaupmanns og bróðursonar Jóns Sigurðssonar, **Úr heimsborg í Grjótaþorp** (I, Skuggsjá, Hafnarfirði, 1962). Á aldarafmæli Jóns birti Sigurður Nordal **Hirðskáld Jóns Sigurðssonar** (Almenna bókafélagið, Reykjavík, 1961), ljósprentaða útgáfu með inngangi Sigurðar.

Hér eru enn nokkrar æfisögur, sem allar virðast hafa sloppið við að fara í gegnum hreinsunareld **Hannesar Hafstein.** Nanna Ólafsdóttir, **Baldvin Einarsson og þjóðmálastarf hans,** Bókmenntafélagið, Reykjavík, 1961. Endurmat eftir ritum og bréfum í samanburði við Fjölnismenn.

**Hundaþúfan og hafið.** Matthías Jóhannessen ræðir við Pál Ísólfsson. Bókfellsútgáfan, Reykjavík, 1961. Þetta er stórskemmtileg bók eins og bók Matthíasar um Þórberg. Eins og allir muna sem eins og ég voru í Reykjavík á árunum 1916—27 þá kenndi Páll mönnum með kirkjuorgeli sínu og kirkjutónleikum að meta Bach og hina miklu þýzku meistara svo að list þeirra rann mönnum í merg og bein. Og þetta án þess að maður færi nokkurn tíma í söng eða orgeltíma til hins mikla manns, sér til ómetanlegs skaða, því maðurinn var — og er — hvers manns hugljúfi og allra manna skemmtilegastur. Frá því segir í æfisögunni að meistarinn hafi verið taugaveiklaður um tíma, og er ekki ólíkt að meistarar gjaldi stundum slíkan skatt fyrir snilligáfur sínar. Á unga aldri sá Páll Skerflóðsmóra, draug á Stokkseyri eða Eyrarbakka. Kristján Albertsson skrifar grein í **Skírni** um Árna Pálsson og segir mönnum að hann hafi verið merkilegur karakter. Aftur á móti hermir Páll Ísólfsson eftir honum í bók sinni og er Árni þá lifandi kominn.

Matthías Jóhannessen ritar bókina **Með Valtý Stefánssyni,** (Bókfellsútgáfan, Rvík, 1962.) Bók þessi hefst með spjalli við Valtý um æskuminningar hans frá Möðruvallaskóla, sem gömlum skólasveini þaðan eins og mér þótti gaman að lesa. Finnst mér athugasemdir hans um föður sinn varpa skörpu ljósi á skapgerð gamla mannsins. Þá er frásögn hans af Ólafi Davíðssyni ekki síður merkileg og um afturgöngu hans. Þá sagði Ólöf frá Hlöðum honum það að hún elskaði föður hans. Ekki man ég nú hver orti þessa snjöllu vísu um Stefán: Af

kæti þú hlærð ekki kátast, svo kátlegur er þinn mátinn, þér lætur svo vel að látast að látinn verður þú grátinn. Kannske var það Ólöf á Hlöðum.

Ivar Orgland, **Stefán frá Hvítadal.** Maðurinn og skáldið I, Menningarsjóður, Reykjavík, 1962. Þetta er mjög skemmtileg æfi- og bókmenntasaga Stefáns frá Hvítadal, enda er góður að henni nauturinn því hún er að mestu leyti byggð á einkabréfum Stefáns (sem Sveinn Bergsveinsson hefur sennilega safnað). Sögu Unuhúss eftir Þórberg og greinum um bókmenntir eftir Guðmund G. Hagalín. Ekki sé ég hvort hin mikla skáldasaga Richards Becks er notuð, en það mun koma í ljós í væntanlegri bókaskrá síðara bindis. Heyrt hef ég þó að það sem segir um Svein Jónsson skáld sé ekki alveg rétt með farið en um hann er til grein í tímaritinu **Akranesi.**

Hannes Þorsteinsson, **Endurminningar og hugleiðingar.** Ritað af honum sjálfum 1926—1928. Þorsteinn Þorsteinsson bjó til prentunar (Almenna Bókafélagið, Reykjavík, 1962). Hannes komst inn í Latínuskólann á mjög óvenjulegan hátt sökum skarpleika síns og stálminnis á sögu. Eftir stúdentspróf 1885 gerðist hann áhugamaður um íslenzk stjórnmál og blaðamennsku, gaf út Þjóðólf frá 1892 til 1910, er hann seldi blaðið og snéri sér að aðaláhugamáli sínu sögu. Honum var lofað fyrsta prófessorati í sögu við Háskóla Íslands en ráðherra sveik það og veitti öðrum. Þá fór hann í Þjóðskjalasafnið og reit þar mesta verk sitt „Æfir lærðra manna íslenzkra," sem ennþá bíður útgáfu. Hann reit margar ritgerðir fyrir Sögufélagið og Bókmenntafélagið og hann hóf útgáfu **Íslenzkra annála eftir siðaskifti** fyrir Bókmenntafélagið. Hann var Heimastjórnarmaður. Athugasemdir hans um samferðamenn sína eru ávallt ósviknar, oft óhlífnar, stundum fyndnar. Honum var ljóst að eigi mundi öllum líka og lét því bók bíða 100 ára afmælis síns. Hann kvæntist heldur ríkri konu en hún var auk þess ágætiskona. Þó játar hann það að ef hann hefði haft uppburði til mundi önnur hafa orðið fyrir valinu.

Sigurður Stefánsson, vígslubiskup hefur skrifað bók sem hann nefnir **Jón Þorláksson þjóðskáld Íslendinga. Æfisaga.** (Almenna bókafélagið, Reykjavík, 1963). Þetta er prýðilega vel skrifuð bók og góð aflestrar en tæplega eins hlutdræg eins og bók Kristjáns Albertssonar um Hannes Hafstein. Sálfsagt eru báðar þessar bækur betur skrifaðar en bók mín **Íslenzkar bókmenntir 874—1960** (útg. af Snæbirni Jónssyni, 1960), því ég varð að fylla hana af staðreyndum, þó hefði biskupinn fundið í henni allt um a l e x a n d r i n a. Hann tilfærir mörg dæmi þeirra í sinni góðu bók eins og **Nú grætur mikinn mög** án þess að þekkja þá. Enn fremur veit ég ekki til að prestar hafi fullkomnari handbók í sálmaháttum en þessi bók mín er, en vera má að mér hafi sézt yfir kennslubækur klerka við háskólann. Páll E. Ólason skrifaði aðeins um sálmalög og hætti eftir siðaskifti, svo að ég býst við að þótt bók mín sé ófull-

komin þá geti prestar mikið af henni lært um sálmahætti fyrir og eftir siðaskifti, en aðal markmið mitt var að gera bókina eins góða handbók og mögulegt væri, og það hélt ég hún væri með ítarlegu registri sínu.

Eftir þennan útúrdúr um bók mína er rétt að snúa aftur til hinnar ágætu bókar biskupsins. Þar lærði ég það, sem ég vissi ekki, að séra Jón Þorláksson notar fyrst fornyrðislag í eftirmælum um Bjarna Pálsson 1769. Rámaði mig þá í það, að bróðir hans, Gunnar Pálsson, hafði jafnvel ort kvæði undir fornyrðislagi, **Gunnarsslag**, í II. bindi af fyrstu útgáfu **Sæmundar Eddu** (1818) er Árnasjóður stóð fyrir, en Gunnar var einn af þeim er unnu að I. bindinu (1787). Ef biskupinn hefði litið í bókaskrá Halldórs Hermannssonar um Eddurnar (Islandica XII, 1920), þá hefði hann fundið þetta allt. Ekki heyrir maður heldur í æfisögu biskups hvort séra Jón hafi komizt í kynni við þessa fyrstu útgáfu Eddu, en ólíklegt þætti mér ekki, að konrektorinn á Hólum og Stefán Þórarinsson amtmaður hefðu átt hana.

Ekki má gleyma einni forkostulega skemmtilegri æfisögu eins afkomanda Egils Skallagrímssonar. **Þér að segja.** Veraldarsaga Péturs Hoffmanns Salomónssonar. Skráð hefur Stefán Jónsson, fréttamaður (Ægisútgáfan, 1963).

Tvö greinasöfn hafa komið. Steinn Steinar, **Við opinn glugga** (Menningarsjóður, 1961) og Davíð Stefánsson, **Mælt mál** (Helgafell, 1963).

Nokkur bréfasöfn hafa líka komið. Aðalgeir Kristjánsson, útg. Konráð Gíslason, **Undir vorhimni. Bréf.** (Menningarsjóður, 1961). Dr. Finnur Sigmundsson, landsbókavörður hefur gefið út **Biskupinn í Görðum.** Íslenzk sendibréf II (Bókfellsútgáfan, 1959), **Konur skrifa bréf** III (Bókfellsútgáfan, 1961), **Hafnarstúdentar skrifa heim** (Bókfellsútgáfan, 1963).

Beztu skáldrit ársins munu vera Guðmundur Daníelsson, **Húsið.** Skáldsaga (Ísafold, 1963), Indriði G. Þorsteinsson, **Land og synir** (Iðunn, Valdemar Jóhannesson, 1963), skáldsaga, og Guðmundur Böðvarsson, **Landsvísur,** Ljóð (Menningarsjóður).

Afmælisrit hafa út komið til Einars Ól. Sveinssonar: **Ein lítil samantekt um E Ó S,** Cadwr [Hermann Pálsson] gaf út, (Helgafell, 1961), **Til Kristins Andréssonar** 12. júní 1961 (Mál og Menning, 1961), **Studia Centenalia in Honorem Memoriae** Benedikt S. Þórarinsson (Ísafold, 1961), **Afmæliskveðjur heiman og handan** til Halldórs Kiljans Laxness sextugs, (Helgafell, Ragnar Jónsson, 23. 4. '62). Kristján Karlsson, **Halldór Kiljan Laxness** (Helgafell, 1962. Með skrá af bókum Laxness og þýðingum þeirra). Með mörgum myndum.

Kristján Eldjárn, **Hundrað ár í Þjóðminjasafni** (Menningarsjóður, 1963). Ágæt bók með prýðilegum myndum.

Örlygur Sigurðsson, **Prófílar og Pamfílar.** Lýsingar með penna og pensli, (Geðbót, 1962). Prýðileg, sprenghlægileg og viturleg bók.

Sigurður Þórarinsson, **Eldur í Öskju. Askja on Fire** (Almenna Bókafélagið, 1963). Jóhann Hannesson þýddi á ensku. Prýðileg bók

með kostulegum myndum og kortum.

Íslenzkar þjóðsögur: Sigurður Nordal og Þórbergur Þórðarson, **Gráskinna hin meiri.** (Þjóðsaga, 1962). Þetta er lang bezta þjóðsagnasafn er út kom á árinu. Efnið í öðru bindi er alveg nýtt. Hafsteinn prentsmiðjustjóri Guðmundsson er einn af allra vandvirkustu útgefendum landsins.

Halldór Pétursson, **Ævisaga Eyjaselsmóra** (Ísafold, 1962).

Af útgáfum fornrita og rímna hafa komið **Dínus saga drambláta.** Riddarasögur I, Jónas Kristjánsson bjó til prentunar (vísindaleg útgáfa, Háskólinn, 1960).

**Pontus rímur** eftir Magnús Jónsson prúða, Pétur Einarsson og síra Ólaf Halldórsson. Grímur M. Helgason bjó til prentunar (vísindalega). (Rímnafélagið, 1961).

**Tvær kviður fornar.** Völundarkviða og Atlakviða með skýringum. Jón Helgason tók saman (Mál og menning, 1962). Þetta er prýðileg alþýðleg útgáfa með myndum og þó um leið eins vísindaleg og mesti fræðimaður í norrænum fræðum getur gert hana.

Fræðibækur í norrænum fræðum: Einar Ól. Sveinsson, **Íslenzkar bókmenntir í fornöld** I, (Almenna bókafélagið, 1962). Þetta er lang merkasta og ítarlegasta bókmennta og menningarsaga sem skrifuð hefur verið um þetta tímabil. Hún nær aðeins fram til Eddukvæða að þeim meðtöldum (533 bls.).

Peter Hallberg, **Den fornisländska poesien** (Bonniers, 1962). Fjallar um eddukvæði, dróttkvæði, rímur. (188 bls.).

Peter Hallberg, **Snorri Sturluson och Egils saga Skallagrímssonar** (Háskólinn, Studia Islanica, 20, 1962).

Peter Hallberg, **Ólafur Þórðarson hvítaskáld, Knytlinga saga och Laxdæla saga.** Studia Islandica, 22, (Háskólinn, 1963). Í þessum tveim bókum sannar Hallberg með statistiskum aðferðum að Snorri sé höfundur **Heimskringlu** og **Egils sögu** og Ólafur Þórðarson **Laxdælu** og **Knýtlinga sögu.**

Gunnar Benediktsson, **Sagnameistarinn Sturla** (Menningarsjóður, 1961). Í þessari bók reynir Gunnar að sanna með almennum rökum að Sturla sé eigi aðeins höfundur Íslendingasögu í **Sturlungu** heldur líka **Grettlu** og **Eyrbyggju.**

Hermann Pálsson, **Höfundur Hrafnkötlu.** (Útgáfan Þjóðsaga, 1963). Í þessari bók reynir H. Pálsson að sanna að Brandur Jónsson ábóti, sem er viðurkenndur höfundur **Gyðinga sögu** og **Alexanders sögu** sé einnig höfundur **Hrafnkötlu.** Að dæmi Barða byggir höfundur þessar kenningar á hliðstæðum við fólk í **Sturlungu.** Mér finnst hann ætti að reyna tölfræði Hallbergs til að sanna mál sitt. Stíll **Hrafnkötlu** og **Alexanders sögu** er gjörólíkur.

Hermann hefur líka skrifað skemmtilega bók, **Sagnaskemmtun Íslendinga** (Mál og Menning, 1962). Þetta er bókmenntasaga full af nýjum útleggingum eins og þeirri að íslenzkar bókmenntir byrji í raun og veru ekki með **Íslendingabók** Ara heldur með skemmtisögum er sagðar voru í Reykhólabrulllaupinu (1119), þar sem Hrólfur frá Skálmarnesi sagði sögu frá Hrómundi

Gripssyni, sem hann hafði sjálfur saman sett og margar vísur með. Af þessu mun Hermann draga þá ályktun, eins og Guðbrandur Vigfússon áleit, að vísur í Íslendingasögum væri venjulega ortar af söguhöfundinum. Þetta er líka skoðun Bjarna Einarssonar í **Skáldasögur** (Menningarsjóður, 1961), en hún er ekki skoðun bókmenntasögukennara og íslenzkra málfræðinga við Háskóla Íslands.

Prófessorsembætti í íslenzkum bókmenntum var veitt dr. Bjarna Guðnasyni eftir að hafa varið ritgerð sína **Um Skjöldunga sögu** (Menningarsjóður, 1963). Annars telur Bjarni Einarsson **Kormáks sögu** dregna af **Tristrans sögu hinni fransk-keltnesku** en **Hallfreðar sögu** sniðna eftir henni. Þriðja ástarsagan að dæmi hans er **Bjarnar saga Hítdælakappa** og eftir henni er **Gunnlaugs saga** í elztu gerð samin fyrir daga Snorra. Sú sem til vor er komin var endursamin.

Það nýja í doktorsritgerð Bjarna Guðnasonar **Um Skjöldungasögu** er það, að hann telur hina latnesku Skjöldungasögu Arngríms lærða (sem ég vildi að hann hefði alltaf snúið á íslenzku fyrir latínulausan lýð) alveg óstytta eins og hún er, en hingað til hafa allir fræðimenn trúað því að hún væri stytt — ekki sízt vegna þess að **sögubrot af fornkonungum** er langt eins og fornaldarsaga. Og satt að segja er uppistaða **Skjöldungasögu** ættartalan í **Noregskonungatali** Sæmundar fróða og Jóns Loftssonar í Odda, er átti laundóttur Noregskonungs. Það merkilega við þessa ættartölu er það að hún er ekki 30 ættliðir eins og Snorri segir að **Ynglingatal** sé, **en er ekki**, heldur eru báðar ættartölurnar 3 x 9 = 27 ættleggir. Kemur það heim við það, að íslenzkir ættleggir eru jafn margir níu stórbeinum líkamans og draugar fylgja Íslendingum í níu ættleggi eða liði. Bjarni sýnir fram á það að **Skjöldungasaga** hefir verið lært rit með venjulegum orðskýringum miðalda (Nór — Noregur, Danur — Danmörk), og telur bókina sennilega skrifaða af Páli biskupi Loftssyni frá Odda.

Mjög skemmtilega og vel skrifaða bókmenntasögu kvenna, sem á að vera í þrem bindum, en tvö komin, hefur skrifað Guðrún P. Helgadóttir **Skáldkonur fyrri alda** (Kvöldvökuútgáfan, Akureyri, I, 1961, II, 1963). Í fyrra bindi eru fjórtán kaflar auk inngangs, í síðari sjö, þar í Látra-Björg, Ljósavatns systur og Vatnsenda Rósa.



GUTT. J. GUTTORMSSON:

# Nokkur kvæði

## RUGLINGURINN

Lýgi sögð af sannorðum —
sú er skæðust mannorðum.

Treyst er og fullyrt fyrir víst:
fjöldinn trúi lýgnum sízt.

Leið sem mönnum lítt er kunn
lýgnum ratar satt á munn.

Allt er gott fyrir bók og blað
bara ef enginn skilur það.

Ei þess verð að vera skráð
virðist ræða almennt dáð.

Ræðutöfrar reynast oft
roknir út í vind og loft.

Mæli vitur af viti snjallt
vaðall það er kallað allt.

Vitandi sá sem vitur er
vitleysu lætur út úr sér.

Dýpstu speki hrópar hátt
heimskur og fávís, ósjálfrátt.

Merkir ei neinn af máli, hver
vitur eða hver vitlaus er.

## KERLA MÍN

Úti á velli ei ég hem
Elli, kerlu sauðinn,
ef hún skellir öllum sem
ekki fellir dauðinn.

## ATOMLÖGIN

Það breytir ei lögum hins háa herra,
þó hjá þeim sé komizt til góðs eða' hins verra
og brotin þau séu — þau afnemast ei.
Þau brotin til góðs fyrir brotið ei hegna
— í blindni? Nei, heldur hins góða vegna —
En brotin til ills, þá er voði. Ó, vei!

## FULLTRÚINN

Á þingreið hann fann sig á þjóum særðan,
en þuldi í huga sér flokksönginn lærðan af nótunum.
Og reiðmerin Skoðun hans, skeiðaði járnuð,
en Skynsemi, tíkin hans, elti sárnuð á fótunum.

## ORÐSENDING

Með skipinu áfram, en aldrei til baka
ég er nú á ferð, meðal borgarjaka,
að leita á norðurbreidd nætur, án kíkis,
að Northwest Passage til Himnaríkis.

HARALDUR BESSASON:

# Þar sem þumlungarnir gleymast

Þær fræðibækur, sem á annað borð nefna Ísland, láta þess ávallt getið, að Ísland sé lítið land og fólkið, sem byggi það, sé fátt. Hin viðameiri rit bæta oftast við þeirri dapurlegu staðreynd, að vegna hallæra hafi Íslendingum fremur fækkað en fjölgað fyrr á öldum.

Fræðsla af þessu tæi er lítt til þess fallin að vekja áhuga útlendra manna á Íslandi, enda vita þeir fremur lítið um þetta norðlæga eyland, ef frá er skilinn fámennur hópur fræðimanna og nokkrir kaupsýslumenn, sem hug hafa á fiskverzlun.

Sízt er ástæða til að erfa það við almúgafólk, þó að það sé ógeymið á þann þurra fróðleik, sem finna má í landfræðibókum. Mannlegri þekkingu eru takmörk sett, og fáfræði er ósaknæm, ef hún er ekki blandin neinni meinfýsi. Engu að síður erum við Íslendingar furðuuppnæmir fyrir hvers konar ranghermi um Ísland, sem við kunnum að heyra af vörum erlendra manna eða lesa í erlendum ritum. Við slík tækifæri er okkur gjarnt að rjúka upp til handa og fóta og reyna að taka þar upp þráðinn sem Arngrímur lærði varð frá að hverfa með því að ryðja úr okkur upplýsingum um stærð hitaveitugeymanna í Reykjavík, um hitastig á sunnanverðu Íslandi í þorrainngang, um fjölda íslenzkra Nóbelsverðlaunahafa, sem við teljum í þessu ofboði vera einn og hálfan. Þá er okkur það ekkert launungarmál að Þingeyingar eigi heimsmet í sundi og að tylft hættulegra skurðaðgerða séu daglega framdar í Landspítalanum við Hringbraut. Í þessum efnum má segja, að okkur skorti eitthvað af rósemi Englendinga, sem mæla greind annarra þjóða eftir kunnáttu þeirra í brezkri sögu.

Viðkvæmni okkar um allt það, sem Ísland varðar, er vafalítið að einhverju leyti tengd þeirri vanmetakennd, sem smáþjóðir ala einatt hið innra með sér. Hitt mun þó vafalaust þyngra á metunum, að Íslendingar eru óvanir þeim mælieiningum, sem stærri þjóðir nota í mati sínu á smáþjóðunum, því að þeir hafa aldrei notað slíkar einingar í mati sínu á sjálfum sér. Það er engu líkara en að einhvern tíma í grárri forneskju hafi stærðarhlutföll íslenzks mannlífs, miðað við alheiminn, raskazt, þannig að á Íslandi hafi þumlungarnir lengzt og orðið að álnum og álnir að föðmum. Við slíkar breytingar hafa svo komið fram stórbrotin, séríslenzk hlutföll milli einstaklings og heildar. Hér er naumast um að ræða ofmat heildar á einstaklingi, heldur sanni nær, að

í augum einstaklingsins hafi fámenn þjóðarheild fengið yfirbragð stórþjóðar.

Stærðarmat Íslendinga á sjálfum sér er ekki byggt á þjóðernisdrambi eða ættarhroka, þó að slíkar tilfinningar kunni endrum og eins að hafa bærzt í brjóstum fáeinna manna. Hins ber miklu fremur að gæta, að um sjálfskoðun og mat á eigin sögu standa Íslendingar öðruvísi að vígi en aðrar þjóðir.

Eins og fyrr getur, er hér um að ræða viðhorf, sem er ævaforn arfleifð. Forn-Íslendingum fannst sitt eigið þjóðfélag nógu stórt til þess að gefa því þing og lög, og það var líka nógu stórt til að skapa og verða efniviður í stórbrotin bókmenntaverk. Þess gætir ekki, að hinir fornu höfundar hafi gert sér rellu út af smæð landsins og fæð fólksins. Þá sýna orðræður fornra höfðingja viðhorf einstaklinga til sjálfra sín og þjóðar sinnar. Sem dæmi má nefna þau orð, sem tólftu aldar höfðinginn Jón Loftsson lét falla sem svar við ágengni erlends stórveldis, en honum fórust svo orð: „Heyra má ég erkibiskups boðskap, en ráðinn er ég í að halda hann að engu, — og eigi hygg ég, að hann vilji betur né viti en mínir foreldrar, Sæmundur inn fróði og synir hans.“ Í þessu tilsvari er íslenzk bændamenning þyngri á metunum heldur en ægivald kaþólskrar miðaldakristni.

Á íslenzkum miðöldum er einkar sennilegt, að stórmannleg viðhorf hafi látið undan síga fyrir slæmu stjórnarfari og öðrum bágindum, sem leiddu til andlegrar og efnalegrar öryrkju á ýmsum sviðum. Á flestum öldum eignaðist þó Ísland þá menn, sem fannst það ómaksins vert að gerast fulltingismenn þjóðar sinnar í andlegum og veraldlegum efnum.

Til skýringar á þeim mælieiningum, sem Íslendingar nota fyrir sjálfa sig má enn nefna, að íslenzk tunga hefir hagað því svo, að nútíma Íslendingar eiga sér þúsund ára rætur í þeirri jörð, sem þeir ganga á. Jafnvel illa læsir menn vita altjent nokkur deili á fornum staðheitum, sem þeir heyra um eða taka sér í munn næstum daglega, og tengd eru þeim sögnum, sem rekja má aftur til landnámsaldar. Enginn heimsækir svo Laxárdal í Dölum vestur, að hann verði þess ekki var, að í vitund fólksins, sem hann hittir, lifa hinir fornu Laxdælir góðu lífi í staðheitum og kennileitum og eru þannig samtíðarmenn þeirrar kynslóðar, sem nú byggir dalinn. Sama máli gegnir um sambúð Rangæinga og Skaftfellinga við sögupersónur Njálu. Þetta nána sambýli nútíðarmanna við fortíðina er ofarlega í huga þeim mönnum, sem skipa íslenzkum menntamálum, því að íslenzka og Íslandssaga eru einráðar að kalla í sagn- og málvísindum við Háskóla Íslands.

Náið samband við fortíðina er vafalaust meginorsök þess, að Íslendingum er gjarnara að sjá sitt eigið þjóðlíf sem lóðréttan þverskurð frá fornöld til nútíðar heldur en sem þverskurð af nútíðinni einni. Lóðréttu línurnar auka ekki lítið á stærð þessarar sérstæðu, ef ekki einstæðu, þjóðlífsmyndar, þar sem horfnar kynslóðir eru látnar bæta upp fæð lifenda. Það sem á skortir

um breidd þeirrar myndar, bætir lengdin margfaldlega upp.

Í fornöld varð Ísland síðasta heimkynni andlegrar víkingaaldar Norður-Evrópu. Í þeirri menningu greinum við „hið stóra í hinu smáa“, þar sem fámennt þjóðfélag á norðurhjara heims reisir andlegri menningu allra forn-germanskra þjóða þann eina varanlega minnisvarða, sem þær eignuðust. Í íslenzkum gullaldarbókmenntum öðluðust norræn goð ódauðleika á banadægri sínu. Þeir fornmenn, sem gáfu sjálfum guðunum eilíft líf, voru verðugir forverar þess Íslendings, sem við upphaf þessarar aldar ávarpaði tungu feðra sinna sem drottningu „allra heimsins tungna“. Sami maður ætlaði þjóð sinni hlutverk stórþjóðar. Í ljóði hans áttu Íslendingar að verða „væringjar“ nútímans og „víkingar andans, um staði og hirðir.“ Að líkindum hefir hvorki fyrr né síðar verið gerð stórmannlegri úttekt á framtíð íslenzkrar menningar.

Það efni, sem nú hefir verið vikið að, er einkar mikilvægt til skilnings á sögu fyrstu íslenzku kynslóðanna í Vesturheimi. Forystumenn Íslendinga í sjálfstæðisbaráttunni á nítjándu öld litu svo til, að Ísland og íslenzka þjóðin væru þrátt fyrir smæð sína og fátækt verðug mikilla fórna. Landnámsmenn þeir, sem komu til Nýja Íslands á áttunda tug síðustu aldar, litu þjóðarbrot sitt ekki smærri augum en svo, að þeir réðust í að stofna nýlendu með sjálfstjórn. Lög þau, sem þeir sömdu handa hinu unga vestur-íslenzka lýðveldi, báru vitni um meiri stórhug en sæmilegt þótti í brezkum nýlendum þeirra tíma. Sams konar stórhugur lá að baki útgáfu Framfara, fyrsta íslenzka blaðsins, sem gefið var út í Vesturheimi.

Framfari er í rauninni einstakt plagg í sögu Norður Ameríku, og sama máli gegnir um íslenzku vikublöðin í Winnipeg, sem voru um skeið veigamestu fréttablöð á íslenzka tungu, þótt aðstandendur þeirra væru aðeins einn sjöundi hluti allra aldamóta Íslendinga.

Ekki alls fyrir löngu birtist grein í útbreiddu fréttariti í Bandaríkjunum um þann vandræðastugg, sem lætur nú mjög á sér bæra milli Engilsaxa og Frakka í Kanada. Í umræddri grein var þess getið til skýringar, að Frakkar og Engilsaxar væru ekki einu þjóðarbrotin í Kanada, heldur væru Þjóðverjar allfjölmennir í Ontario og Íslendingar í sléttufylkjunum. Grein þessi er eftirtektarverð sakir þess, að í henni notar stórveldi, að því er virðist óvart, sams konar mælikvarða á afkomendur Íslands í Vesturheimi og Íslendingar hafa notað fyrir sjálfa sig frá upphafi vega. Sjónarsvið greinarhöfundar er í fullu samræmi við líf þeirra Íslendinga, sem forðuðust vanmat á sjálfum sér, þegar þeir settust til borðs með hinu mikla þjóðanna safni í Vesturheimi.

Enginn vafi leikur á því, að hefði Íslendingum ekki tekizt snemma á öldum að gera sér sín séríslenzku stærðarhlutföll, hefði rás Íslandssögunnar orðið önnur en raun ber vitni. Hætt er við, að áhrif vanmetakenndarinnar hefðu orðið ærið djúpstæð, ef þumlungarnir hefðu verið notaðir einvörðungu við úttekt á íslenzku mannlífi. Þá er og

hætt við, að vestur-íslenzkir frumherjar hefðu hvorki mælt hin nýju lönd sín í álnum né föðmum. Andlegur smáþjóðarkyrkingur hefði varnað þeim máls á þeirri tungu, sem þeir eina áttu. Málleysi eða þögn hefðu orðið höfuðeinkenni fyrsta þáttarins í sögu Vestur-Íslendinga. Hefðu slík smáþjóðarsjónarmið náð yfirhöndinni, ættum við engan Stephan G., engan Framfara, Lögberg og Heimskringla væru enn óborin, Guttormi hefði ekki þótt taka því að yrkja um Nýja Ísland, Einar Páll hefði ekki talið þjóðarbrot sitt viðræðuhæft, og Gísli bróðir hans hefði slegið yrkingum sínum og útgáfu þessa tímarits á langan frest. Slíkur jarðvegur hefði verið lítt til þess fallinn að örva menntaþrá hinna yngri, og vart hefðu úr honum sprottið verðlaunahafar við æðstu menntastofnanir Vesturheims, og naumast hefði það þá fallið í hlut ungra Vestur-Íslendinga að vera árum saman sérstakir heiðursfulltrúar Kanada við sjálfan háskólann í Öxnafurðu á Englandi.

Það þykir jafnan bágborin rökfræði að sýna ranghverfu raunveruleikans. Samt ætla ég, að þau tilbúnu dæmi, sem nú var gripið til, sýni gjörla, hversu hin séríslenzku stærðarhlutföll hafa bjargað Íslendingum frá þeirri botnlausu gröf, sem ávallt bíður þeirrar smáþjóðar, sem leyfir skuggum stórþjóðanna að gleypa sig.

---

# Errata

In the last issue of "Tímarit" a few misprints occured in Guttormur J. Guttormsson's **Know Thyself.** Please note the following:

p. 73 The last two lines: **Worm:** But why etc. should be deleted.

p. 74 Insert between lines 17 and 18: **Worm:** But why is Butterfly here? **Firefly:** You said you were going to . . .

p. 79 The second last clause should read: They look through the window at **Worm's** body in the bed; smile at each other. **Firefly** lets the hem of her mantle drop . . .

BENEDIKT GÍSLASON
FRÁ HOFTEIGI:

# Grænlendingar finna Vínland

## I

Eitt er það í gömlum fræðum Íslendinga, sem eins og annað margt, þarf mikillar athugunar við, en það er um Vínlandsfund Grænlendinga, sem þó gjarnast er metið til íslenzkra afreka til forna. Allt slíkt læt ég liggja milli hluta í þessu máli. Það verður ekki af Íslendingum skafið að söguna skráðu þeir, sem annað fleira sem af þessu er að segja, þótt það blasi við, að hér er allt mjög vangert í upphafi, og er þó enn síður að þessi sagnfræði hafi verið tekin til yfirvegunar, og skilið þar á milli, sem satt mætti vera, og enda verður að vera, og hins sem ekki fær staðizt og er í stíl við fleira af gamalli sagnaritun Íslendinga, hjátrúarslúður eitt, en kynni þó, hingað og þangað, að leyna mjóum þræði sannrar sögu. Því er einmitt þannig farið með okkar Vínlandsfræði, að tiltölulega auðvelt er að sjá hvað satt er í þessum svo kallaða Vínlandsfundi Grænlendinga og hvað er hitt, sem er þjóðsagna rugl, sem búið er að ganga manna milli, margar kynslóðir, unz ritað er, flest af lítilli skynsemd, en mikilli ævintýra sögugleði.

Fyrst er að athuga það, hvað er að finna Vínland.

Þegar Íslendingar koma til Grænlands, eru þar menn fyrir, sem óðara eru nefndir skrælingjar, og það er sjálfsagt að þessir skrælingjar séu ekki menn, minnsta kosti ekki saman borið við vígamenn frá Íslandi. Þó kunna þessir skrælingjar að sigla skipum og hafa þó aldrei heyrt getið um Grím loðinkinna úr Hrafnistu. Þeir veiða dýr með skotum af boga eða skutla þau með handverkfærum. Á skipum sínum færa þeir sig til með fólk og bústaði, tjöld, eftir veiðivonum í sel og stórum sædýrum, og hafa algera samábyrgð á lífskjörum fólksins og samhyggja um öll veiðiverkbrögð. Þessir skrælingjar búa þá nyrzt af fólki, sem maður sér, að myndar samhangandi tilveru slíkra manna suður eftir Ameríku, og eru vegna sinna farkosta ekki í neinni einangrun frá öðru fólki, og annað fólk sunnar í löndum veit um allar samskiptaleiðir við það. Þetta er fyrir augum allra íslenzkra Grænlendinga í byrjun búsetu þeirra, og það þurfa ekki að koma til neinar sérstakar sögur til að skilja það, að um þetta hlutu Grænlendingar að forvitnast, en það er engin saga fyrir afreksmenn að fara í slóð skrælingja eða að viðurkenna það að goðbornir menn fái vitneskju um hlutina frá skrælingjum! Þetta er þó svo sjálfsagt, að ekki gat um annað verið að ræða, en þeir fengju fulla hugmynd um nálægð landa við Grænland, af háttum þessara gamalkunnu manna í nágrenni sínu. Allt

málið að finna Vínland, er því að athuga samskipti skrælingjanna í Grænlandi við nafna sína í löndunum fyrir vestan sundið, og síðan samskipti þeirra við þá sem eru í Labrador, en þá er komið í það meginland, sem nú heitir Ameríka og er margbyggt land af því fólki sem enn heitir Skrælingjar! Ekkert annað virðast hinir fornu Grænlendingar hafa gert og um annað er heldur eigi saga, því þótt hér væru búnar til allmiklar sögur af, þá sést þó að þær hafa í raun og veru ekkert annað inntak. Það er varla mikil saga né merkileg þótt Íslendingur, sem ætlar til Grænlands berist svo af leið að hann verði fyrst var við land í Labrador, norðarlega, og viti það af lýsingu Grænlands að þetta er ekki Grænland, en þetta er saga Bjarna Herjólfssonar. Sú saga sýndi það að hann komst þaðan misfellulaust á eigi löngum tíma. Er slíkt alkunn siglingarsaga. Og ef eitthvað væri að marka þessa sögu sem sögð er svo sögulega af Bjarna, þá mundi hún frekar þýða það, að hann hafi afspurn af þessum löndum og viti það að ekki er um Grænland að ræða, og haldi því ótrauður áfram í rétta átt, unz hann kemur til pabba gamla á Hrjólfsnesi. Nokkuð sami svipur er á siglingarsögu Leifs heppna, þótt eigi þyki hæfa að hafa ekki nokkra sögn af þeirri siglingu, sem átti að leiða til þess að finna nýtt land, ekki sízt þegar þetta heitir Vínland, svo langt sem það var frá öllum löndum að geta heitið svo dýrlegu nafni. Hins vegar sést það full glögglega að Leifur sigldi með löndum og hafa landafundamenn oft orðið að reyna brattara. Þarf ekki annað en skoða kortin til þess að sjá að þetta er satt, auk þess sem ferðalýsingin í sögunni ber þess vitni.

En hvaða land er þá Vínland?

Það má segja það strax að sagnritun Íslendinga vill gera sem mest úr þessum landafundi og eflaust er það hennar verk að kalla Vínland hið góða, því það sagði Leifur ekki, er hann skýrði landið, og ef til vill er það eingöngu íslenzk sagnritun að kalla landið Vínland, af því svo átti að bera til eftir sögunni, að fylgjarar Leifs þóttust finna vínköngla á trjám. Tómur hugaburður má ætla að það sé, jafnvel á þessum slóðum, þar með talið Grænland og Ísland að loftslag hafi verið hlýrra í þá tíð, en síðar hefur orðið og þekkt er. Af því sem sagt er frá í þessu efni er leiðarlýsinguna mest að marka, en annað flest er ofsögum og þjóðsögum blandað, og marklítið mál, og má segja að í ferðalýsingu Þorfinns Karlsefnis gefist næsta glögg vitneskja um þetta ferðalag Grænlendinga, og hvað þeir komust lengst suður á bóginn. Er þetta eðlilegt, því ferðasaga Þorfinns er náttúrlega uppáhaldssaga í ætt hans á Íslandi, sem var hin merkasta, og var Snorri sonur hans langafi hinna merku manna, Bjarna biskups á Hólum d. 1162 og Bjarna ábóta á Munkaþverá d. 1181, en í hans tíð hefur verið ritað mikið á Munkaþverá. Var og Þorgeir Snorrason faðir Ingveldar, móður Brands biskups á Hólum Sæmundssonar. Er engin furða þótt finna megi rit í þeirri sögu er þessir menn segja. Eins og sagnir af þessum atburðum bera með sér, fer tvennum sögum

um þennan Vínlandsfund. Bjarni Herjólfsson var farmaður einn, frá Eyrabakka, er hugðist leita föður síns er bjó í Grænlandi, en var ný farinn þangað er Bjarni kom að utan á Eyrum og bar Bjarni þá ekki af skipi sínu varning, heldur hélt á haf út til Grænlands á eftir karli. Bjarna var allt ókunnugt á þessum siglingum, en hafði þó lýsingu af Grænlandi, er hann bjóst við að væri rétt. Nú kom Bjarni að löndum, er hann sá að eigi gátu átt skylt við Grænland, og ályktaði hann sem rétt reyndist, að hann mundi miklu sunnar kominn að löndum, en að um Grænland gæti verið að ræða, og mátti vel ráða það af sólfari, því sjálfsagt hefur það verið glöggt orðspor af Grænlandi að þar var sólfar svipað og á Íslandi og síðsumars er hann þarna eflaust staddur. Bjarni sigldi því í norður og náði heilu og höldnu til föður síns á Herjólfsnesi. Ekki er hægt að tímasetja þennan atburð, en sagan segir að Herjólfur hafi farið til Grænlands með Eiríki rauða, og ætti það þá að vera um 984—85. Nú lýsti Bjarni þeim löndum, sem hann hafði séð á siglingu sinni, en látið ókönnuð að öðru leyti, en eigi virðist þá þegar vera til staðar áhugi að leita þessara landa og segir nú að Bjarni hafi farið utan til Noregs á fund Eiríks jarls. Þetta er Eiríkur sonur Hákonar jarls Sigurðssonar er Ólafur Tryggvason drap 995, og var þá Eiríkur ekki í Noregi fyrr en hann og fleiri höfðu fellt Ólaf við Svoldur 1000, og eiginlegt jarlsnafn hafði Eiríkur ekki fyrr en hann kom í Noreg eftir þá atburði og hafði þar völd í landi að hluta til, en hét aldrei konungur. Jarlsdæmi eða umboð gat hann haft af föður sínum, áður en þessir atburðir gerðust, og óstýrlátur var hann við föður sinn snemma, og jarl er hann nefndur í Jómsvíkinga orustu með föður sínum um 990. Verður það að vera í þessu fyrra jarlsdæmi Eiríks, sem Bjarni Herjólfsson dvelur með honum og segir honum af þeim löndum, er hann hafði fundið á ferð sinni til Grænlands. Segir þó í sögunni að Bjarni hafi verið hirðmaður Eiríks jarls, en varla hefur hann haft mikla hirð fyrr en hann réði löndum í Noregi eftir árið 1000. Þetta er eins og fleira, sem illa kemur heim og saman í fornum sögum, en þó eflaust að einhverju leyti rétt. Bjarni dvaldi vetrarlangt með Eiríki, en fer þá um sumarið til Grænlands. Segir nú að umræða hafi orðið um lönd þau sem Bjarni fann. Og þá er orðinn mikill maður, Leifur sonur Eiríks rauða, og fer hann nú á fund Bjarna og kaupir af honum skip til landaleitar eftir tilvísun Bjarna og er síðan sá mikli Vínlandsfundarmaður, en yfir allan þátt Bjarna Herjólfssonar var strikað í þessum landafundum, og til þess kom önnur saga, sem ekki nefnir Bjarna á nafn, og er eflaust eitt af hinum sígildu dæmum um sagnaritun til forna, að Bjarni frá Drepstokki er ekki nógu tiginborinn maður til að finna lönd. Til þess er Leifur, sonur víga Eiríks frá Dröngum, miklu hæfari maður. Segir nú frá því í þessari sögu að Leifur sigldi að tilvísun Bjarna, og rakti lönd þau er Bjarni hafði orðið var við og var nú hans saga það frægari en Bjarna, að í hverju landi gekk hann upp á land og gaf þeim nöfn af einkennum

sem við augum blöstu. Er þessi siglingar saga Leifs öll glögg og líklega mest að marka og verður síðar athuguð. Hin sagan, sem í engu skeytir um þessa sögu, segir frá í upphafi, að Leifur frá Brattahlíð í Grænlandi var í Noregi með Ólafi konungi Tryggvasyni 995—1000. Hafði hann, vetur áður, verið í Suðureyjum og hélt þar við konu er Þórgunnur hét og fæddi hún honum síðan dreng, er kemur lítt við sögu. Ólafur konungur vakti mál á því við Leif að gangast fyrir kristintöku Grænlendinga, því nú var hann búinn að fá hinn vitra hund frá Írlandi. Leifur fór nú frá Noregi, og var lengi í hafi og hitti lönd þau er hann vissi áður enga von til, og líkist sagan í þessu, sögu Bjarna Herjólfssonar, því báðir hitta þeir nú Leifur þessi lönd, er þá bar af leið til Grænlands. Segir nú í þessari sögu að þar hafi verið hveitiakrar sjálfsánir og vínviður vaxinn, og er þetta venjulegt sögumanna raup, því engir akrar vaxa, hvorki sánir né ósánir, nema þeir séu skornir upp, og þá byggð í landi, sem að vísu kemur á daginn að er, þótt hér beri ekki að nefna svo ómerkilega hluti! Skógur var þar stór og dýrindis viður að þeirra tíma mati. Í þessari ferð átti Leifur að finna skipbrotsmenn á skeri og er nú enginn grein á þeim gerð og hafa allir vetursetu í Grænlandi. Ekki leizt Eiríki á trúna, sem Leifur kom með frá Ólafi konungi, en kona hans, Þjóðhildur, gerði meiri róm að, tók trúna og hætti að sofa hjá Eiríki, og segir að Eiríki þótti það mikið mein. Segir nú í sögunni, sem heitir saga Eiríks rauða, að „á því gerðist orð mikið að menn myndu leita þess lands er Leifur hafði fundið“ segir orðrétt í sögunni, en hvernig sem því víkur við að þessi saga gerist nú alllöng, en Leifur Eiríksson er þar ekki nefndur á nafn og var Þorsteinn Eiríksson, sem ekki er að skilja, að sé Þorsteinn sonur Eiríks rauða, formaður fyrir Vínlands ferð og var Eiríkur rauði með. Þennan leiðangur velkti úti allt sumar og kom aldrei til Vínlands, en náði Grænlandi við vetur, höfðu menn haft sýn af Íslandi en fugl af Írlandi og fór svo um sjóferð þá. Urðu nú hinar mestu sögur. Þorsteinn Eiríksson, sem nú er sonur Eiríks rauða, fær Guðríðar Þorbjarnardóttur frá Laugarbrekku, en Þorbjörn hafði flutt til Grænlands. Sótt mikil kemur í mannskapinn og andast Þorsteinn Eiríksson, en rís upp dauður til að tala við Guðríði konu sína og segja henni fyrir mikil forlög og um að gera að eiga ekki grænlenzkan mann eftir sig, og eftir það deyr hann í annað sinn og var þá úti um hann. Hvort að menn skrifa slíkar sögur í fræðalegri alvöru, er ekki gott að segja, en sé svo, þá rýrnar gildi allra þessara sagna, enda er þetta ekki eina endaleysan sem hér er skráð. Þorfinnur karlsefni hafði komið af Íslandi maður stórættaður enda hét faðir hans Þórður hesthöfði, og er þá ekki ástæða til að gera lítið úr forfeðrum Þorfinns né afkomendum. Siglingar saga til Vínlands kemur nú eftir þessari sögu eingöngu í hlut Þorfinns karlsefnis, Þorvaldar Eiríkssonar rauða og Þorvarðar er átti Freydísi laundóttur Eiríks rauða. Úr ferðum þessara manna verður nokkur könnun á

landinu, sem ef til vill má taka mark á, samkvæmt því sem fyrr var sagt um afkomendur Þorfinns á Íslandi. Af þessari sögu má draga þá ályktun að Leifur Eiríksson sé fallinn frá og sagan gerist ekki fyrr en nokkrum árum eftir árið 1000. Verður nú um stund að hverfa að hinni fyrri sögunni, sem á var minnzt, og heitir Grænlendinga saga og þar tekið til sem Leifur kaupir skipið af Bjarna Herjólfssyni og leitaði landa þeirra er Bjarni sá. Nú segir sagan „Nú bjuggu þeir skip sitt og héldu í haf, þá er þeir voru búnir og fundu þá það land fyrst er Bjarni fann síðast. Þar sigla þeir að landi og köstuðu akkerum og skutu báti og fóru á land, og sá þar eigi gras. Jöklar miklir voru allt hið efra, en sem ein hella væri allt til jöklanna frá sjónum og sýndist þeim það land vera gæða laust. Þetta land kölluðu þeir Helluland þaðan sigldu þeir til næsta lands suður af og var það nú betra land og kölluðu þeir það Markland. Þaðan sigldu þeir í haf, segir sagan, og voru úti tvö dægur, en það er sjálfsagt tveir sólarhringar og komu þá að ey einni er lá norður af landi, sem þeir komu til og gengu þar upp og smökkuðu á dögginni, og þótti hún sæt, og þarf ekki að spyrja að söguhöfundinni.

Nú héldu þeir til skips og sigldu í sundið milli eyjar og lands og er nú tekið fram, að þeir sigla í vestur átt, fyrir nesið á landinu, sem eðlilega er þarna upp frá eyjunni. Þar námu þeir staðar. Er grunnsævi þar mikið og stóð skipið, og mundi þá mega álykta að þeir væru komnir í fjarðarbotn, því úti fyrir strönd þarf enginn að fara svo grunnt að skipið standi, en í fjarðarbotnum getur dregið sjó undan skipi svo fast standi, enda kom það á daginn, að með flóði losnaði skipið og er því augljóst mál að þeir eru í fjarðarbotni. Á rann þar til sævar, sem oftar er í fjarðarbotna og enda venjulegt og gegnum vatn eitt eða lón, sem sömuleiðis er eitt kunnasta fyrirbæri upp frá fjarðarbotnum. Þarna setjast þeir að og gera skála sína og skorti þar ekki lax í ánni og vænni lax er þeir þekktu til áður, þeir eru komnir í Vínland eftir svona stutta sögu. Þarna lízt þeim að séu landkostir góðir og mundi fénaður eigi þurfa fóður á vetrum. Þar komu eigi frost á vetrum og gras féll ekki á hausti, og síðan var þar meira jafndægur en á Grænlandi og Íslandi. Um fóður þörf fénaðar hefur eigi komið full reynd á þennan vetur, sem þeir voru þarna, og víst máttu þeir sjá að barrskógar láta eigi lit um vetur. Nú segja þeir að jafndægur hafi verið þarna meiri en á Grænlandi og Íslandi og hafi sól haft eyktar stað og dagmála um vetur. Það er vitaskuld að þeir eru miklu sunnar en á Grænlandi og sólargangur því lengri um skammdegi sem sunnar er. En nú segja þeir að jafndægrið sé aðeins meira, en í þessum nefndu löndum, en dægur er stutt þar um sólstöður. Það er ekki fullt jafndægur, og þýðir þetta því eyktar stað og dagmála, að sól kemur upp í dagmálum kl. 9 og sezt á eykt, kl. 3, það er mikið meira sólfar en er á Íslandi og Grænlandi og er hitt kolrangt, sem álitið hefur verið, að þetta þýddi að sól væri frá 6 að morgni til 6 að kvöldi

eða fullkomið jafndægur, og mundi þeir þá hafa sagt það, en ekki hitt að jafndægur væri þar meira en í Grænlandi. Af þeim má mikið mið taka um það, hversu sunnarlega þeir komust og virðist það liggja nokkuð beint við, hvar þetta Vínland þeirra er, en sögur um vínberja tré, eru náttúrlega hugarburður, en venjuleg tré munu þarna vera stórvaxin eða meiri en annarsstaðar. Um vorið fór svo Leifur til Grænlands og verður ekki þess vart af sögunni að honum hafi þótt mikið til koma, né að þarna mundi meira framtíðarland en á Grænlandi og virðist hann hafa verið afhuga öllum frekari Vínlands ævintýrum, því Þorsteinn bróðir hans taldi landið eigi nógu vel kannað og bjóst síðar í samskonar leiðangur og Leifur hafði farið. Hvað mundi nú mega álykta af þessu ferðalagi? Kortið sýnir okkur lönd á þessum slóðum, öldungis þau sömu, sem voru þarna á dögum Eiríks rauða. Á móti Grænlandi liggur Baffinsland eitt og er stórt land og langt. Bæði Helluland og Markland Leifs verða að vera á Baffinslandi. Á milli Grænlands og Baffinslands er Baffinsflói og þar sem skemmst er til Grænlands kallast Baffinssund og mun þar á milli eitthvað yfir 200 km. Liggur þar stór skagi út úr Baffinslandi út í Baffinsflóann og hefur aldrei verið erfiðleikum bundið að ferðast þarna á milli, ekki einu sinni fyrir þessa svo kölluðu Skrælingja á húðkeipum sínum. Sunnar skerast miklir flóar inn í Baffinsland og það eru skagarnir á milli þeirra, sem fá þessi landanöfn sem sagan segir að Leifur hafi gefið. Fyrir sunnan Baffinsland tekur við Hudsonflóasundið og er allbreitt þarna undan austurodda Baffinslands og er það þetta tveggja dægra haf sem í sögunni getur. Þá komu þeir að norðurodda Labrador, en þar eru eyjar úti fyrir sem í sögunni segir. Þeir eru austanvert við hana og stefna nú milli hennar og lands í vesturátt fyrir nesið, eins og í sögum stendur, og koma þá í Ungavaflóann, sem þarna skerst suður í Labrador. Í botni á honum færa þeir og er það talsverð leið en fljótfarin vegna strauma. Í þennan flóa renna ár af landi ofan, Kokseah áin að austan, en Leafáin að vestan og upp í aðra hvora þá á, færa þeir skip sitt, og virðist eftir kortinu, sem lón nokkurt sé við ósa Leafárinnar. — Við Kokseahána er nú þorp lítði til veiðimennsku er heitir Fort Chinnó. — Þarna er þá Vínland Leifs heppna og þarna stendur heima með sólfarið, sem lýst var í sögunni að þar væri um skammdegi. Það mun vera um 5 breiddargráðum sunnar en Ísland eða um 500 km. Eins og sagði þá er þetta öll siglingarsaga Leifs í landafundum. Eftir þetta kemur hann ekki við neina Vínlandsferðasögu, en hans getur við það að leigja öðrum Vínlandssiglingar mönnum afnot af búðum sínum í Vínlandi. Hann vill ekki eiga meira við sitt ágæta Vínland. Það kemur á daginn að hann veit hversu hér er í pottinn búið. Þessi saga er stutt og yfirlætislaus. Leifur skírir landið Vínland, þegar einn fylgjari hans staðhæfir að hafa fundið vínberjaköngla. Það er eins og manni finnist að hann gera það brosandi, því þá þegar, þrátt fyrir vínber, veit hann að einu má gilda,

hvað þetta land heitir fyrir þá, sem hér eru á ferðinni. Það heitir ekki Vínland hið góða í hans munni. Það er annara manna mál og minna ábyrgra um það sem þeir segja. — Sagan segir að Leifur hafi verið vitur maður. Það er líklega það, sem er sannast sagna í Grænlands kronikum.

Svo sem sagði í upphafi þessa máls, fór allmikil saga af Þorfinni karlsefni í Grænlandi og Vínlandi. Getur þess í báðum þessum sögum, sem hér hafa verið heimildir að frásögn Eiríks sögu rauða og Grænlendinga sögu. Í framhaldi af hinni hófsömu og fábreyttu, en frekar glöggu sögu Leifs um Vínlandsferð í Grænlendingasögu, segir næst af ferð Þorfinns til Vínlands. Hann hafði komið frá Noregi til Grænlands á þessum tíma, og segir hér skilmerkilega af ætt hans, sem strax vekur traust á því að hér sé frá sagt með fullri fræðilegri ábyrgð, þótt svo fari eins og fyrri daginn að ýmsu sé blandað í mjöðinn, sem nútímamenn þurfa að skyrpa út úr sér og varast að kyngja. Sagt er að Þorfinnur hafi verið stórauðugur af fé og er það fé sjálfsagt á Íslandi og er því merkilegri tiltekja hans að ætla að byggja Vínland, sem sagan segir að hann hafi búizt við að gera. Hann kvæntist þarna Guðríði ekkju Þorsteins Eiríkssonar, þess er þá var sagt að dó tvisvar, og sást reyndar afturgenginn að auki. Segir, að þessa hafi Guðríður verið fýsandi, að Þorfinnur byggi ekki á Grænlandi, og blikar hér eflaust sagnfræðilega á minning þess, sem fyrir var sagt, að Þorsteinn, í fyrra sinn dauður, réð henni til að staðfestast ekki í Grænlandi. Segir nú að tókst upp umræðan um Vínlandsferð og réðst ferð Þorfinns og með honum var kona hans, Guðríður og 60 karlar og fimm konur. Hafði Þorfinnur búsmala á skipi, því hann og hans fylgjarar ætluðu að byggja landið. Ekki er gert ráð fyrir stórum sjóum né langri útivist, ef lagt er í ferðina með búfé, enda hefur það tæpast verið nema nokkur stykki kúfénaðar og er getið um einn bola. Ekki er nafngreindur nokkur maður í ferðinni og ekki kemur þetta til kasta Leifs nema hann ljær Þorfinni hús sín á Vínlandi en gefur nú, en selur eigi, svo kaup á þeim virðast hafa verið á dagskrá. Létu nú skipin í haf og komu til Leifsbúða, heilu og höldnu, segir sagan, og báru upp húðföt sín, og bar þeim til bjargræði mikið, er þar var ný upprekinn hvalur, bæði mikill og góður. Rann fénaður á land upp. Lét nú karlsefni fella viðu til skips síns og lagði viðinn á bjarg eitt til þurrkunar, hefur sennilega ætlað að smíða skip eða báta og nú höfðu þeir öll gæði þarna af landkostum er þar voru, vínberjum og allskonar veiðum og gæðum. Segir nú sagan orðrétt: „Eftir þann vetur hinn fyrsta kom sumar. Þá urðu þeir varir við skrælingja og fór þar úr skógi fram mikill flokkur manna“. Já, manna, segir sagan. Það er líklega ritvilla. En þá fór nautið að belja og hræddust skrælingjarnir og lögðu undan til bæjar Þorfinns með byrðar sínar, sem voru grávara og safali og alls konar skinnvara. Þetta er rétt saga um náttúrugæði hinna kaldari, norðlægari landa, en að vínber séu í skinnbelgjum er hæpnara

að sé rétt. Tókust nú upp kaup með þessu fólki og skildi þó hvorugt annara mál. Fór þessu vel fram. — Létu skrælingjar eftir bagga sína af varningi sínum en fengu kúnyt í staðinn.

Lét nú karlsefni gera skíðgarð, rammlegan, um bæ sinn, er hann var nú orðin þess vísari að landið var byggt af mönnum og komu nú í ljós vitsmunir Leifs, að hann vissi ástæður í þessu landi, að það var fullt af fólki, og þá náttúrlega hitt, sem hann mátti vitaskuld álykta, að ekki þýddi að leita fyrir sér sunnar á landinu, er byggt var til norðurendimarka þess. Leifur veit að Vínlands ævintýri er búið, í þá veiðistöð kemur hann ekki framar. Eftir vetursetu fór hann og hefðu skrælingjar sagt frá dvöl hans á prenti, þá hefði það verið lík saga og af Hrafna-Flóka á Íslandi. Nú kom annar vetur og fæddi Guðríður son sinn, Snorra, sem síðar á að vera frægur að því að vera fyrsti Evrópumaður, eða jafnvel hvítur maður, sem fæðist í Ameríku. Það eru eingöngu kotbúa fræði á engu viti byggð. Það er ekki einu sinni víst að hann sé fyrsti Íslendingurinn sem þar fæðist. — Öndverðan þennan vetur komu skrælingar aftur til kaupskaparins og fór sem hið fyrra sinni að þeim þótti kúnytin góð, en nú gátu þeir goðbornu menn ekki á sér setið og drápu einn skrælingjann. Sá nú Þorfinnur í hvert óefni var komið með friðinn við þetta fólk í nágrenni sínu og skammt mundi setið á friðarstóli, og fór það að vonum, að nú komu skrælingjar með ófriði og varð bardagi harður við Þorfinn og lið hans og féll fjöldi skrælingja, segir sagan, en ómerk er hún um alla niðurstöðu af orustunni aðra en þá, að Þorfinnur og lið hans fór um veturinn að Leifs búðum í Vínlandi. Segir nú sagan: „En að vori lýsir karlsefni að hann vill þar eigi lengur vera og vill fara til Grænlands“. Bjuggu þeir nú ferð sína og höfðu þaðan gæði í vínviði og berjum ok skinnvöru, segir sagan, og er um það að segja sem sagt var, og vínber og skinnvara fara aldrei saman í framleiðslu og kaupskap. Þorfinnur fór síðan til Íslands og bjó þar. Þessi saga af Vínlandsför Þorfinns er jafnyfirlætislaus og samskonar saga af Leifi Eiríkssyni, og sennileg, að því er tekur til um hætti fólksins og ferðalag, og mun þó búféð ekki hafa verið nema lítið og ekki er þess getið í ferðinni til baka með vínkerin og skinnavöruna. Merkilegt er það, að til skuli meiri saga af ferðum Þorfinns í Vínlandi, en hér er sögð, svo náttúrlega sem hér er frá sagt, og sannleikanum samkvæmt um það, að sömu för fór Þorfinnur til Vínlands og Leifur Eiríksson, að ná þar eigi fótfestu í landi. Segir meir frá því síðar. Í Grænlendinga sögu segir nú frá því, að er Þorfinnur vildi ekki eiga meir við Vínland og fór til Íslands þá fýsir Freydísi Eiríksdóttur, sem fyrr var nefnd, að fara til Vínlands og náttúrlega með manni sínum Þorvarði. Til Grænlands höfðu komið tveir austfirzkir menn, Helgi og Finnbogi, og nú gerir Freydís samning við þá að fara með sér til Vínlands og skyldu þeir bræður hafa 30 vígra manna á skipi, og Freydís ekki fleiri. En það sveik Freydís og hafði 5 mönnum fleira og kom fljótt í ljós annar ójafnaður hennar í félagi

þessu eins og það, að nú varnaði Freydís þeim afnota af Leifs búðum, er hún taldi Leif hafa lánað sér. — Urðu þeir bræður að byggja sér búðir og ef þessa sögu væri nokkuð að marka, þá mundi þetta vera einkenni enn í dag á þeim fornleifum, sem finnast kynnu frá þessum ferðalögum og gagnlegt til að ákveða rétt um staðinn. Fór nú í þústur milli skipshafnanna. Nú stendur í sögunni sú setning, sem eins og hefur gleymzt að þar stæði áður.

„Nú tók að vetra". Reyndar tók að vetra og þótti engum merkilegt, en áður rénuðu þar ekki grös, og nú er í stuttu máli að segja, að: Freydís réð þeim bræðrum og öllum förunautum þeirra, þar á meðal 5 konum, bana. Sagan breiðir yfir það, sem hér hefur skeð með þungum áfellis dómi yfir Freydísi, sem hún að vísu verður ekki undan færð. En forsendurnar fyrir svo miklu ódáðaverki eru ekki gildar í sögunni. Hér hefur það eitt gerzt, að vetrarfar hefur orðið strangt, sem líka í annan stað frá segir í öðru efni og Freydís sér fram á vistaþrot og tekur það til ráðs að lóga af fóðrunum. Engin önnur skýring er gild á ódáðaverki Freydísar og engin skýring er eðlilegri, eins og þarna gat á staðið eftir 65 manna flan á eyðistað. Muni þessi för Freydísar hafa orðið hin síðasta, sem Grænlendingar gerðu til Vínlands og endað ófrægilegast.

Sú saga, er á var minnzt, að segði frá Vínlandsför Þorfinns, önnur en sú er þá var sagt, er saga Eiríkis rauða, sem einnig fyrr hefur verið getið. Allur síðari partur og nálega helmingur, er saga Þorfinns Karlsefnis. Sagan um för hans utan af Íslandi, kvonfang hans er hann fékk ekkju Þorsteins Eiríkssonar, Guðríðar Þorbjarnardóttur og síðan landaleit hans er hann fór að leita Vínlands. Þeir sem skrifað hafa söguna hafa viljað hafa það er þeim leizt, svo sem frægt er í sagna ritum Íslendinga. Eins og ég sagði er ekki getið um neina landaleit Leifs Eiríkssonar í þeirri sögu, aðeins, sem sagt var, að hann fann lönd, er hann sigldi frá Suðureyjum til Grænlands og við landaleit Þorfinns kemur nú Leifur ekki, — ekki nefndur á nafn og því síður búðir hans. Eigi að síður segir nú sagan að umræða hefði orðið á því að leita **Vínlands hins góða,** og kemur það nafn hér fyrst fram, án alls semhengis við söguna og vekur ekki traust á sagnfræðinni, sem eftir fer. Hér virðist Þorfinnur eiga að hafa heiðurinn af fundi þess góða lands og er það fremur lélegur mórall í sögugjörðinni og ólíklegt að þeir sem söguna segja, og gera, viti ekki betur. Nú segir frá því hverjir lögðu í þessa landaleit, en með Þorfinni hafði komið af Íslandi Snorri Þorbrandarson úr Álftafirði á Snæfellsnesi og auk þess komu í öðru skipi, Bjarni Grímúlfsson og Þórhallur Gamlason, austfirzkur maður. Nú fylgjast þessir allir að og auk þess getur um Freydísi Eiríksdóttur og Þorvarð mann hennar, en alls voru 140 menn í förinni, bústofn ótilgreindur og náttúrlega annar þarfsamlegur búnaður. Nú getur þess að þeir fóru fyrst til Vestri-byggðar, en þaðan er stytzt yfir á Baffinsland. Nú komu þeir þar sem þeir kalla Bjarneyjar og sigldu þaðan tvö dægur í suður, þá fundu þeir land og nú

skýra þeir þetta land Helluland, vegna þess að þar eru hellar stórir, margir tólf álna víðir. Fjöldi var þar melrakka. Enn sigldu þeir tvö dægur og fundu þá land, sem þeir kalla Markland og verður að segja það, að þetta er merkileg saga, þegar hitt er vitað, sem frá Leifi segir, og án þeirrar sögu leita þessir ekki Vínlands þótt það heiti nú hið góða. Sigldu þeir nú enn langa stund og koma að nesi einu. Var landið á stjórn og öðru vísi verður ekki siglt suður með Ameríku. Er nú ferðalýsingin grautarleg, en öll verður þessi sigling að vera á Baffinslandi, sem síðar sést. Þá sigla þeir á fjörð einn og lá þar ey úti fyrir, mikil varpey og voru þar straumar miklir. Er nú auðséð að þeir hafa farið um Hudsonflóasund, þar sem straumar eru miklir, enda kalla þeir fjörðinn Straumfjörð, en eyna Straumey, og er ekki annars staðar um slíkt að ræða á þessum nefnda stað. Ey mikil liggur líka í Ungavaflóanum og er hér um hann að ræða. Á eynni búast þeir um. Segir nú í sögunni að: „Þeir gáðu einkis útan að kanna landið, þeir voru þar um veturinn og var ekki fyrr unnið um sumarið. Tókust af veiðarnar og gerðist illt til matar". Hér er þá komin, sagan af Hrafna-Flóka, er hann vann ekki fyrir um sumarið og felldi féð um veturinn. Segir nú frá galdrabrögðum, jafnt og áheitum á guð, í þessum matarvanda og hét Þórhallur veiðimaður sá er galdrana reyndi. Ruglast nú frá sögu mjög og nær ekki samhengi. Vill Þórhallur veiðimaður fara norður fyrir Furðustrandir að leita Vínlands og er nú merkilegt ef það er í norðri, og er hér missögn, því Þorfinnur vildi fara suður fyrir landið og réð hann. — Þetta þýðir að fara austur fyrir oddann á Labrador og suður með landi og fóru þeir Þorfinnur það og voru lengi. Þeir fóru þar til að á féll ofan af landi og í vatn eitt til sjávar. Eyrar voru þar miklar og varð að sæta flóði að komast í ána, þessi lýsing kemur heim við Hamiltonána, sunnarlega á Labrador og hér er það, sem það á við, sem segir um Þórhall veiðimann, að hann vill fara norður fyrir Furðustrandir og leita Vínlands, svo ekki verður nær komizt að staðsetja Vínland, en eins og fyrr var gert í þessu máli, við botn Ungavaflóans. Þeir Þorfinnur kalla þarna í Hópi og eins og sagði myndar engin á Hóp á allri Ameríkuströnd, sem hér gæti verið um að ræða, nema Hamiltonáin. Þarna við hópið búast þeir um og var þar vínviður á holtum og hveitiakrar í lægðum, þetta er á 54. gráðu n.l. breiddar og gæti staðizt að þarna væru vínber, ef hlýrra hefði verið í veðri, en nú gerist, annars ekki. Nú segir sagan að þarna við vatnið — Hópið — hafi þeir gert búðir sínar og setið þar þann vetur, en segir þó, að tvímæli leiki á þessu og allt hafi verið á sama sumri, sem þeir fóru suður fyrir landið — Vínland — og þeir komu aftur norður. Það kom fljótt í ljós, sem gruna má, að Leifur hafi rétt til getið af vizku sinni, að því fleira fólk sé á þessum slóðum sem sunnar dregur í landið og höfðu þeir verið þarna aðeins skamma stund er margmenni kom á vit þeirra á skipinu yfir vatnið. Fóru þeir með friði og veifuðu hvítu, sólarsinnis, til marks um það, að þeir legðu ekki

ófrið. Ekki varð þeirra erindi þó annað í það sinn, en undrast þá menn er þeir fyrir hittu og fóru síðan! Segir nú um vetrarfar þarna að enginn kom snjór á jörð og gekk fé þeirra sjálfala fram. En um vorið sá þeir einn morgun snemma, að fjöldi húðkeipa reri sunnan fyrir nesið, segir sagan. Virðist það eiga að skiljast þannig að þeir kæmu af sjó. Veifuðu komumenn eins og áður og tókst nú kaupstefna. En nú bjóða þeir Karlsefni ekki búnytina, heldur rautt skrúð.

Hefur líklega ekki verið margt um kvikfénaðinn eftir það, að eigi var unnið fyrir sumarið áður. Rann nú rauða skrúðið út og hækkaði í verði eftir því sem minna varð til af því og dugði síðast lítil ræma af þessu rauða skrúði fyrir ófölvan belg. Er nú enn skinnavaran, sem mest orð fer af og sýnir það, að hér er ekki komið suður í neina vínberja Ameríku, sem ekki er von og er þetta vínberja slúður að engu hafandi. Þá hljóp griðungur úr skógi sem þeir karlsefni áttu. Segir sagan, og gall hátt, það fældust skrælingjarnir og hlupu á skip sín og reru suður fyrir landið, stendur þar. En þá varð það litlur síðar að skrælingjar komu aftur, og var nú mor manna, sem straumur stæði, og veifuðu allir rangsælis. Líkist nú sagan því, sem fyrr var sagt af Þorfinni við Leifs búðir í Vínlandi. Var nú ekki að sökum að spyrja að strax sló í bardaga og höfðu skrælingjar m. a. valslöngur, eins og Davíð konungur í bardaganum við Golíat. Þá færðu skrælingjar upp belg einn mikinn á stöng og köstuðu í karlsefni og sýndist þeim líkast sauðavömb og ýldi í henni, eins og segir í draugasögum. Lögðu þeir karlsefni þá á flótta fyrir sauðavömbinni og eltu Skrælingjar flóttann og kom nú Freydís til sögunnar, sem var þung á sér og gat ekki hlaupið sem aðrir kappar. — Fann hún dauðan Þorbrand Snorrason, eflaust son Snorra, er getið var, þótt hans geti ekki fyrr. Lá sverð hjá honum og tók Freydís það, hneppti svo frá brjóstum sér og sló sverðinu á þau og flýðu þá skrælingjar. Af endalokum bardagans segir svo sagan: að þeir karlsefni urðu ofurliði bornir og fóru þá **heim** eftir það til búða sinna! Auðséð er reyndar hvað hér er á ferð. Íslendingar eru á hjóli að segja sögur og yfirstéttin skrifar ekki bardagalausar sögur. Það er engin saga, enda haft eftir kerlingu einni að ekki sé gaman að guðspjöllunum, því enginn er í þeim bardaginn. En hvað sem er að segja um þessa bardaga sögu með sauðavömb og kvenbrjóst, þá kemur nú sagan aftur að því, sem þá var sagt í Vínlandi, að karlsefni sér það, að hér muni jafnan á liggja ótti og ófriður og þeir muni ekki fá notið landkostanna þar í landi. Bjuggust þeir þá í brottu og ætluðu til síns lands og nú er vitað að þeir fara norður, svo þeirra land er fyrir norðan, og þeirra land sem hér er kallað er Vínland Leifs Eiríkssonar og verður að vera á þeim stað sem fyrr segir, við Ungavaflóann, enda komu þeir nú í Straumfjörð, sem alveg er víst að er Hudsonflóasundið og þar voru fyrir gnóttir þess, er þeir þurftu. Nú hafði Þórhallur veiðimaður farið norður fyrir Furðustrandir og ætlað til Vínlands. Þegar hann kom fyrir nesið, og ætlaði inn í Straumfjörð rak

á hann veður og hrakti hann á haf út, og segir sagan að hann hafi komið að Írlandi og þar hafi hann og félagar hans verið barðir í hel, en það hefur sjálfsagt verið á Írlandi hinu mikla, Nýfundnalandi, því menn fyrir vestan haf kærðu sig ekkert um Evrópumenn inn í lönd sín og svo stóð fram í lok 15. aldar, að harðneskja ruddi Evrópumönnum braut í Ameríku. Nú fór karlsefni að leita að Þórhalli veiðimanni og fóru þeir fyrir Kjalarnes og ber þá fyrir vestan fram og var landið **á bakborða**, en eins og sagði verður ekki siglt með Ameríku suður og hafa landið á bakborða. Hér fara þeir inn í Hudsonflóann og segir nú að land sé eyðimerkur einar og hvergi rjóður í. Segir nú sagan: „Og er þeir höfðu lengi farið fellur á af landi úr austri og í vestur.“ Hvergi getur á fallið úr austri í vestur á austurströnd Ameríku og er nú auðséð, að þeir hafa farið suður með austurströnd Hudsonflóans. Lögðust þeir nú að syðri bakka þessarar austan ár og dvöldu um stund. Þá urðu þeir varir við eitthvert kvikindi og æptu á það. Það var þá einfætingur og skauzt ofan á árbakkann, sem þeir lágu við, segir sagan. Þorvaldur sonur Eiríks rauða, sem verið hefur í förinni, enda viðgetið, sat við stýrið og skaut einfætingur ör að honum og kom í smáþarmana og lézt Þorvaldur af því. Í Grænlendingasögu hlýtur Þorvaldur þennan dauðdaga, en í öðrum stað og í bardaga. Þeir karlsefni eltu nú einfæting og sáu það síðast til hans að hann fór á sundi. Fóru þeir þá í brott og norður aftur, segir sagan, og þóttust sjá Einfætingsland. Það er eflaust Belcher eyjarnar í Hudsonflóanum, sem þarna er eigi langt frá landi. Er fljótlegt að sigla þarna, því straumur er nægur og reglubundinn, þar sem Atlandshafið verður að fara tvisvar á sólarhring inn og út um Straumfjörð inn í flóann. Segir nú sagan, að þeir hafi ætlað fjöll hin sömu, þau er sáust í hópi austan á ströndinni, og þessi er þeir nú sáu, og það stæðist mjög á, og væri jafn langt úr Straumfirði beggja vegna. Er nú ekkert að efast um það, að þeir hafa siglt beggja vegna við skaga einn mikinn og norðast í skaga þessum er Vínland, sem nú er ekki nefnt á nafn, heldur kallast það nú í Straumfirði. Kortið staðfestir þetta í einu og öllu, að þetta er Labrador í Norður-Ameríku, hinn mikli skagi milli Atlantshafs og Hudsonflóa. Að austanverðu kemst karlsefni, Íslendingur, syðst í ósa Hamiltonárinnar, og gegnt henni að vestan rennur t.d. og meðal annara áa. Eastmanriver, frá austri til vesturs í Hudsonflóa. Úr sögunum, sem hér hefur verið minnzt á, og sem eru nú blandnar allra handa hjátrú og þjóðsögum, að öllu marklausu máli, má rekja þessa sögu, sem í öllu ber saman við kort, sem við höfum nú á tímum og ekki verða rengd. Það er ómótmælanleg staðreynd svo framarlega sem nokkuð mark á að taka á sagnritum um þessa atburði, að hér liggur það skýrt fyrir að annað og meira er ekki um að ræða um Vínlands eða Ameríkufundi Grænlendinga og Íslendinga snemma á 11. öld, en það sem hér hefur verið rakið. Eins og kemur fram vantar ekki fólk í þessi lönd, sem hér er um að ræða, og sýnir sagan að þetta fólk

hefur tilburði til að verja sitt land. Eins og í öðrum köldum löndum býr þetta fólk yfir mikilli tækni í lífsbjörgum sínum, svo þótt það heiti skrælingjar á máli yfirlætismanna, þá standa þeir þeim fyllilega á sporði í allri menningu, ef það orð er til á þessum dögum í sannri merkingu. Og þetta veldur því, sem ólyktað var í upphafi þessa máls, að því er ekki ráðs vant um ferðalög, þótt að milli landa sé að fara, stutta leið. Um þetta gefast vitnisburðir, sem rétt er að benda á, af því sem nú og fyrr var sagt. Getur þess að er Þorfinnur og lið hans yfirgaf Hóp og sigldi norður fyrir landið, að þá fundu þeir 5 skrælingja sofandi í skinn-hjúpum nær sjó. Er hér enn um skinnið að ræða en ekki fíkjublaðið til að skýla sér. Þeir drápu þá, sem von var, og hvað sem þeir Þorfinnur álykta um ferðalag þeirra, þá eru hér ferðamenn á leið annað hvort að norðan eða norðureftir, sem eflaust hafa ekki þurft á leiðsögn þeirra Þorfinns að halda né neitt til hans vitað á þessum slóðum. Sama máli gildir um það, að er þeir Þorfinnur fara alfarnir af þessum slóðum og sigla til Grænlands, komu þeir við í Marklandi, og hittu 5 skrælingja og var einn skeggjaður. Fullorðna fólkið hljóp í jörð niður, en tvö börn tóku þeir, sveina, er þeir ólu upp og hafa kannske komið með Þorfinni til Íslands. Lærðu sveinarnir mál Þorfinns og gátu síðar gert grein á stjórnháttum og nærliggjandi landi, sem kortið í dag sýnir okkur að er Nýfundnaland. Sama máli gildir um þessa menn, að þeir eru ferðamenn. Og þegar þetta er vitað verður afrekið að finna Vínland, norðuroddann á Labrador, ekki stórrar frásögu vert, enda er það aðeins „saga" sem, hefur blásið málið út, fyrir síðari tíma mönnum, sögð af venjulegum yfirstéttarhroka Norðurlanda manna. En ef ætti að skýra það, hversvegna þetta vínberja slúður þarf að fylgja þessari „sögu", má benda á það, að Grænlendingar lærðu að búa til vín úr krækiberjum og er það ekki furða þótt þau ber, sem til þess eru notuð, séu kölluð vínber. Jón Smyrill Grænlendinga biskup, dvaldi í Skálholti með Páli biskupi, 1195—1211, einn vetur, og kenndi þá Páli að búa til vín úr krækiberjum, því sigling brást þá og varð vínfátt til altarisþjónustu. Hefði það orðið almennur lærdómur og iðja á Íslandi, að búa til vín úr krækiberjum, mundu nú þessi blessuðu ber almennt heita vínber — og landið kannske Vínland.

---

GÍSLI JÓNSSON:

# Úr gömlum bréfum

Fátt er það sem raskar eins svefnró ellinnar eða rótar meira til í klefum endurminninganna en gleymd og gömul bréf. Ég var nýskeð að hreinsa til í bréfaskrínu og fann þar vitanlega ógrynnin öll af bréfum, sem hvergi áttu lengur erindi nema í eldinn. En öll mintu þau á eitthvert spor ævinnar sem gengið var. Hér er heill bunki af afmælisóskum frá ýmsum tímum, en einhvern veginn hafa misst þýðingu sína, þótt innanum lýsi af einstöku neistum, sem óneitanlega væri gaman að geta haldið lifandi. Þá er stafli hluttekningar skeyta frá liðnum sorgarstundum, sem að vísu snerta enn viðkvæma strengi, en eiga þó eina leið. Langflest eru þó bréfin frá skáldum og rithöfundum, lífs og liðnum, sem ég hefi verið að ónáða í sambandi við útgáfustarf félags vors. Mörg af þeim eru mesta gersemi, en þó þess eðlis, að naumast er hægt að birta þau almenningi meðan annar eða báðir aðiljar skrölta ofan jarðar. Einkabréf eru að jafnaði opinskárri. Bréfritarinn bítur ekki alltaf í tunguna á sér áður en hann sleppir út úr sér skoðunum sínum á mönnum og málefnum. Öðrum hættir e.t.v. til of mikils hróss eða niðrunar, sem ekki lætur vel á prenti, þótt maður annars vegar láti það liggja milli hluta. En önnur eru skemmtileg og gamansöm, án þess að vera um of nærgöngul. Í þeim flokki eru tvö bréf frá Káinn. Ég kynntist Káinn því miður aldrei mikið — helzt síðustu tvö árin. Þegar ég tilkynnti honum að Þjóðræknisfélagið hefði kjörið hann heiðursfélaga fékk ég tvö bréf með litlu millibili; hið fyrra stutt en vinsamlegt þakklætisbréf, þó með örlitlu gamni — í líkum anda og skýringin og kvæðið á bls. 298 í Kvæðum og kviðlingum. Hitt bréfið ásamt myndinni af þeim þremur, Kristjáni, Jakobínu og Einari bróður mínum, er dagsett 21. apríl 1936. Myndina kallar hann Aldingarðinn Eden —táknmynd og er það samhljóða nafninu sem fylgdi vísunum til Einars br., sem lesa má á bls. 294 í bókinni.

Aftan á myndinni var þessi vísa skrifuð:

Að elska konu annars manns er synd,
ef þú boðum Mósa fylgja vilt.
En þú mátt eiga þessa helgimynd,
og þér er líka málið nokkuð skylt.
Allar konur elskað hef ég „jamt",
en eina kannske meira en hinar samt.



**K. N. Júlíus, Jakobína Johnson, Einar Páll.**

**Bréfið**

Kæri vinur, Gísli —

Beztu þakkir fyrir þitt góða bréf og hlýleg orð í minn garð.

Ég sendi þér að gamni mínu eitt eintak af Aldingarðinum Eden, sem þú hefur að líkindum heyrt getið um, en kannske ekki séð. Jakobína gerði þessa athugasemd við Aldingarðinn:

„Ein lítil mynd að miklu gríni varð,
því merkilegt er það, sem skáldin sjá.
Þar líta sumir engan Aldingarð,
en aðeins hærukolla þrjá." — J.J.

Ég fékk bréf frá henni nýlega og mynd af henni við Öxarárfoss. Ég hef heyrt að hún sé birt í Eimreiðinni, en ekki séð hana enn. Þegar ég var að athuga hana í smásjá, þá fæddist þessi spurning:

**Við Öxarárfoss**

Lít ég foss í hamraglúfri háu
á helgum stað, hvar engin þekkist
synd.
Sterkar öldur brotna á grjóti gljáu,
í geisla úða birtist töframynd.
En hvort að hún er — helzt ég
fræðast kýs —
huldukona eða vatna dís?

Þetta er seinasta vísan.

**Fyrsta unnusta Káins**

Undurfalleg, frjáls og góð
af fljóðum öllum bar 'ún —
dóttir Elli, ung og rjóð,
æska kölluð var 'ún.

Nú er ég til allrar lukku hættur að gera vísu og hef ekki svo mikið sem bragðað eitt bjórglas síðan í haust. Hvernig líst þér á?

Ég bið kærlega að heilsa konunni þinni, — ef þú kemur þér ekki að því að skila kveðjunni sjálfur, þá sýndu henni miðann.

Vertu alla tíma blessaður,

Þinn K. N. Júlíus.

Kristinn Stefánsson og ég skiftumst sjaldan á bréfum vegna þess, að hann bjó oftast meira en helming ársins hér í bænum, þótt hann teldi sér heimili á Gimli. Á þeim árum var rithöfundur hér um slóðir, sem sumum þótti nokkuð tilgerðarlegur í máli. Í stað „hjá okkur", „í manni" eða „vor á meðal" skrifaði hann alla jafna „með oss". — Ég hafði vanrækt að reka eitthvert smáerindi fyrir þau hjónin og kendi um hirðuleysi eða syndinni í blóðinu, er samkvæmt tízkunni ætti að skrifast „með oss". Þessu bréfi svaraði Kristinn strax, og er hér partur úr því bréfi:

„Þú segir það sé eins og mig gruni, að syndin liggi ennþá í blóðinu „með oss". Ja, því þá ekki það með ungu fólki, úr því að gamlir karlar muna þetta um sig og samaldra sína:

Lífsins sjór að svöðum féll
svakk og órar réðu' oss;
Gangslóð tróð í sérhvert svell
synd í blóði „með oss". —

Þið eruð velkomin að koma til okkar hingað í ljósálfa dýrðina. — Við biðjum að heilsa.

Gimli, 16. júlí 1911.

Kr. St.

* * *

Um langa tíð voru hér samtíða í Winnipeg fjórir jafnaldrar, sem allir ortu vísur og kvæði. Þetta voru þeir Hallur Magnússon, Hjálmar Gíslason, Jón Jónatansson og Gísli Jónsson — allir fæddir árið 1876. Nú eru þeir fyrir skemstu allir dánir nema Gísli (ég). Hallur flutti úr borginni og dó vestur í Seattle. Hann orti oft gamankviðlinga um daginn og veginn, en einnig kvæði alvarlegs efnis. Hann gaf út kverið „Lykkjuföll" árið 1923. Ennfremur eru nokkur kvæði og vísur frá honum í safninu „Aldrei gleymist Austurland". Segir Helgi Valtýsson, útgefandi bókarinnar, að Hallur og hann hafi verið fermingarbræður í Stakkahlíð í Loðmundarfirði og ort báðir allmikið í bernsku og æsku fram að fermingu. Hallur skrifaði mér við og við og flutu þá með vísur, sem flestar eru týndar — því miður. Hér eru samt kaflar úr einu því bréfi, því síðasta, að ég held.

Seattle, — 18. marz 1956.

Elsku vinur og jafnaldri, —

Hjartans þakkir fyrir Fardagana, sem ég hef lesið spjaldanna á milli margsinnis og dáðst að fyrir fegurð og listræni . . .

Jæja, nú er farið að líða að sólarlagi ævinnar fyrir okkur báðum — þú áttræður síðastl. febrúar og ég næsta ágúst, ef ég þá lifi það. . . . Ég var að lesa í blöðunum afmæliskveðjurnar til þín og féllu þær mér allar vel, en bezt þó kvæði P.S.P., sem var snildarkvæði og ágæt lýsing á þér og lífsstarfi þínu. . . . Þá datt mér þessi staka í hug:

Nú ertu seztur vestan undir vegg,
með værð og rósemd bíður
sólarlagsins.
Ég vinarkveðju í lófa þína legg
með ljúfri þakkargjörð við enda
dagsins.

Og hér er ein vísa fyrir sjálfan mig:

Þegar ég halla hinsta sinn
höfði þreyttu á koddann,
ef einhver vinur vætir kinn —
viðkvæmt finnur söknuðinn —
þá fer ég sæll með sjóðinn minn,
og sigli fyrir oddann.

Nú væri gaman að sjá ný Lykkjuföll í líku sniði og síðasta bókin þín, því síðan hafa mörg góð kvæði bætst við. . . .

H. E. M.

Frá hinum jafnöldrum mínum á ég engin bréf, af því að þeir áttu lengstaf heima hér í borginni, en eftir þá báða birti ég kvæði í þessu tímariti nokkrum sinnum.

Hjálmar Gíslason var albróðir Þorsteins skálds og ritstjóra, en níu árum yngri. Hann var fullt eins ljóðrænn og bróðir hans, Þorsteinn, en orti að líkindum minna, a.m.k. hefir færra sést eftir hann á prenti.

Jón Jónatansson var gott skáld og orti allmikið, þótt aldrei yrði af því, að hann gæfi neitt út í bókarformi. Hann taldi sig í beinan karllegg kominn af séra Jóni Þorlákssyni, en ekki hefi ég getað fundið út hvernig, og hafði aldrei sinnu á að spyrja hann sjálfan um það, meðan hann var á lífi.

Í löngu liðinni tíð bjó ágætiskarl, sem Jóhann Björnsson hét, vestur hjá Innisfail í Alberta, sem mun fyrst hafa verið nefnt Tindastóll. Hann skrifaði mér við og við, og flutu þá stundum með vísur um daginn og veginn. Hér eru þrjár, sem bjargast hafa frá glötun. Sýna þær, að alþýðukveðskapur hélst lengi við hér vestra engu síður en í heimalandinu.

Ég er orðinn svifaseinn,
sár og veðurbarinn,
ellihrumur, oftast einn;
öll eru börnin farin.

Er mín dagleg iðja sú:
alt til gagns að þrífa;
heima ég sit og hirði um bú
hegg til brenni og mjólka kú.

Unglingar og öldruð fljóð
og aldnir sitja í næði.
Enginn les nú íslenzk ljóð
eða syngur kvæði.

---

## Leiðrétting

Þó að ritstjórar beri ekki ábyrgð á sagnfræðikenningum, sem höfundar kunna að setja fram í greinum, eru þeir skyldir að leiðrétta meinlegar prentvillur.

Í kvæði Guttorms J. Guttormssonar **Fenrisúlfurinn**, sem birtist í síðasta árgangi Tímaritsins er í annarri vísu talað um **afgrunnsdýið**, í staðinn fyrir **afgrunnsdýrið**. Rétt er vísan:

Nauðsyn er að upp hún hækki,
afgrunnsdýrið niður lækki,
himinn úr þeim háska bjargi.
henni að lenda í Fenrisvargi.

# Bækur

## Stefán Einarsson:

### Austfirzk skáld
### Austurland VI.

Hér eru talin með nafni yfir hundrað Austfirzk skáld — öll gengin fyrir ætternisstapann, og eru þá víst flest talin; þó vantar að minsta kosti alla þá Austfirðinga, sem dáið hafa hér vestra. Man ég að nefna fimm, þá Vigfús J. Guttormsson, Sigfús Benediktsson, Hjálmar Gíslason, Hall Magnússon og Einar Pál Jónsson. Við mætti og bæta Bergi Hornfjörð, sem fékkst dálítið við ljóðagjörð. Áður hafði komið út ljóðasafnið „Aldrei gleymist Austurland" með yfir 70 þálifandi Austfirzk skáld. Svo að öllu samanlögðu er þetta allfjölmennur hópur.

Þetta er auðvitað bókmenntasaga, en ekki ritsafn, þótt allmörg dæmi séu sýnd, svona til smekkbætis, af verkum sumra skáldanna. Henni er skift í flokka, mest eftir aldarfari — byrjar aftur í fornöld og heldur áfram niður til þess tíma sem bókin er skrifuð. Bókin er afar fróðleg og skemmtileg aflestrar. Ég rak mig þar á nöfn manna, sem ég kannaðist við af fornu orðspori, en hafði enga hugmynd um, að orktu.

Örfáar villur hefi ég orðið var við, og skulu aðeins þrjár nefndar. Á bls. 165 er sagt, að Gísli Brynjólfsson hafi orkt kvæðið „Táp og fjör og frískir menn," en eins og flestir munu kannast við, er kvæðið eftir Grím Thomsen, og er kveðið upp úr þjóðsöng Finna „Mandom, Mod og morska men". Kvæði með sama upphafi er hvergi að finna í kvæðum Gísla. Í kvæði Haraldar Briem á bls. 174 eru auðsjáanlega tvær rímvillur. Í 10. vísu stendur **sælureið** en hlýtur að vera **sæluvíst** — rímar við Krist. Síðasta vísan endar á orðinu **ævisögu**, en ætti að vera **ævigöngu** til að ríma við **þröngu** í fyrri hluta vísunnar. Tvær prentvillur vil ég líka benda á. Í fyrstu vísunni á bls. 82 stendur **hjaltið** en ætti að vera **hjalið**, og í vísunni á bls. 132 stendur **þjóð** fyrir **þjó**. Fleira nenni ég ekki að eltast við.

Þetta er sjötta bókin í ritsafninu „Austurland", og er mér sagt að með henni sé því útgáfuverki lokið. Hafi allir þeir, sem að því unnu margfaldar þakkir allra Austfirðinga hvar í heimi sem þeir búa.

* * *

## Snæbjörn Jónsson:

### Misvindi
### Greinasafn

Þetta er annað bindi af tímarita- og blaðagreinum Snæbjarnar. Í fyrra voru það „Vörður og vinarkveðjur". Eru víst ekki enn öll kurl komin til grafar, því svo er sagt, að fyrstu greinar hans hafi birzt fyrir tæpum sextíu árum, og hefir hann þá hlotið að vera á unglingsaldri. Efni þessarar bókar er mjög svipað hinnar fyrri bókarinnar — mest minningargreinar um ýmsa merkismenn og vini höfundarins. Mætti bókin eins vel hafa heitið „Hlývindi", því óvíða blæs þar kalt. Einu greinarnar, sem gustur stendur af, er ádrepa um íslenzka blaðamensku og svo sjálfsvörn hans, þegar þýzksinnaðir blaðamenn í Reykja-

vík leituðust við að stimpla hann sem landráðamann fyrir það eitt, að taka taum Breta á stríðstímabilinu, og mun víst enginn lá honum það nú.

Meðal minningargreinanna verður að nefna þá um Björn Jónsson ritstjóra og síðar ráðherra, sem ég víst aldrei kunni að meta að verðleikum. Kann það að hafa stafað af því, að þegar ég var á fermingaraldri, var það almennt álitið, að undir þeim þremur — Birni Jónssyni, Magnúsi Stephensen og Estrup hinum danska, sem réði Íslandsmálum í Danmörku í samfleytt 25 ár, væri sami sessinn. Ísafold, blað Björns, var þá stjórnarmálgagnið. Þá er þar grein um Dr. Jón Stefánsson, þann mikli gáfu- og menntamann, sem lengst ævinnar dvaldi erlendis sem kennari og rithöfundur, en dó blásnauður, nærri nítíu ára, frá elliheimili í Reykjavík.

Þriðja greinin, er ég vil sérstaklega nefna, er um Sir Wm. Craigie, skrifuð löngu áður en eftirmælin í fyrri bókinni. Er hún ekki síst merkileg vegna þýðingabrota Craigies úr fornkvæðunum þar sem hann heldur aðdáanlega stuðlum og hendingum dróttkvæðanna. Sem dæmi er hér hálf vísa Sighvats Þórðarsonar:

Há þóttu mér hlæja
höll of Noregs allan
(fyrr vask kendr á knörrum)
klif, meðan Áleifr lifði:

All, me seemed, were smiling
softly Norway's lofty
(far I sailed a-faring)
fells, while Olaf held them.

Alls eru í bókinni um tuttugu og fimm greinar, ásamt átta myndum og nafnaskrá.

Tvær fyrstu greinar bókarinnar er um hinar svonefndu sálarrannsóknir og dularfull fyrirbrigði. — Nefnir hann hina fyrri „Undur dularheima," og er það alt gott og blessað fyrir þá sem slíku trúa. Annars hefir mér altaf fundist, að eilífðartrúin byggist á hinu óhóflega drambi mannsins, að hann einn af öllum lífverum veraldarinnar geti átt ódauðlega sál. Hvernig mundi okkur bregða í brún, ef allar kindurnar sem slátrað hefir verið okkur til lífsviðurværis, kæmi á degi dómsins jarmandi framan í okkur: Þér morðingjar! — Síðari greinin er, eins og handbók prestanna, reglur um hvernig menn eigi að haga sér á miðilsfundum, þar sem þessir nútíma kuklarar sitja í myrkri eða rauðu ljósi við sálmasöng og handabönd þangað til draugarnir eða raddir þeirra birtast.

Bókin er hin besta að öllum frágangi, enda hefir höf. sjálfur haft umsjón, en eins og allir vita, sem lesa skrif hans um bækur, er hann þar mjög vandfýsinn. Þó er þar eitt, sem ég kann afarilla við, þótt til þess ligg fyrirdæmi. Myndunum er slengt inn í lesmálið af handahófi og hvergi þar sem þær eiga heima. Þannig varð mér reglulega bilt við, þegar ég var að lesa hina afarvinsamlegu grein um Einar bróður minn, er ég rakst á mynd af konu, með ættarnafninu Jónsson, sem ég kannaðist ekki við í lífi bróður míns. Með því að líta í efnisskrá bókarinnar sá ég að myndin var af fyrri konu höfundarins og er sú æfiminning aftast í bókinni.

## Bækur Bókmenntafélagsins

Bókmentafélagið verður nú senn 150 ára. Á þeirri löngu leið hefir það gefið út urmul fágætra ágætisbóka, sem annars hefðu trauðla verið prentaðar, sumar hverjar, en að vísu nokkuð af rusli líka. En nú er svo að sjá að félagið sé í andarslitrunum. Félagsbækurnar, sem lítið eru orðnar annað en Skírnir, er tvö ár á eftir tímanum. Bækur ársins 1962 komu á miðju sumri 1964 til félagsmanna — Skírnir og þýddar málfræðigreinar eftir norskan prófessor. Skírnir er og hefir jafnan verið ágætt tímarit, og stundum þó betra en nú. En kynlega kemur okkur fyrir sjónir, þessarri fastdeyjandi elztu kynslóð hér vestra, að þetta eina mentamanna tímarit á landinu skuli þurfa að grípa til þýðinga og útlendra rithöfunda, með allan þann aragrúa ritfærra mentamanna, sem hljóta að skifta hundruðum í Rvík einni. Og kvæði sjást þar nú aldrei. Útsær Einars Ben. og fleiri, sæmdu sér þó vel þar fyrr á árum.

**G. J.**

## Á fjalla- og dalaslóðum

Rétt um það bil er Tímaritið var fullprentað barst bókin **Á fjalla- og dalaslóðum.** Endurminningar og sagnaþættir eftir Vestur-Íslendinginn Pál Guðmundsson frá Rjúpnafelli í Vopnafirði. Bókin er 261 bls. að stærð, gefin út af Bókaforlagi Odds Björnssonar.

Hér er að mestu leyti um að ræða minningar höfundar frá Íslandi, meira en hálfrar aldar gamlar. Í fyrri hluta bókar eru **Þættir af Kristjáni Jóhannssyni og Helga Guðlaugssyni.** Síðari hlutinn nefnist **Möðrudalsþáttur** og hefir að geyma minningar frá veru höfundar í Möðrudal á fjöllum, þar sem hann hafði að samverkamanni kaupamanninn Ásgeir Ásgeirsson, síðar forseta Íslands.

Bók Páls ber vott um óvenjulegt minni mannglöggs og fjárglöggs höfundar. Hann er gæddur svo skemmtilegri frásagnargáfu, að helzt minnir á forna snillinga. Páli farast meðal annars svo orð:

„Ég er fæddur á Rjúpnafelli, Vopnafirði, 25. júní 1887, sem þá bar upp á laugardag, og var þá fráfærnadagur á Rjúpnafelli. bls. 9 og: Þó var síður en svo, að fólk væri þar óspakt í vistum, margir voru þar lengi. bls. 74.

Íslenzkt alþýðumál leikur við höfundinn frá formálsorðum til bókarloka. Glöggur er Páll á það, sem sérstætt er í fari manna, og kíminn er hann á stundum og lumar á kynstrum af lífvænlegum sögum. Með sumum sögupersónum fylgist Páll til Vesturheims. Annars má segja, að rætur hans standi djúpt í íslenzkum jarðvegi. Fimmtíu ára fjarvist við söguefni hefir skýrt megindrætti þess fólks, sem höfundur lýsir. Bók hans ber ekki einungsi vott um þjóðrækni, heldur er hún öfgalaus frásögn hreinlynds manns. Í henni er hvorki að finna lastmæli um liðna menn né taumlaust hrós um lifendur, og er slíkt ekki svo lítill kostur á minningabók.

Benedikt Gíslason frá Hofteigi hefir skrifað góðan inngang um höfundinn.

**H. B.**

# Helztu viðburðir

**meðal Íslendinga vestan hafs 1964**

**RICHARD BECK tók saman**

26. jan. — Á ársfundi Unítarasafnaðarins í Winnipeg tilkynnti séra Philip M. Pétursson, er þjónað hefir söfnuðinum í 35 ár, að hann bæðist lausnar frá embættinu í lok ágústmánaðar næstkomandi. Hefir hann jafnframt verið forystumaður í vestur-íslenzkum þjóðræknis- og öðrum menningarmálum.

Febr. — Blaðafrétt skýrir frá því, að Jón J. Sigurdsson, East Kildonan, Winnipeg, hafi lokið prófi sem nuddlæknir við Broadmoor College of Massage í Seattle, Wash. Hann er Akureyringur að ætt og kom vestur um haf til Winnipeg 1929.

Febr. — Um þær mundir lét landbúnaðar- og fræðslufrömuðurinn, prófessor Skúli Rutford (Hrútfjörð), af störfum sem forstjóri bréfadeildar Minnesota-háskóla í landbúnaðarmálum (The University of Minnesota Agricultural Extension service) eftir 40 ára starf í þágu háskólans í þeirri fræðsludeild hans.

17.—19. febr. — Fertugasta og fimmta ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi haldið í Winnipeg við prýðilega aðsókn á fundum og samkomum. Séra Philip M. Pétursson var endurkosinn forseti, og litlu síðar endurkaus stjórnarnefndin þá Gísla skáld Jónsson og Harald Bessason prófessor ritstjóra **Tímarits** félagsins. Heiðursfélagar Þjóðræknisfélagsins voru kjörnir þeir prófessor Finnbogi Guðmundsson og Einar B. Guðmundsson hæstaréttarlögmaður, báðir búsettir í Reykjavík. En Einar, sem jafnframt er formaður stjórnarnefndar Eimskipafélags Íslands, og frú hans, höfðu verið sérstakir gestir á þinginu í tilefni af 50 ára afmæli Eimskipafélagsins. Flutti hann kveðjur Forseta Íslands og ríkisstjórnar þess fyrsta þingdaginn og erindi á lokasamkomu þingsins. Aðrir ræðumenn á samkomunum í sambandi við þetta afmælisþing félagsins voru þeir Valdimar Björnsson, ríkisféhirðir í Minnesota, á Frónsmótinu, og dr. W. Lockhart, forseti United College í Winnipeg, á samkomu Icelandic Canadian Club.

Marz — Í byrjun þess mánaðar tók John Peter Sigvaldason við embætti sínu sem sendiherra Kanada á Íslandi og í Noregi, með aðsetri í Osló. Hann er fæddur að Baldur, Manitoba, 9. febrúar 1904, sonur landnámshjónanna Einars og Kristínar Sigvaldason. Hefir nærri tvo undanfarna áratugi verið í þjónustu kanadíska utanríkisráðuneytisins.

Marz — Um miðjan þann mánuð lét Joseph T. Thorson, um langt skeið forseti Fjármálaréttar Canada (Exchequer Court), af embætti fyrir aldurs sakir, en varð þá hálf-áttræður. Á hann sér einnig, að öðru leyti, að baki óvenjulega glæsilegan stjórnmálaferil, meðal annars sem varnarmálaráðherra Kanada á stríðsárunum. Hann er fæddur í Winnipeg 15. marz 1889, sonur þeirra Stefáns Þórðarson (Stephen Thorson) og Sigríðar Þórarinsdóttur, bæði ættuð úr Biskupstungum.

Apríl — Á ársþingi Félags Hljómlistarkennara í Manitoba (Manitoba Registered Music Teachers Association), er haldið var í Winnipeg í byrjun mánaðarins, var frú Björg Violet Ísfeld kjörin ævifélagi þess félagsskapar í viðurkenningar skyni fyrir langt og ágætt starf í þágu hans og hljómlistarmála; en hún er fyrrv. forseti félagsins og einnig hinna kanadísku samtaka hljómlistarmanna.

Maí — Íslenzk-ameríska félagið í Suður-Kaliforníu afhenti Háskóla Kaliforníu ríkis í Los Angeles skrautritað þakkarskjal í tilefni þess, að íslenzkukennsla hafði farið fram á vegum háskólans í aldarfjórðung undir forustu dr. Eríks Wahlgren prófessors.

Maí — Mrs. W. J. Lindal, Winnipeg, kosin forseti kvenfélags þess, er í sambandi við Blindravinafélagið kanadíska (Canadian National Institute for the Blind) vinnur að því að hlynna að sjóndöpru og blindu fólki; en hún á sér að baki langt og gott starf í þágu þess félagsskapar.

Maí — Eftirfarandi stúdentar af íslenzkum ættum útskrifuðust af Manitobaháskóla (Univ. of Manitoba):

**University Gold Medal Winners**
(Commerce-General Course):

Denis Norman Magnússon, Minot, N.Dak.
Grant Richard Gisel (íslenzkur í móðurætt), Winnipeg.

**Master of Science** (Honors Course):
**Thor Victor Jacobson,** B.Sc. 1961 (lauk meistaraprófi í okt. 1963), Winnipeg.
William Ingvar Ragnar Johnson, B.S.A. 1951 (lauk meistaraprófi í okt. 1963), Morden, Man.

**Master's Degree in Social Work:**
Mrs. Eleanor Sigrún (Jóhannson) Fry, Árborg.
Mrs. Annabelle (Stefánson) Wiens, Steep Rock, Man.

**Bachelor of Arts** (Honors Course):
John Harvey Finnbogason (í febr. 1964), St. James, Man.

**Bachelor of Science** (Honors Course):
Maurice Kári Oleson (í okt. 1963), Riverton.

**Bachelor of Arts** (General Course):
Valdine Gudrun Johnson, Winnipeg.
Wynn Margaret Low (íslenzk í móðurætt), Norway House, Man.
Sandra Audry Eggertson, Winnipeg.
Victoria Helena Magnusson, Hnausa, Man.
Thomas Stephen Thorsteinson, St. Vital, Man.
Skuli Norman Sigfusson, Winnipeg.

**Bachelor of Science** (General Course):
Albert Sigurd Helgason, Winnipeg.
Robert Harold Gestur Jóhannson (í okt. 1963), Selkirk.
Sandra Mae Ólafson, Birtle, Man.

**Bachelor of Social Work:**
Jo-Anne Helga Emily Sigmundson, Lundar, Man.
Engilbert Sigurdson, Winnipeg.

**Bachelor of Science in Agriculture** (Honors):
Sigurberg Omar Thorlacius, Ashern, Man.
Ronald Alexander Clarke (íslenzkur í móðurætt), Winnipeg.

**Bachelor of Science in Civil Engineering:**
Thomas David Underwood (íslenzkur í móðurætt), Winnipeg.

**Bachelor of Interior Design:**
Carol Margaret Eyvindson (í okt. 1963), Poplar Point, Man.

**Bachelor of Science in Home Economics:**
Thorhilda Gwen (Thora Árnason) McNaughton, Winnipeg.

**Certificate in Education:**
Trevor Douglas Holm, Winnipeg.
Victor Andrew Johnson, Winnipeg.
Mrs. Inez Bonnie (Bjarnason) Rinn, Winnipeg.
Stefan Vern Július Sólmundson, Charleswood, Man.

**Diploma in Music:**
Sigrid Margaret (Bardal) McKee (í okt. 1963), Winnipeg.

**Diploma in Art:**
Theodore Errol Jonasson, Winnipeg.

Maí — Við vorprófin á McGill University útskrifaðist Miss Marsa Arlen Waylett (íslenzk í móðurætt), Montreal, og hlaut menntastigið „Bachelor of Arts" með heiðri.

Maí — Luku þessir stúdentar af íslenzkum ættum námi á fylkis-háskólanum í Saskatchewan (Univ. of Saskatchewan):

**Bachelor of Arts:**
Stefanie Thordís Árnason (með háum heiðri, hlaut einnig verðlaun og meiriháttar námsstyrk), Saskatoon.
Averil Evert Árnason (með heiðri), Saskatoon.
Ronald Gordon Bell, Saskatoon.
Stephen Winston Dewar, Saskatoon.
Heather Ann Grímson (með heiðri), Wynyard.
Oscar Carl Olson (með heiðri), Yorkton.
Michael Guy Skafel (með háum heiðri), Brandon, Man.

**Bachelor of Arts in Physical Education:**
Richard Douglas Bell, Saskatoon.

**Bachelor of Science in Agriculture:**
Árni Sigurfinnur Goodman, Leslie.
Helgi Dennis Goodman, Leslie.
Ronald Jón Frederick Johnson, Meadow Lake.

**Bachelor of Mechanical Engineering Science:**
Michael Guy Skafel (með háum heiðri), Brandon, Man.

**Bachelor of Education:**
Laurence Thorstein Thorsteinson, Leslie.

**Doctor of Philosophy:**
Kenneth Vilhelm Paulson, Wynyard.

31. maí — Sjötíu og fimm ára afmæli Selkirk-safnaðar minnzt með virðulegu og fjölmennu hátíðarhaldi. Dr. P. H. T. Thorlakson flutti aðalræðuna á kvöld-

samkomunni; meðal annara ræðumanna voru dr. George Johnson ráðherra og Eric Stefánson sambandsþingmaður.

31. maí — Lauk Steinthor Jón Gudmunds (frá Berkeley, Calif.) námi í lögfræði við lagaskóla Háskólans í San Diego, Calif. (The University of San Diego Law School). Hafði hann bæði hlotið námsverðlaun og verið forustumaður í félagslegu starfi samstúdenta sinna.

Maí—júní — Halldór Einarsson tréskeri, Lisle, Illinois, vann verðlaunin fyrir tréskurð og höggmyndir á árlegri listasýningu í Winnetka, Illinois (úthverfi Chicago-borgar), sem haldin var um þau mánaðamót.

6.—7. júní — Fertugasta ársþing Bandalags íslenzkra lúterskra kvenna (The Lutheran Women's League of Manitoba) haldið í Ardals-byggðinni í Manitoba. Miss Mattie Halldórson, Winnipeg, endurkosin forseti.

Júní — Fyrri hluta þess mánaðar voru þau Ambassador Thor Thors og frú Ágústa Thors heiðursgestir á hátíðasamkomum Íslendinga í Los Angeles, San Francisco, Seattle og Vancouver, er haldnar voru í tilefni af 20 ára afmæli íslenzka lýðveldisins. Jafnframt var sendiherrann aðalræðumaður á öllum þeim samkomum.

17. júní — Kanadíska útvarpið (The Canadian Broadcasting Corporation) helgaði Íslandi sérstaka dagskrá í tilefni af afmæli íslenzka lýðveldisins. Ávörp flutti Landstjórinn í Kanada, Major-General George P. Vanier, og herra Ásgeir Ásgeirsson, forseti Íslands; einnig var flutt hljómlist frá Íslandi.

17. júní — Dr. Richard Beck, er dvaldi sumarlangt á Íslandi ásamt frú sinni, var fulltrúi Þjóðræknisfélagsins á 20 ára afmæli lýðveldisins og flutti kveðjur þess og Vestur-Íslendinga á hinni afar fjölmennu þjóðhátíð í Reykjavík 17. júní. Áður hafði hann, á Gestamóti Þjóðræknisfélags Íslendinga, þar í borg, afhent biskupsritara, séra Ingólfi Ástmarssyni, fjárgjöf frá Vestur-Íslendingum í sjóð Skálholtsskóla, er nam nærri 4000 dollurum. Hafði dr. Valdimar J. Eylands verið formaður fjársöfnunarnefndarinnar, en Grettir Eggertson verkfræðingur féhirðir.

17. júní — Þann dag og næstu daga voru lýðveldishátíðir haldnar í Chicago, Washington og New York. Flutti dr. Árni Helgason ræðismaður ræðuna á Chicagohátíðinni, en ambassador Thor Thors á hinum hátíðunum.

Júní — Mrs. Hólmfríður Danielson, Winnipeg, kosin varaforseti leiklistarfélagsins „Manitoba Drama League" á ársfundi þess félagsskapar, en hún hefir skipað ýmis embætti í framkvæmdanefndinni undanfarinn áratug, og hefir unnið víðtækt starf í þágu félagsins og leiklistarmála í Manitoba.

26. júlí — Haldinn árlegur Íslendingadagur við Friðarbogann í Blaine, Wash.

Júlí — Um þær mundir var Peter Curry, Winnipeg, kosinn forseti stjórnarnefndar Manitoba-háskóla. Hann er íslenzkur í móðurætt, og kunnur fjársýslu- og athafnamaður.

2. ágúst — Vígður þjóðgarðurinn „The Icelandic State Park" í grennd við Akra, N.Dakota, með hátíðlegri athöfn og að viðstöddu fjölmenni. Höfðu þau systkinin Gunnlaugur Bjarni (G.B.) Gunlogson verkfræðingur og Miss Lóa Gunlogson gefið heimilisréttarland foreldra sinna fyrir garðsvæðið, en Gunnlaugur sérstaklega beitt sér fyrir því, að garðurinn var stofnaður. Foreldrar þeirra voru landnámshjónin Eggert Gunnlaugsson Magnússon frá Baugaseli í Eyjafirði og Rannveig Rögnvaldsdóttir frá Skíðastöðum í Tungusveit í Skagafirði. Meðal ræðumanna á vígsluhátíðinni var William L. Guy, ríkistjóri í Norður-Dakota.

3. ágúst — Sjötíu og fimm ára afmæli Íslendingadagsins í Canada minnzt á Gimli með sérstaklega virðulegri og fjölmennri hátíð. Heiðursgestir voru þau dr. Bjarni Benediktsson, forsætisráðherra Íslands, og kona hans frú Sigríður Björnsdóttir, og var Björn sonur þeirra í för með þeim. Flutti forsætisráðherra aðalræðu dagsins, en Hon. Erick F. Willis, fylkisstjóri í Manitoba mælti fyrir minni Canada. Ávörp fluttu, meðal annara, Hon. William M. Benedickson ráðherra, fyrir hönd ríkistjórnar Canada; Hon. George Johnson ráðherra, af hálfu fylkisstjórnar Manitoba; Grettir L. Jóhannson, ræðismaður Íslands í Sléttufylkjum Canada, og séra Philip M. Pétursson, forseti Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi. Eftir að hafa heimsótt íslenzku byggðina í Argyle, Man., og Winnipegdvöl sína, ferðaðist forsætisráðherrann og föruneyti hans um Íslendingabyggðir í Canada vestur á Kyrrahafsströnd, og flutti hann ræður á mörgum samkomum, sem Íslendingar héldu þeim hjónum til heiðurs. Í fylgd með þeim til Vesturstrandarinnar voru þau G. L. Jóhannson ræðismaður og frú Lalah kona hans.

3. ágúst — Í kvöldveizlu á Íslendingadeginum að Gimli afhenti dr. Bjarni Benediktsson forsætisráðherra S. Aleck Thorarinson lögfræðingi, forseta dagsins, riddarakross hinnar íslenzku Fálkaorðu, sem forseti Íslands hafði sæmt hann í þakkar skyni fyrir störf hans.

Ágúst — Á samkomu, sem Íslendingar

It took him about six months, and he got the equivalent of 8 sheep for it. At the age of 63 he had to move to another district, transporting his books on three horses, each horse-load being over 200 pounds. Yet he probably wrote the bulk of his own work after that. At his death he left a bibliography and a library containing 115 original works and collections as well as 25 translations. The length of his items varies from a few pages up to 2000 pages.

He has about 60 shorter stories cast in the form of the Old Icelandic **þættir** (episodes). Then several full-length biographies, including his own and a dozen local histories or district histories from the North West of Iceland. Then there are several personal historical and genealogical works, a book on Chronology, Annals, Calendars and Diaries. Furthermore, there are five huge volumes of miscellania: letters, legends, charters, poems, — not to mention folklore and folk tales. Finally, there are 13 full cycles of **rímur** and 4 volumes containing his own poetry.

Among his translations, which all are made from Danish, there is the History of Charles the XII by Voltaire, the History of Napoleon Bonaparte by Walter Scott, and several classical works such as Sallust's Jugurtha and Catilina, Xenophon's Anabasis, parts from the Annals of Tacitus, History of the Jews by Josephus Flavius, etc. etc.

With this tradition of literature and literacy behind them and — up to the present century — very few other channels to divert their energy and interest into: as learned men they had chiefly the field of Lutheran ministry and law to choose from, doctors were few, teachers and professors still fewer, — it was probably small wonder that the Icelanders should become the most bookish nation in the world. A few statistics will make that clear.

In 1930 figures were published showing how many persons there were per pook published in that year in several countries. Iceland headed the list with one book published for every 466 persons, but the U.S.A. was at the bottom with one book for every 12,497 persons.

The editions of books are also proportionally bigger in Iceland than in more populous countries, which may be illustrated by this story: A communist agitator had been bragging about the huge editions now published for the benefit of the people in Russia. As a minimum he mentioned 10-15 thousand copies, while the average would be 50 thousand and some good books would be published in 100 thousand copies. He got the answer that one would be surprised, indeed, if Icelandic books were published in only 7-11, 35-36 or even 70 copies. As a matter of fact the number of copies published in Iceland is likely to be 500-1000, but 2000 and 3000 are certainly not uncommon. The two greatest literary societies in Iceland publish in 7,000 and 13,000 copies, corresponding to 7 and 13 million copies in the U.S.A.

Another example: In Reykjavík there are now 15 bookstores, in a population of 65 thousand, and in

Baltimore, Md., 111 including drugstores in a population of over a million. Still another example: The National Library in Reykjavík has as many volumes as the country inhabitants, 165,000. At the same rate the American Congressional Library should have 170 million volumes.

There is an unbroken line of skalds and rímur-poets showing the popularity of these forms.

A list of skalds covers the period 950-1300, 350 years. The number of this list is 110, making 10 skalds per generation, with three generation in a century. The next three centuries, 1300-1600, are filled with 115 rímur-cycles, but only 20 of these poets are known by name. But if we let each rímur-cycle represent a poet, we would here get about 12 poets per generation. In the next and final period of three centuries, 1600-1900, we have 900 **rímur** and 330 poets, or 36 poets per generation. If we add here to the 84 poets and writers discussed in my **Literary History of Iceland** from the Reformation up to 1900 the total number of poets and writers is 414 or 46 poets per generation. Population numbers are unknown from the 17th century. During the 18th, population fluctuated between 34 and 50 thousand and, during the 19th, it grew gradually from 50 in 1800 to 78 thousand in 1900. From this it is obvious that during the 18th century Iceland often enough had one poet in a thousand while in the 19th it was more often one in two thousand.

It is interesting to observe that this poet to population ratio also seems to prevail among the Icelanders in Canada, according to **Canadian Overtones** (1935), an anthology made by the polyglott scholar Watson Kirkconnell from Canadian poetry in Icelandic, Swedish, Norwegian, Hungarian, Italian, Greek and Ukrainian. The Canadian-Icelanders are 30 (or 25) thousand. "They are," says Kirkconnell "by far the most important member" of the foreign writers groups, represented here by 15 poets, including Stephan G. Stephansson who, according to Kirkconnell is"beyond question equal to any poet that Canada has yet produced in English or French — and may ultimately be recognized as superior to all." On population basis the Icelanders are far ahead of the others with one poet per 2 thousand. Then come the Swedes with one in eight, the Ukrainians with one in 15, the Norwegians with one in 20, the Hungarians with one in 27, and the Italians with one in 40 thousand.

Looking at the **Encyclopedia Britannica**, Ellsworth Huntington found 9 Icelandic writers listed after 1600, and, he says, in proportion to population in 1800, this gives Iceland three times as many authors as Ireland, France or Switzerland, six and a half as many as Belgium and twenty-three as many as Austria. We may add the question: How many Nobelprize-winners in literature should America have to the one Halldór Kiljan Laxness in Iceland? At least 1000.

A final example may show that the love of learning which the Americans have lately been admiring in

the Russians is no less common among the Icelanders. According to the U.S.A. Census in 1940 there was on the faculty of higher education in the Continental U.S.A. and outlying parts a total of 133,153 teachers against a total population of 150 million, thus not quite one professor per one thousand of population. The Icelanders at that time in the U.S.A. were counted less than 6,600, but we have no figures as to how many of them were professors. They should of course have been less than six. Actually my friend Richard Beck and I succeeded in making up a list of fifteen in 1940. Thus it seemed that the Icelanders had at least two professors per 1000, if not more.

We started with the Vikings seeking fee and everlasting fame by fighting, we end by the modern literary Vikings like Gunnar Gunnarsson and Halldór Kiljan Laxness whose novels have won them both fee and fame.

---

# Mannalát

**MARZ 1963**

18. Margaret Sigríður Johnson, á sjúkrahúsi í Wynyard, Sask. Fædd þar í byggð 10. marz 1910 og átti þar heima ævilangt. Foreldrar: Landnámshjónin Valdimar Jónsson og Margrét Bergsveinsdóttir.

**JÚNÍ 1963**

Júní — Magnús Magnússon, í Seattle, Wash., 88 ára gamall. Ættaður úr Árnessýslu, en hafði dvalizt all lengi vestan hafs.

**ÁGÚST 1963**

30. Aurora Ingibjörg Sigurgeirsdóttir Björnson, fyrrv. kaupkona, á elliheimilinu „Borg" að Mountain, N.Dak. Fædd í Eyfordbyggð í N.Dakota 15. des. 1883. Foreldrar: Sigurgeir Björnsson, frá Geitafelli í Suður-Þingeyjarsýslu, og kona hans Guðfinna Jóhannesdóttir, frá Tjörn í Aðaldal. Fluttust vestur um haf til Gimli, Man., 1876, en í Eyfordbyggð í N.Dakota 1880.

**SEPTEMBER 1963**

11. Sesselja Sigurðsson, ekkja Sigurfinns Sigurðssonar, á sjúkrahúsi í Foam Lake, Sask. Fædd að Görðum í Mjóafirði 5. júní 1871. Foreldrar: Árni Jónsson og Guðleif Eiríksdóttir. Fluttist með manni sínum til Kanada 1911, og hafði lengstum átt heima í Saskatchewan, síðan 1940 í Foam Lake.

24. Guðmundur Fr. Guðmundsson bóndi, í Mozart, Sask. Fæddur 10. ágúst 1891, að Syðra-Lóni á Langanesi. Foreldrar: Friðrik Guðmundsson frá Víðirhóli á Hólsfjöllum og seinni kona hans Þorgerður Jónsdóttir frá Eiði á Langanesi. Kom með þeim til Kanada 1905. Hafði um langt skeið stundað landbúnað nálægt Mozart. Forystumaður í sveitarmálum.

**OKTÓBER 1963**

14. Halldóra Oddsdóttir Magnússon, í White Rock, B.C. Fædd 28. apríl 1879 að Núpi í Haukadal í Dalasýslu. Foreldrar: Oddur Magnússon og Margrét Ólafsdóttir. Fluttist með þeim frá Íslandi til N.Dakota 1886, en 20 árum seinna til Wynyard, Sask.; búsett í White Rock síðan 1936.

14. Sigrún Hjálmarson, ekkja Björns Hjálmarssonar, skólastjóra og skólaumsjónarmanns, á sjúkrahúsi í Weyburn, Sask. Fædd 9. marz 1885 í Argyle, Man. Foreldrar: Tryggvi Frederickson og Valgerður Jónsson kona hans, síðar landnemar í grennd við Kandahar, Sask. Áður búsett í Wynyard og Regina, Sask.

21. Bergmann Flóvent Jónasson bóndi í Grunnavatnsbyggð, nálægt Stony Hill, Man. Fæddur 7. marz 1886 í grennd við Riverton, Man. Foreldrar: Jón Jónasson, frá Lóni í Beruvík í Snæfellsnessýslu, og Kristín Ólafsdóttir, ættuð úr Helgafellssveit í sömu sýslu. Fluttust vestur

um haf og námu land í grennd við Riverton 1883, en í Grunnavatnsbyggð 1904. — Bróðir Bergmanns, Daði Kristens Jónasson (f. 18. jan. 1893), einnig búsettur í Grunnavatnsbyggð á föðurleifð þeirra bræðra, dó þar 3. des. 1959. (Hans hefir eigi verið áður getið í dánarskránni hér í ritinu).

22. Kristinn Ármann Kristinson landnámsmaður, í Arborg, Man. Fæddur 28. des. 1886 í grennd við Steinnes á austurbakka Íslendingafljóts skammt frá Riverton, Man. Foreldrar: Kristinn Tómasson og María Friðfinnsdóttir, ættuð úr Skagafirði. Lengi bóndi í Geysisbyggð, en síðan 1951 búsettur í Arborg.

Okt. — Indriði Sigurðson, á sjúkrahúsi í Baldur, Man. Fæddur á Akureyri 24. okt. 1879. Foreldrar: Sigurður Sigurðsson og Þóra Sigurðardóttir. Kom með þeim þriggja ára að aldri vestur um haf til Nýja-Íslands, en í Argyle byggð 1889. Átti lengstum heima í Baldur.

### NÓVEMBER 1963

12. María Fredericks barnakennari í Seattle, Wash., 66 ára gömul. Uppeldissystir K. F. Frederick, ræðismanns í Seattle.

15. Guðmundur (Mundi) Ólafsson Goodmanson, kennari, á heimili sínu í Brentwood Bay, Vancouver Island, B.C. Fæddur í Carberry, Man., 19. febr. 1890. Foreldrar: Ólafur Goodmanson, ættaður úr Borgarfirði syðra, og Margrét Kristjánsdóttir, fædd í Reykjavík. Söng- og hljómsveitarstjóri á ýmsum stöðum í Saskatchewan og í aldarfjórðung í Flin Flon, Manitoba, og höfðu kórar hans og hljómsveitir unnið fjölda verðlauna.

22. C. Harold (Kristján Kristjánsson) Richer, í St. Paul, Minn., nærri 95 ára að aldri. Fæddur í Hraunhöfn í Staðarsveit á Snæfellsnesi. Foreldrar: Kristján Sigurðsson og Steinunn Jónsdóttir. Kom til Vesturheims 1887, dvaldi nokkur ár í Winnipeg, en síðan búsettur í St. Paul og nágrenni borgarinnar í 70 ár. Ljósmyndari að iðn, en athafnasamur fjársýslumaður öll hin síðari ár. Áhugamaður um félagsmál og stjórnmál.

### DESEMBER 1963

11. Victor Frímann Hannesson, að heimili sínu í Flint, Michigan. Fæddur að Mountain, N. Dakota 3. sept. 1894. Foreldrar: Frímann Hannesson frá Reykjarhóli í Seyluhrepp í Skagafirði og Helga Jóhannesdóttir frá Hóli í Tungusveit í Skagafirði. Ólst upp í Mouse River byggðinni, en hafði um langt skeið átt heima í Flint, Mich.

20. Sveinn Björnsson, lögfræðingur, Seattle, Wash., 89 ára gamall.

27. Ólína Guðríður Sigurrós Bárðarson, á heilsuhæli í Brandon, Man., 81 árs að aldri. Fædd á Íslandi. Foreldrar: Sigmundur Bárðarson og kona hans Helga Eiríksdóttir á Rauðanesi í Borgarhrepp í Mýrasýslu. Fluttist vestur um haf með þeim til Baldur, Man., 1886, og átti þar heima ævilangt.

31. Halldóra Abrahamson, ekkja C. J. Abrahamson, í Reston, Man. Fædd að Kolstöðum, Hvítársíðu, 21. júní 1875. Foreldrar: Guðmundur Sigurðsson og Helga Hjálmarsdóttir. Flutti vestur um haf um aldamótin og átti jafnan síðan heima í Reston og Sinclair héruðunum í Manitoba.

### JANÚAR 1964

9. Doris Kristín Papenfuss, fyrrverandi hjúkrunarkona, á sjúkrahúsi í Cavalier, N. Dak. Fædd 20. maí 1932 í Milton, N. Dak. Foreldrar: Helgi og Kristbjörg Finnson, Milton.

11. Gunnar Brynjólfsson múrari, í Winnipeg, áttræður. Búsettur þar í borg síðastliðin 61 ár.

12. Byron I. (Björn Ingimar) Johnson, fyrrv. forsætisráðherra í British Columbia fylki, í Victoria, B. C. Fæddur þar í borg 10. des. 1890. Foreldrar: Ólafur Jónsson, frá Hvítuhlíð í Strandasýslu, og Guðrún Arnfinnsdóttir frá Vatnsholti í Staðarsveit, er fluttu vestur um haf 1881. Kunnur íþróttamaður á yngri árum, og síðar athafnamaður mikill. Beitti sér í stjórnartíð sinni (1947—52) fyrir margskonar umbóta- og mannúðarlöggjöf. — Fyrsti (og enn sem komið er eini) Íslendingur, sem orðið hefir forsætisráðherra utan Íslands.

12. Jónína Guðrún Elíasson, kona Ágústs Elíasson, á Gimli, Man. Fædd í Framnesbyggð í Nýja-Íslandi 7. jan. 1904. Foreldrar: Guðmundur Jónsson og Herdís Jónasdóttir kona hans.

15. Ethel Ólafson, kona Steina C. (Stoney) Ólafson, í Winnipeg, 33 ára gömul. Fædd að Lundar, Man. Foreldrar: Hjörtur Jósephson og kona hans Sigurlaug Jónsson, nú búsett í Winnipeg.

16. Jónína Björg Árnason, ekkja Indriða Árnason, á Gimli, Man., 82 ára. Flutti af Íslandi til Gimli 1914, og átti þar heima jafnan síðan.

17. Vigfús Guttormsson skáld, að heimili sínu á Lundar, Man. Fæddur að Mjóanesi í Skógum í Suður-Múlasýslu 16. nóvember 1874. Foreldrar: Jón Guttormsson og Pálína Ketilsdóttir, landnámshjón að Víðivöllum við Íslendingafljót (Riverton) í Nýja-Íslandi, og fluttist hann með þeim þangað á fyrsta ári. Átti heima á Lundar síðan 1919, en áður að Shoal Lake og Oak Point, Man. — Skáld gott og óvenjulega sönghneigður,

og forystumaður í menningarmálum sveitar sinnar.

18. Halldóra Jóhannesson, ekkja Sigurðar Júl. Jóhannessonar læknis og skálds, í Winnipeg, 87 ára að aldri. — Foreldrar: Þorbergur Andrésson Fjeldsted, að Hreðavatni í Norðurdalshreppi í Mýrasýslu og Sigríður Guðmundsdóttir Jónssonar gullsmiðs á Hamraendum í sömu sýslu. Kom vestur um haf með föður sínum árið 1887. Framan af árum búsett í Mikley, Gimli og Lundar, Man., og síðar í Vatnabyggðum í Saskatchewan, en síðan 1928 í Winnipeg.

22. Andrés F. Oddstad, verkfræðingur og byggingarmeistari, af afleiðingum bílslyss, í Atherton, Calif., 44 ára gamall. Fæddur í Rivers Inlet, British Columbia. Foreldrar: Dr. Andrés F. Oddstad og kona hans Stefanía (Stoneson) í San Francisco. Kunnur og athafnasamur byggingarmeistari og forystumaður innan stéttar sinnar.

22. Lorne Willard Jóhannsson rakari, að heimili sínu í Winnipeg, 52 ára.

22. Stefán Stefánsson smiður, í Winnipeg, 86 ára að aldri. Fæddur á Íslandi, en átti heima í Winnipeg síðustu 60 árin.

23. Kristján Gunnlaugur Johnson vélvirki, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 68 ára gamall. Fæddur í Selkirk, Man. Foreldrar: Guðjón og Salína (Kristjánsdóttir) Johnson, bæði ættuð úr Vopnafirði.

25. Halldóra Guðlaug Hall, ekkja Ástvaldar Hall, á sjúkrahúsi í Saskatoon, Sask. Fædd í Hallson, N. Dak., 28. febr. 1904. Foreldrar: Leo (Leopold) og Vilborg Halldórsson, síðar landnemar í Wynyard-byggðinni í Saskatchewan.

25. Steinunn Anderson, kona Thordar Anderson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 83 ára að aldri. Fædd á Íslandi, átti heima í Selkirk í 44 ár, en síðustu 20 árin í Winnipeg.

27. Sigríður Aðalbjörg Helgason, ekkja Jóns Helgasonar, á sjúkrahúsinu í Treherne, Man. Fædd að Lundi í Fnjóskadal 13. des. 1966. Foreldrar: Bjarni Jónsson prests Þorsteinssonar í Reykjahlíð og kona hans Jóna Jónsdóttir. Fluttist vestur um haf með manni sínum 1893, og settust þau að í íslenzku byggðinni í Argyle, Man., og þar var heimili hennar í 70 ár.

27. Grímur Júníus Magnússon, bóndi í Geysisbyggð, á sjúkrahúsinu í Árborg, Man. Fæddur að Grund í Görðum í Gullbringusýslu 17. júní 1895. Foreldrar: Magnús Grímsson og Sigríður Jónsdóttir. Fluttist til Vesturheims fimm ára gamall.

Jan. — Guðrún S. Anderson, fyrrum kennari, kona Björgvins Anderson, í Kirkland, Wash., 73 ára. Fædd í Glenboro, Man., lengi hin síðari ár búsett í Winnipeg.

## FEBRÚAR 1964

5. Lína Olson saumakona, frá Burnaby, B. C., á sjúkrahúsi í New Westminster, B.C. Fædd 10. apríl 1880 í Argyle-byggðinni í Manitoba og ólst þar upp. Foreldrar: Þorkell Olson og kona hans Helga Jóhannesdóttir frá Geiteyjarströnd í Mývatnssveit, landnemar í Argyle, síðar búsett í Newton, B.C.

10. John Brynjólfson, á sjúkrahúsi í Whaley, B. C. Fæddur 17. des. 1876 í Rousseau, Ont. Foreldrar: Brynjólfur og Guðrún Johnson. Fluttist með þeim til Mountain N. Dakota, og ólst þar upp. Stundaði síðan búskap í mörg ár í Wynyard, Sask., búsettur lengi hin síðari ár í White Rock, B. C. Maður óvenjulega listfengur í hljómlist.

26. Jónas S. Björnson framkvæmdastjóri, á heimili sínu í Seattle, Wash., 56 ára gamall. Fæddur að Mountain, N. Dakota, en flutti til Seattle 1924.

29. Samúel Samúelsson, í Inglewood, Calif., 61 árs gamall. Foreldrar: Björn Samúelsson og Guðfinna Bjarnadóttir kona hans, bæði ættuð úr Fáskrúðsfirði á Austurlandi, en þau fluttu vestur um haf til Nýja Íslands 1903. Eftir lát Björns 1907 flutti fjölskyldan til Cavalier, N. Dakota. Samuel var lögreglustjóri í Cavalier-héraði 1948—52, og átti um skeið sæti í bæjarráði í Cavalier.

Febr. - Ebenezer Pálsson, frá Riverton, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg. — Fæddur þar í borg 7. febr. 1890. Foreldrar: Páll Jónasson og Oddfríður Þorleifsdóttir, er áttu heima að Nes P. O., Man.

## MARZ 1964

6. Thorsteinn (Steini) B. Olson, á Almenna sjúkrahúsinu í Vancouver, B. C. Fæddur 26. apríl 1878. Foreldrar: Björn Ólafson (Olson) frá Súlunesi í Borgarfjarðarsýslu og kona hans Guðrún Jónsdóttir frá Heimaskaga á Akranesi. Fluttist með þeim, á fyrsta ári, vestur um haf til Nova Scotia, en eftir nokkurra ára dvöl þar og í Winnipeg vestur til Þingvallanýlendu í Saskatchewan. Hafði lengstum verið búsettur í Westbourne, Marshland og Langruth í Manitoba, en síðan 1948 í Vancouver. Ritfær vel og kunnur fyrir landnámssöguþætti sína.

8. Egill J. Shield (Skjöld) lyfjafræðingur, í Los Angeles, Calf. Fæddur 15. júlí 1880, líklega á Berunesi á Berufjarðarströnd. Foreldrar: Jón Pétur Skjöld og kona hans Sigríður Sigurðardóttir á Berunesi. Fluttist hann með þeim vestur um haf til N. Dakota 1883. Búsettur í rúm 40 ár í Los Angeles.

9. Benedikt Jakob Lindal, í Minneapolis, Minn., 74 ára gamall. Fæddur í Winnipeg. Foreldrar: Landnámshjónin Jakob Lindal Hansson frá Þóreyjarnúpi í Húna-

vatnssýslu og Anna Hannesdóttir Þorvarðarsonar prests á Breiðabólstað í Vesturhópi. Albróðir Walters J. Lindal dómara og þeirra systkina. Rak lengi trjáviðar viðskiptafélag í Minneapolis.

14. Jónína Oliver, að heimili sínu í Transcona, Man., 61 árs gömul.

14. Soffanías Sveinn Bergman, frá Arnes, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 56 ára að aldri. Átti heima að Geysir áður en hann flutti til Árnes 1945.

15. Helga Skúlína Sigurðson, á elliheimilinu „Stafholti“ í Blaine, Wash. Fædd 19. nóv. 1882 að Öxnadalskoti í Eyjafirði. Foreldrar: Jóhannes Sigurðsson, Eyfirðingur að ætt, og Þorbjörg Skúladóttir, ættuð úr Skagafirði. Nálægt aldamótunum flutti hún vestur um haf með móður sinni til Minneota, Minn., en hafði lengstum átt heima í Seattle, Wash.

15. Pétur Guðmundur Johnson, á elliheimilinu „Stafholti“ í Blaine, Wash., 94 ára að aldri. Foreldrar: Jón hafnsögumaður Oddsson í Dúkskoti í Reykjavík og fyrri kona hans.

17. Einar M. Einarsson, á Gimli, Man., 85 ára að aldri.

18. Hannes G. Egilsson, á sjúkrahúsi í Yorkton, Sask. Fæddur í Lögberg-nýlendunni í Saskatchewan 20. sept. 1892. Foreldrar: Gísli Egilsson frá Völlum í Skagafirði og Ragnheiður Jóhannsdóttir frá Egg í Hegranesi. Átti ævilangt heima í fæðingarsveit sinni og bjó þar búi sínu fram á síðari ár. Forystumaður í sveitarmálum.

18. Helgi G. Helgason, á heimili sínu að Hnausa, Man., 78 ára gamall.

20. Jón Pálsson bakari, í Seattle, Wash., 67 ára að aldri. Fæddur að Botni í Barðastrandarsýslu.

22. Hannes I. Anderson á heimili sínu í Winnipeg, hálfníræður.

27. Guðrún Anna (Gertrude Anne) McArthur, í Winnipeg, 81 árs gömul. — Fædd á Íslandi en fluttist barnung vestur um haf með foreldrum sínum Jóhanni Jóhannssyni og Rósbjörgu Jónsdóttur, sem lengi bjuggu í Akra-byggð í N. Dakota. Búsett um skeið í Edmonton og Vancouver, en seinustu árin í Fort Garry, Man.

27. Ólöf Margrét Goodman, ekkja Jóns Tryggva Goodman, í Brooklands, Man. Fædd að Mountain, N. Dak., en fluttist til Winnipeg fyrir 67 árum og átti heima í Brooklands síðustu 60 árin.

28. Halldór Vívatsson, í Seattle, Wash., 75 ára. Fæddur að Svold í N. Dakota. Foreldrar: Halldór Vívatsson og Valgerður Magnúsdóttir, er fluttu vestur um haf 1883 og námu land við Svold. Lengi bóndi að Svold, en búsettur nokkur seinustu ár í Seattle.

28. Carl K. Kjernisted, að Oakview, Man., 77 ára. Fæddur að Gardar, N. Dak., en hafði stundað landbúnað að Oakview síðastliðin 51 ár.

28. Frú Dorothea Guðmundsson, kona Pálma Guðmundsson, í Spring Valley, San Diego, Calif. Fædd 23. ágúst 1913, dóttir Guðmundar Eiríkssonar fasteignasala og Oddfríðar Halldórsdóttur Eiríksson.

30. Elín Kristjánson, á elliheimilinu „Stafholti“ í Blaine, Wash., 91 árs gömul. Hafði átt heima í National City, Calif., í 32 ár, en síðan dvalið á Stafholti síðustu 12 ár ævinnar.

**APRÍL 1964**

3. Margrét Johnson, kona Haralds B. Johnson, í Vancouver, B. C. Fædd í Reykjavík 3. júlí 1893. Foreldrar: Magnús Magnússon og Valgerður Nikulásdóttir. Flutti vestur um haf til Winnipeg 1912 og var þar allmörg ár, því næst í Wynyard, Sask., en síðan á Vesturströndinni og frá 1949 í Vancouver.

5. John S. Laxdal, á elliheimilinu „Stafholti“ í Blaine, Wash. Fæddur 10. des. 1870 á Krossastöðum á Þelamörk í Eyjafirði. Foreldrar: Sigurður Sigurðsson og María Guðmundsdóttir, frá Moldhaugum við Eyjafjörð. Kom til Vesturheims með foreldrum sínum 1888. Maður mjög bókhneigður og skáldmæltur vel.

6. Sigurgeir Valdimar Isaacson, á sjúkrahúsi í Morden, Man., 71 árs að aldri. Foreldrar: Páll Ísaksson og Sigríður Eyjólfsdóttir, ættuð úr Árnessýslu, en fluttu til Vesturheims 1886; fyrst búsett að Gardar, N. Dak., en eftir 1901 í Brown-byggðinni í grend við Morden.

14. Bertha (Þjóðbjörg) Henrickson, ekkja Henry G. Henrickson, í Toronto, Ont., 77 ára gömul. Foreldrar: Þorvarður og Guðrún Swanson (Sveinsson), frumbyggjahjón í Winnipeg. Átti lengstum heima í Winnipeg.

15. Kristinn Thorsteinsson trésmiður, í Seattle, Wash., 74 ára. Fæddur í N. Dakota, en búsettur í Seattle um 40 ára skeið.

22. Thorsteinn Johnson, í Vancouver, B. C., 59 ára gamall.

23. Anna G. Björnsson lögreglukona, í Seattle, Wash., 67 ára að aldri. Dóttir Boga Björnsson, frá Kleifum í Strandasýslu, sem var einn af þeim fyrstu Íslendingum, er settust að í Seattle, á árunum 1887—88.

23. Gunnsteinn Eyjólfson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur í Riverton, Man., sonur Victors og Láru Eyjólfson, sonarsonur Gunnsteins Eyjólfssonar landnámsmanns á Unulandi við Íslendingafljót. Hafði lengstum átt heima í Riverton.

24. Guðmundur F. Gíslason, fyrrum kaupmaður í Elfros, Sask., á sjúkrahúsi í

Vancouver, B. C. Fæddur 5. nóv. 1886 að Hallson, N. Dakota. Foreldrar: Egill Gíslason frá Húsey í Skagafirði og Ólína Jónsdóttir frá Sleitustöðum í sömu sýslu. Átti all lengi heima í Winnipeg, en seinustu 10 árin í Vancouver. Áhugamaður um félagsmál.

25. Gunnar Guttormson, í Winnipeg, 84 ára að aldri. Lengi fiskimaður á Winnipegvatni og síðan starfsmaður hjá fiskifélögum í Winnipeg.

30. Gísli Einarsson, lengi bóndi í grennd við Riverton, Man., á elliheimilinu „Betel" að Gimli, Man. Fæddur 1883 að Borg í Njarðvík í Borgarfirði eystra. Foreldrar: Einar Þorkelsson og Ingibjörg Gísladóttir. Fluttist með þeim vestur um haf til Nýja Íslands 1890. Tók mikinn þátt í félagslífi byggðar sinnar, ritfær vel og ágætur leikari.

Apríl — Mrs. Sigurfinna Caine, í Winnipeg, áttræð að aldri.

**MAÍ 1964**

1. Svafa Johnson, kona Jóns Víglundssonar Johnson að Gimli, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 64 ára gömul. Kom vestur um haf 1910.

2. Mrs. Gertrude Edith Hansson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 46 ára. Foreldrar: Carl E. Hansson og fyrri kona hans.

3. Sigfús Jóhannson, frá Lundar, Man., á sjúkrahúsi í Brandon, Man.

4. Svanbjörg Sveinsson, ekkja Kristjáns Sveinsson, á sjúkrahúsi í Arborg, Man., áttræð að aldri. Kom frá Íslandi til Árborgar 1901, og átti þar heima til æviloka.

8. Sigríður (Sigrid) Olson, ekkja Baldurs H. Olson læknis, á heimili sínu í Winnipeg, 68 ára gömul. Fædd á Íslandi, en átti heima í Winnipeg í rúm 60 ár. Kunn og vinsæl söngkona.

9. Sigríður Thordarson ekkja Eggerts Þórðarsonar, í Mikley, Man., 82 ára að aldri. Fluttist frá Íslandi til Mikleyjar 1887 með foreldrum sínum Vilhjálmi Ásbjörnssyni af Langanesströnd og Sigríði Tómasdóttur, ættuð úr Þistilfirði.

9. Jakob J. Norman, landnemi og skáld, í Foam Lake, Sask. Fæddur að Syðstu Grund í Skagafirði 14. maí 1883, sonur Jóns Jónssonar bónda þar, seinna í Þingvallabyggð, Sask., og konu hans Bjargar Jónsdóttur frá Kárastöðum í Hegranesi. Fluttist árið 1898 vestur um haf með foreldrum sínum. Tók heimilisréttarland í Foam Lake 1905, bjó þar til 1919, en í Wynyard, Sask., 1919—56, síðan í Foam Lake. Ritfær vel og skáld gott.

11. Runólfur (Ralph) Gíslason, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Átti fyrrum heima að Steep Rock, Man.

14. Guðrún H. Anderson, ekkja Sigurðar S. Anderson, á eliheimilinu „Betel" að Gimli, Man., 85 ára að aldri. Lengi búsett í Piney, Man.

19. Guðný Sigfússon, ekkja Sigurlaugs Sigfússonar, í Prince George, B. C. Fædd á Íslandi 14. sept. 1874. Foreldrar: Bjarni Dagsson, frá Skerðingsstöðum í Eyrarsveit í Snæfellsnessýslu, og Sigríður Eggertsdóttir, ættuð úr Miðfirði í Húnavatnssýslu. Fluttist með þeim vestur um haf til Norður-Dakota 1883. Hafði lengi átt heima í Wynyard, Sask., og annars staðar í Vatnabyggðum, en síðustu 20 árin í British Columbia.

20. John Friðfinnson forstjóri, frá Charleswood, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 52 ára. Fæddur þar í borg, sonur Mr. og Mrs. Fred Friðfinnson.

20. Tryggvi Eyjólfson, að heimili sínu að Víðir, Man., 69 ára gamall. Fæddur við Íslendingafljót, sonur Sigurðar Eyjólfssonar frá Unaósi í Norður-Múlasýslu og konu hans Rósu Gísladóttur frá Króksstöðum í Húnavatnsýslu.

22. Aðalsteinn Thorsteinson, að heimili sínu í Winnipeg, 77 ára. Fæddur að Gardar, N. Dakota, en átti heima í Winnipeg síðustu 52 árin.

23. Victor Júlíus Henrikson lyfjafræðingur, að heimili sínu í Loma Linda, Californiu, 63 ára að aldri, fæddur í Selkirk, Man.

25. Roy Jóhannes Hannesson, í Winnipeg, 22 ára gamall, sonur Mr. og Mrs. Hugh L. Hannesson þar í borg. Námsmaður í þriðja bekk Manitobaháskóla og tók mikinn þátt í íþróttalífi skólans.

29. Dorothy Sólveig Partridge fyrrv. hjúkrunarkona, kona Ted S. E. Partridge, í Selkirk, Man., 67 ára að aldri. Fædd þar í bæ. Foreldrar: Illugi Ólafsson, ættaður úr Húnavatnssýslu, og Ingveldur Grímsdóttir Ólafsson, frá Gröf í Víðidal í sömu sýslu. Fluttust vestur um haf 1887 og settust að í Selkirk kringum 1890.

30. Soffanías Thorkelsson verksmiðjustjóri, á heimili sínu í Victoria, B. C. Fæddur að Ytri-Másstöðum í Svarfaðardal í Eyjafirði 5. apríl 1876. Foreldrar: Þorkell Þorsteinsson smiður og bóndi á Ytri-Másstöðum og Hofsá og kona hans Sigríður Jórunn Sigurðardóttir. Fluttist vestur um haf til Winnipeg 1898 og stofnaði þar og starfrækti lengi kunna kassaverksmiðju. Tók mikinn þátt í félagsmálum Íslendinga í Winnipeg hin mörgu ár sín þar. Búsettur í Victoria síðan 1947. Átti meginhlut að útgáfu **Sögu Íslendinga í Vesturheimi**, enda prýðisvel ritfær. Stórgjöfull fæðingasveit sinni.

Maí. — Um miðjan þann mánuð, Sigurlína Halldóra (Finnson) Thorsteinsson, kona Jóns T. Thorsteinsson, að Tantal-

lon, Sask., á sjúkrahúsi í Langenburg, Sask. Fædd 23. nóv. 1897, í Churchbridge, Sask, og ólzt upp í því héraði.

### JÚNÍ 1964

2. Óli Hannesson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur þar í borg.

5. Sigurborg Reykdal, ekkja Jóns Kristjáns Reykdal, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fædd í Hróarstungu í Norður-Múlasýslu 21. febr. 1874, dóttir hjónanna Sigfúsar Péturssonar og Guðrúnar Þóru Sveinsdóttur. Fluttist með þeim vestur um haf til Nýja-Íslands 1878, en hafði lengstum átt heima í Argyle-byggðinni nálægt Baldur, Man.

6. Thorbergur Jónsson, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 85 ára. Átti heima í Kanada síðustu 55 árin, og var fiskimaður fram til 1949, er hann lét af störfum.

6. Clara Egertsson (Stermer), í Downey, Calif., 56 ára að aldri.

13. Jónína Hjálmsson, ekkja séra Péturs Hjálmssonar, að heimili sínu í Winnipeg, 91 árs gömul. Ættuð úr Borgarfirði syðra. Kom vestur um haf með manni sínum 1899, og áttu þau heima í Markverille, Alberta, 1905—50, en að honum látnum flutti hún til Winnipeg 1950.

15. Sigurður (Sam) Halldórsson, í Winnipeg. Fæddur í Þingeyjarsýslu 25. apríl 1890; fluttist vestur um haf með foreldrum sínum og systkinum 1893.

18. Miss Lena Jackson, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man. Fluttist ársgömul frá Íslandi til Winnipeg og átti þar heima mestalla ævina.

18. Ragnar (Roger) Johnson stálþynnusmiður, í Winnipeg. Fæddur 15. marz 1888 í Mjóafirði. Foreldrar: Marteinn Jónsson, ættaður úr Strandasýslu, og Helga Jóhannsdóttir, prests að Kálfafelli í Skaftafellssýslu. Kom með foreldrum sínum vestur um haf 1889.

18. Sigurður (Syd) Jónasson, drukknaði á Nipigonvatni í Ontario. Fæddur í Riverton, Man., 27. júní 1920. Foreldrar: Mr. og Mrs. Joe Jónasson, er nokkrum árum síðar fluttu til Port Arthur, Ont.

19. Chris O. Einarson, að heimili sínu í Winnipeg, 76 ára gamall. Fæddur þar í borg, og gengdi bókhaldarastarfi áratugum saman.

20. Josephine Christine Grahn, kona Karls Grahn, á sjúkrahúsi í Winnipeg, 57 ára gömul. Fædd þar í borg. Foreldrar: Guðmundur og Guðfinna Austfjörð, ættuð af Austurlandi. Flutti ung með foreldrum sínum til Heckla, Man., en átti mörg seinustu árin heima í The Pas, Man.

23. Lárus Sigurður Freeman, Piney, Man., 91 árs að aldri. Bóndi í Piney síðustu 56 árin.

27. Caroline Baldwin, ekkja Baldwins Baldwin, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 70 ára. Fædd þar í borg og átti lengstum heima þar, en einnig um allmörg ár í Saskatoon, Sask., og síðustu sex árin í Ottawa.

29. Paul Olson, á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg. Fæddur þar í borg, og var lengst af í þjónustu Canadian National jórnbrautarfélagsins.

### JÚLÍ 1964

1. Stanley Samson, lyfjafræðingur og forstjóri, í Edmonton, Alberta, 58 ára að aldri. Fæddur í Winnipeg, sonur Jóns J. Samson fyrrum lögregluþjóns og Guðbjargar Ólafsdóttur konu hans. Um skeið formaður Íslendingafélagsins í Edmonton.

4. Ingunn Johnson, ekkja Þorleifs Johnson, á sjúkrahúsinu að Gimli, Man., 84 ára gömul. Flutti frá Íslandi til Kanada 1897 og átti lengst af heima í Winnipeg.

6. Eirikka Dalman, kona Hólmsteins Dalman, í Vancouver B. C. Fædd 10. jan. 1893 að Lundar, Man. Foreldrar: Jóhann og Steinunn Thorsteinson. Búsett í Vancouver síðan 1940, áður í Manitoba og víðar.

7. Lýður Sigurdson fasteignasali, á sjúkrahúsi í Vancouver, B. C. Fæddur í Surrey Centre, B. C., 16. des. 1922. — Foreldrar: Jón og Margrét Sigurdson.

10. Oddur Sigurdson, á elliheimilinu „Stafholti“ í Blaine, Wash. Fæddur 1. maí 1873 á Kollaleiru í Reyðarfirði, sonur Sigurðar Oddssonar og Eygerðar Eiríksdóttur, er þá bjuggu þar. Búsettur í Blaine í 54 ár og rak þar verzlun í mörg ár.

16. Landnámskonan Helga Thorarinson, ekkja Þorvaldar Þórarinssonar bónda á Skriðulandi við Íslendingafljót, á sjúkrahúsinu í Arborg, Man. Fædd 3. júní 1872. Foreldrar: Tómas Ágúst Jónasson, landnemi að Engimýri við Íslendingafljót (albróðir Sigtryggs Jónassonar), og Guðrún Jóhannesdóttir Grímssonar bónda á Kjarna og Litla-Hóli í Eyjafirði. Lengstum búsett við Íslendingafljót.

18. Sylvia Carolyn Swanson, í Portage la Prairie, Man., 28 ára gömul. Foreldrar: Ragnar og Karolina Swanson, St. Boniface, Man.

18. Þorvaldur Jónsson, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur 7. júlí 1884 í Vesturholtum undir Eyjafjöllum í Rangárvallasýslu, sonur séra Jóns Sveinssonar prests í Holti. Flutti til Selkirk, Man., 1923 og hafði átt þar heima síðan.

19. Jón Nordal, að heimili sínu í Winnipeg. Fæddur í Selkirk, en síðustu 32 árin búsettur í Winnipeg.

24. Mekkin S. Perkins, ekkja John W. Perkins tungumálaþýðanda, að Wesley Gardens dvalarheimilinu í Des Moines,

Wash. Fædd í Winnipeg 18. sept. 1887. Foreldrar, þá nýkomin frá Íslandi, Gunnar Sveinsson frá Egilsstöðum í Fljótsdalshéraði og Kristín Finnsdóttir prests Þorsteinssonar frá Klyppstað og Desjamýri. Kunn fyrir ritstörf, sérstaklega fyrir þýðingar af íslenzkum smásögum á enska tungu.

25. Eirikka Jóhanna White, ekkja Herberts Allan White, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fædd á Íslandi, en hafði átt heima um 40 ára skeið í St. Vital, Man.

27. Helga Sigurdson, fyrrum til heimilis að Arnes, Man., á sjúkrahúsi á Gimli, Man., 72 ára að aldri.

29. Miss Averil Baldwinson, á heimili sínu í St. Boniface, Man. Foreldrar: — Arthur Baldwinson og kona hans (bæði látin).

**ÁGÚST 1964**

2. Margaret Steen, kona Charles Steen, í Vancouver, B. C., 48 ára gömul. Íslenzk í móðurætt, en móðir hennar er Mrs. Kristín Lindal Newell í Vancouver.

4. Dóra S. Tipping, kona Frederick Tipping, í Fort Garry, Man., 74 ára gömul. Dóttir Jóns Erlendssonar Eldon, fyrrum ritstjóra **Heimskringlu**, er var Þingeyingur að ætt.

11. Kristveig Jóhannesson, ekkja Guðmundar Jóhannessonar, í Portage la Prairie, Man., 88 ára að aldri. Fædd á Íslandi, en búsett í Kanada síðastliðin 61 ár, átti fyrrum heima í Winnipeg og Árborg, Man.

14. Ragnar Waldimar Gillis, frá Towner, N. Dakota, í bílslysi nálægt Brandon, Man. Fæddur í Brown byggðinni í Manitoba 20. febr. 1928. Foreldrar: Ragnar og Salóme Gillis, sem lengi bjuggu þar í byggð, en nú eiga heima í Morden, Man.

16. Gróa Sigurdson, á Lundar, Man. Fædd á Ánastöðum í Mýrasýslu 18. marz 1884. Foreldrar: Sigurður Sigurðsson og Bergþóra Kristín Bergþórsdóttir. Fluttist með þeim vestur um haf til Mikleyjar, Man., 1887, en búsett að Lundar síðustu 60 ár.

17. Paul J. Halldórson, fyrrv. verksmiðjustjóri, í Evanston, Illinois. Fæddur 21. des. 1883. Foreldrar: Frumherjahjónin Jón Halldórsson og Þorvör Sveinsdóttir, er fluttust vestur um haf til Miklwaukee 1872, en námu síðar land í Nebraska.

23. Clara Ásdís Björnsson, kona Björns Björnssonar, á heimili sínu í Seattle, Wash. Fædd 22. maí 1898 í Winnipeg. Foreldrar: Sveinn Bergman Þorbergsson, frá Hofi í Vatnsdal í Húnavatnssýslu, og Helga Hinriksdóttir frá Efranúpi í Miðfirði, er bæði komu vestur um haf til Winnipeg 1887. Hafði átt heima í Seattle síðan 1930.

24. Ingiberg Ingimundarson Goodman, lengi bóndi nálægt Lundar, Man., á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fæddur á Íslandi 25. marz 1888. Foreldrar: Ingimundur Guðmundsson og Sólborg Guðmundsdóttir, ættuð úr Breiðafirði.

25. Ólafur Johnson, í Winnipeg, 69 ára að aldri. Fæddur að Grund í Argyle, Man., átti lengst af heima í Selkirk, Man., en í Winnipeg síðan 1942.

25. Hallgrímur (Harley) Gillis, frá Winnipeg, í bílslysi nálægt Camp Morton, Man., 18 ára gamall. Foreldrar: Mr. og Mrs. John Gillis í Winnipeg.

26. Jón Sigurður Bjarnason, frá Gimli, drukknaði á Winnipegvatni, 35 ára að aldri. Afi hans og amma eru Óli Bjarnason og kona hans að Gimli.

**SEPTEMBER 1964**

2. Eiríkur H. Hallson, á Lundar, Man., 68 ára gamall.

3. Halldóra (Dóra) Smith, á sjúkrahúsi í Winnipeg. Fædd 17. júlí 1872 að Refstöðum í Hálsasveit í Borgarfirði. Foreldrar: Einar Árnason frá Kalmanstungu og fyrri kona hans Guðrún Magnúsdóttir frá Fljótstungu. Fluttist til Kanada 1887, búsett í Brandon, Man., til 1937, en síðan í Winnipeg.

5. Ingunn Marteinsson, ekkja séra Runólfs Marteinssonar, í Ninette, Man. Fædd á Íslandi 8. júní 1873. Foreldrar: Sigurgeir Pálsson Bardal og Vigdís Helgadóttir Bardal. Fluttist með þeim 14 ára gömul vestur um haf til Winnipeg. Hafði átt heima á Gimli, Man., einnig um tíma í Seattle og Vancouver, en lengst af í Winnipeg.

7. Sigurður (Sam) Torfason múrari, á sjúkrahúsi í Vancouver, B. C. Fæddur á Seyðisfirði 9. júlí 1888. Foreldrar: Björn Torfason og Katrín Gissurardóttir. Kom til Kanada með foreldrum sínum 1891. Átti heima í Vancouver síðastliðin 20 ár, en áður á Gimli og í Winnipeg.

15. Valgerður Ingibjörg Sigurdson, ekkja Friðriks Sigurdson, að heimili sínu að Geysi, Man., 81 árs gömul. Hafði átt heima þar í byggð í 59 ár.

17. Ófeigur Guðmundur Ketilson, á sjúkrahúsinu í Wadena, Sask.

17. Thorunn Johnson, ekkja Guðmundar (James) Johnson, að heimili sínu í Amaranth, Man., 73 ára að aldri. Fædd í Churchbridge, Sask., en flutti til Amaranth 1917.

18. Sigríður M. Sigurgeirson, kona séra Skúla Sigurgeirson í Wauban, Minnesota, á sjúkrahúsi að Gimli, Man. Fædd 8. jan. 1904 í Mikley, Man. Foreldrar: Márus Doll, fæddur að Hróksholti í Eyjahreppi í Hnappadalssýslu, og Ingibjörg Brynjólfsdóttir Jónssonar land-

námsmanns í Mikley, ættaður frá Þórisdal í Lóni í Austur-Skaftafellssýslu.

19. Einar Magnússon bóndi, á heimili sínu í Arborg, Man., 58 ára gamall og hafði átt heima í Árborg ævilangt.

21. Thora Emely Long hjúkrunarkona, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man. Fædd að Hólum í Norðfirði, Suður-Múlasýslu, 13. marz 1888. Foreldrar: Jón Matthíasson Long og Pálína Sveinsdóttir. Fluttist til Kanada um aldamótin. — Gegndi hjúkrunarstörfum í ýmsum bæjum í Saskatchewan, lengi í Saskatoon.

22. Jóhannes S. Fredericks, í Winnipeg, 74 ára.

22. Runólfur Henrickson, að heimili sínu í Selkirk, Man., 76 ára gamall. — Fæddur á Íslandi, en hafði átt heima í Selkirk í 68 ár.

24. Matusalem John Olson, í Selkirk, Man. Fæddur í N. Dakota, en átti mestan hluta ævinnar heima norður við vötn í Manitoba, seinustu fimm árin í Selkirk.

28. Arthur Peter Thorkelson, lengi bóndi í Portage la Prairie, í Winnipeg, 81 árs. Fluttist vestur um haf til Kanada tveggja ára gamall, ólst upp í Winnipeg, og flutti þangað frá Portage la Prairie 1945.

30. Önundur Brandson. í Swan River, Man. Fæddur 30. ágúst 1870 í Ólafsvík. Kom vestur um haf til Winnipeg 1905, síðan um nokkur ár í Arborg, Man., en nam land í Swan River dalnum 1920.

Sept. — Snemma í þeim mánuði, landnámsmaðurinn Aðaljón Kristvinsson, í Markerville, Alberta. Fæddur á Íslandi 1884, en fluttist 1889 vestur um haf til Markerville, Alberta. Fæddur á Íslandi 1884, en fluttist 1889 vestur um haf til Markerville með móður sinni, og átti þar heima jafnan síðan. Mikill áhugamaður um sveitarmál.

### OKTÓBER 1964

2. Friðrika Martin, ekkja Antoníusar Martin, að Arnes, Man., 81 árs gömul. Fædd í Winnipeg, en átti lengst af heima að Arnes.

2. Halldór Ágúst Austmann, í Árborg, Man. Fæddur að Hnausa, Man., 3. ágúst 1896. Foreldrar: Ásmundur B. Austmann frá Bakka í Borgarfirði eystra og Helga Sigurðardóttir frá Setbergi í Fellum í Norður-Múlasýslu. Stundaði lengi búskap að Víðir, Man., en síðan 1953 búsettur í Árborg. Áhugamaður um byggðarmál.

4. Ásgerður Brandson, ekkja Odds Brandson, fyrrum til heimilis í Winnipeg, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man., 87 ára gömul.

10. Oddný Jakobína Björnson, að heimili sínu í Winnipeg, 93 ára að aldri. Hafði átt heima í Kanada 88 ár, fyrst á Sandy Bar, Man., en síðustu 78 árin í Winnipeg.

12. Freda María McIntosh, kona Wes McIntosh, á sjúkrahúsi í Ottawa, Ont. Fædd að Gimli, Man., 24. des. 1917. — Foreldrar: Brynjólfur og María (Kristjáns son) Björnson (bæði látin). Átti áður heima að Árborg, Man., og í Winnipeg.

12. Guðmundur Grímson, frumherji í Mozart byggð í Saskatchewan, á elliheimili í Wynyard, Sask., 86 ára að aldri.

16. Dr. Arni Páll Arnason, í Ottawa, Ont., sextugur að aldri. Fæddur í Brown byggðinni í Manitoba. Skordýrafræðingur að menntun, og kunnur maður fyrir rannsóknir í fræðigrein sinni.

17. Guðbjörg Samson, ekkja Jóns J. Samson, fyrrum lögregluþjóns í Winnipeg, á heilsuhæli þar í borg, 94 ára að aldri. Fædd að Búð í Þykkvabæ í Rangárvallasýslu. Foreldrar: Landnámshjónin Ólafur J. Felixson og Valgerður Felixdóttir, bæði ættuð úr Rangárvallasýslu, er fluttust vestur um haf til Norður-Dakota 1886. Lengstum búsett í Winnipeg.

19. Soffía Fowler, kona Lawrence Fowler, að heimili sínu í Winnipeg, 72 ára gömul.

21. Birgitta Björnson, ekkja Guðmundar Björnson, á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man., 85 ára að aldri. Fædd á Íslandi, en flutti til Kanada 1899, og átti heima í Selkirk í 61 ár.

25. Ingibjörg Jónsdótir Guðmundsson skáldkona, ekkja Bjarna Guðmundssonar, að heimili sínu í Tujunga, California. Fædd að Gaulverjabæ í Árnessýslu 21. júlí 1875. Foreldrar: Jón Hannesson í Syðri-Gengishólum og víðar og Elín Pálsdóttir prests Ingimundarsonar í Galuverjabæ. Kom til Vesturheims 1902. Síðan 1930 búsett í Suður-Californiu, en áður í Winnipeg, Foam Lake, Sask., og Bellingham og Seattle, Wash. Mörg kvæði hennar í íslenzkum blöðum og tímaritum, einkum vestan hafs.

28. Aileen Stephenson, kona Thor Stephensen, að heimili sínu í Montreal. Fædd í Winnipeg. Foreldrar: Baldur Olson læknir og Sigríður Olson söngkona þar í borg (bæði látin).

29. Stefania Ellenthora Bjarnason hjúkrunarkona, á heimili sínu að Gimli, Man., 65 ára að aldri. Fædd að Camp Morton, Man., en hafði átt heima að Gimli lengstum ævinnar.

### NÓVEMBER 1964

1. Bella Straumfjörð, kona Jóhanns J. Straumfjörð, á elliheimilinu „Stafholti“ í Blaine, Wash. Fædd á Íslandi 12. júlí 1877. Foreldrar: Kristján Jóhannesson og Kristjana Stefánsdóttir, Jónssonar, sem lengi bjó að Jónsnesi í Mikley, Man. Fluttist, að föður hennar látnum, ung að aldrei vestur um haf með móður

sinni og ólst upp í Selkirk, Man. Hafði átt heima í Blaine byggð og Blaine bæ síðan 1901. Kennslukona að menntun og tók mikinn þátt í íslenzkum og öðrum félagsmálum.

3. Thorður Thorðarson, að heimili sínu í Winnipeg, 67 ára að aldri. Fæddur á Íslandi, átti fyrrum heima norður við Manitobavötn, þar sem hann var fiskikaupmaður, en síðustu sex árin í Winnipeg.

5. Gísli Einar Anderson, að Gimli, Man., 51 árs gamall.

6. Jóhannes (Kristjánsson) Christie, er lengst af átti heima í Winnipeg, á heilsuhælinu í Hveragerði, 87 ára að aldri.

7. Ásdís Pauline Jóhannesson, ekkja Jónasar Jóhannessonar, í St. Catherines, Ont., 93 ára. Ættuð af Ísafirði og flutti vestur um haf til Winnipeg 1891. Lengi búsett þar og einnig um skeið að Winnipeg Beach, en síðan 1944 í Ontario.

8. Lovísa (Louise) Jones kennslukona, ekkja Allan Jones, að heimili sínu í Selkirk, Man. Fædd þar í bæ, og verið búsett þar, og unnið að kennslustörfum, rúm síðastliðin 20 ár.

9. Sigurður (Sam) Thorarinsson, í St. James, Man., 81 árs. Flutti til Kanada frá Íslandi 1889, og var búsettur í St. James síðastliðin 75 ár.

10. Lalah Nellie Dowers Jóhannson, kona Grettis L. Jóhannson, ræðismanns Íslands í Sléttufylkjunum í Kanada, í Winnipeg. Af bandarískum ættum, fædd 4. nóv. 1903. Átti heima í Winnipeg samfleytt síðastliðin 30 ár. Mikill Íslandsvinur og manni sínum ágætlega samhent í störfum hans í þágu Íslands og vesturíslenzkra félagsmála.

11. John Gunnarson, frá Arborg, Man., á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg, 81 árs gamall. Fæddur á Íslandi, dvaldi um langt skeið í Danmörku, kom til Árborg 1923, og gerðist bóndi þar.

12. Helga Johnson, á sjúkrahúsi í Vancouver, B. C. Foreldrar: Bergþór og Jóhanna Johnson, sem lengi áttu heima í Fort Rouge (Winnipeg), og þar ólst hún upp. Fluttist til Vancouver fyrir 40 árum.

15. Hólmfríður Davíðsson, ekkja Guðna Davíðsson, á elliheimilinu „Stafholti“ í Blaine, Wash. Fædd við Húsavík 24. júlí 1868. Foreldrar: Ásmundur Guðmundsson og Kristín Sæbjörnsdóttir. Kom til Vesturheims 1886. Fram eftir árum lengi búsett í Winnipeg, en öll hin síðari ár í Blaine.

21. Ingveldur Kristín Sigurður, kona Peter Sigurður, að Camp Morton, Man. Fædd að Sinclair, Man., og átti fyrrum heima að Sandy Hook, Man.

23. Pálmi S. Einarsson, að heimili sínu á Gimli, Man., 58 ára. Fæddur í nágrenni við Gimli og átti þar heima alla ævi.

26. John Ingjaldson, fyrrum til heimilis í Selkirk, Man., á elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man., 77 ára. Fæddur í Riverton, Man., en átti heima í Selkirk í 60 ár. Tók þátt í bæjarmálum.

26. Stefán Árni Jón Jóhannson, bóndi í grennd við Gimli, 46 ára. Hafði átt þar heima alla ævi.

28. Edward Lárus Johnson, að Arborg, Man., 78 ára gamall. Fæddur í Minnesota, en átti heima í Árborg síðan 1901, og stundaði þar búskap.

### DESEMBER 1964

2. Kristjón Sigurdson, á sjúkrahúsinu í Arborg, Man., 74 ára. Hafði stundað búskap að Geysir, Man., og átt þar heima alla ævi sína.

5. Jóhann Vilhjálmur Árnason, að Gimli, Man. Fæddur að Bólstað á Gimli 3. okt. 1885. Foreldrar: Jóhann P. Arnason og Dorothea Sofía Abrahamsdóttir, bæði ættuð úr Eyjafirði. Þau fluttust vestur um haf 1883. Athafnasamur forystumaður í bæjar- og félagsmálum.

11. Anne Einarsson, kona Elhert J. Einarsson, að heimili sínu í East Kildonan, Man., 37 ára að aldri.

15. Sigriður Sigmundson, að elliheimilinu „Betel“ að Gimli, Man., 89 ára gömul. Átti heima að Gimli síðan hún kom frá Íslandi 1921.

22. Sveinbjörg (Bertha) Swanson, kona Harry Swanson, að Gimli, Man., 64 ára. Fædd á Íslandi, en fluttist með fjölskyldu sinni í Ísafoldarbyggð í Nýja-Íslandi 1905. Áður búsett í Árborg, Man., en síðustu sex árin á Gimli.



# Fertugasta og fimmta ársþing Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi

**Ræða forseta Þjóðræknisfélagsins, haldin við þingsetningu.**

Háttvirtir gestir og þingfulltrúar:

Við upphaf þessa þings skal þess minnzt, að nú eru **fjörutíu og fimm** ár liðin, síðan Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi var stofnað, og hefjum við nú senn þau störf, sem eru framhald af fjörtíu og fimm ára starfi.

Á umræddu tímabili hefir Þjóðræknisfélagið verið ein af áhrifamestu tengitaugum milli þeirra Íslendinga, sem búa hér vestan hafs sem og milli Vestur-Íslendinga og heimaþjóðarinnar. Ekki vil ég gera meira úr þessu en gera skyldi, því ekki má gleyma öðrum stofnunum, svo sem vikublöðunum, sem fylgt hafa sömu stefnu í því að halda Íslendingum saman og styðja að viðhaldi íslenzkrar tungu og annarra þjóðareinkenna. Blöðin bæði, hvort í sínu lagi og nú hin síðari ár í sameinuðu formi, hafa unnið ómetanlegt þjóðræknisstarf, og er ekki unnt að benda á aðrar stofnanir, er þar standi framar.

Næst blöðunum kemur Þjóðræknisfélagið, sem starfað hefur í fjörtíu og fimm ár og er enn í fullum blóma. Um það félag má segja, að erfitt væri að ímynda sér, hvernig ástatt myndi meðal þjóðarbrotsins íslenzka hér vestra, hefði þess ekki notið við. Þriðju stofnuninni má og ekki gleyma, en það er Íslendingadagsnefndin, sem enn gengst fyrir hinu árlega hátíðarhaldi Íslendingadagsins, en sú nefnd er eldri í hettunni en Þjóðræknisfélagið. Íslendingadagsnefndin á langt og gott starf að baki, fyrst í Winnipeg, en nú um mörg hin seinni ár að Gimli, þar sem Íslendingar koma enn saman á ári hverju í þúsunda tali til minningar um sitt íslenzka eðli. Íslendingadagshátíðin á sumri komanda verður sú sjötugasta og fimmta í röðinni.

Aðrar þær stofnanir, sem telja sig íslenzkar og styðja íslenzk málefni, eru sem hlekkir í þeirri sterku keðju, sem heldur Íslendingum saman. Þar sem flestar þeirra tilheyra Þjóðræknisfélaginu, má líkja félaginu í heild við þessa sterku keðju, sem hefir að hlekkjum sínum deildirnar allar, út um byggðir og hér í Winnipeg. Hér má einnig telja félagið, Icelandic Canadian Club, en enda þótt það félag sé ekki hluti Þjóðræknisfélagsins, var það í þennan heim borið á þingfundi Þjóðræknisfélagsins og verður óneitanlega að teljast afkomandi þess.

Hinar einstöku þjóðræknisdeildir eru sem hér segir: Aldan í Blaine, Báran í Mountain, N.D., Brúin í Selkirk, Esjan í Árborg, Frón í Winnipeg, Gimli á Gimli, Ísland í Morden, Lundar á Lundar og Ströndin í Vancouver. Til viðbótar má nefna félög, sem nána samvinnu hafa við aðalfélagið. Í því sambandi skal nefna Íslenzka klúbbinn í New York, félagið Vestra í Seattle og þjóðræknisfélagið í Reykjavík.

Samheldni hefir verið mikil innan Þjóðræknisfélagsins á fjörutíu og fimm ára sögu þess. Ef svo hefði ei verið, væri högum þess ekki jafnvel háttað nú og raun ber vitni. Ég fagna því að fá tækifæri til að koma hér fram sem forseti þessarar þýðingarmiklu stofnunar og mega flytja þessi örfáu viðurkenningarorð um félagið og starf þess og þá, sem að því hafa staðið, bæði fyrr og síðar.

Tíminn leyfir ekki, að ég telji upp nöfn allra þeirra einstaklinga, sem lagt hafa fram efni og krafta félaginu til stuðnings á síðast liðnum fjörutíu og fimm árum. Hefði ég þó gjarna viljað gera það. Margir þeirra, sem hæst bar í þjóðræknismálunum hér fyrr á árum, eru nú látnir. Í þeim hópi eru stjórnarnefndarmenn margir og aðrir dyggir stuðningsmenn. Hér í dag eru þó mættir tveir menn, sem ég vildi mega geta sérstaklega. Báðir eru þessir menn fyrrverandi forsetar Þjóðræknisfélagsins, og báðir eru þeir bráðlifandi, ungir í anda og fjörmiklir, að því er ég fæ bezt séð. Ég á hér við þá dr. Richard Beck og dr. Valdimar J. Eylands. Ég þakka þeim báðum störf þeirra sem forsetum þessa félags og sem samvinnumönnum þess og velunnurum. Við þrír (hér smeygi ég mér inn í hópinn) höfum skipzt á um forsetaembættið í þónokkuð mörg ár og tekið við hver af öðrum með margra ára millibili. Við höfum verið forsetar, varaforsetar og fyrrverandi forsetar til skiptis, og með þessu hefir félaginu, að mínum dómi, tekizt að skapa sér nokkurs konar heilaga þrenningu. Að vísu hefir enn eigi verið úr því skorið, hver sé faðirinn, hver sonurinn og hver hinn heilagi andi. Sennilega ráðum við einhvern veginn og einhvern tíma fram úr því máli.

Þó að maður mæli nokkur orð í gamni, er það þó staðreynd, að samvinnan hefir alltaf verið góð, og ég vil nota þetta tækifæri ekki einungis til að þakka hinum tveim fyrrverandi forsetum, heldur og samnefndarmönnum mínum öllum starf þeirra í þágu þjóðræknismálanna.

Gamalt máltæki kveður svo á, að blóm skuli látin lifendum í té. Með þessu erum við minnt á, að okkur beri að sjá svo til, að samferðarmenn okkar séu ekki látnir bíða eftir viðurkenningum fyrir vel unnin störf, þangað til orðið er um seinan. Slíka bið vil ég nú forðast með því að þakka öllum þeim ágætu mönnum, sem nú eiga sæti í stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, öllum meðlimum aðalfélags og deilda sem og öðrum velunnurum fyrir stuðning og hlýhug í félagsins garð og þann málstað, sem það lætur sig mestu varða.

Ég vil nú minnast þeirra félagssystkina, sem hurfu úr hópnum á árinu, en störfuðu með okkur meðan líf og kraftar leyfðu, en nöfn þeirra eru sem hér segir: Kristinn Ármann Kristinsson, Árborg, Mrs. Ingibjörg Eggertsson, Vogar, Ólafur Thorsteinson, Gimli, Jón Jónsson Lindal, Lundar, Vigfús Guttormsson, Lundar, Einar Jón Magnússon, Selkirk, Bertha Danielson, Blaine, Jóhann Sigmundsson, Vancouver, próf. Tryggvi J. Oleson, Winnipeg, (fyrrv. varaforseti Þjóðræknisfélagsins), Ragnar Johnson, Wapah, Jóhannes Gíslason, Leslie, Sask., Mrs. Jónína Elíasson, Gimli, Guðmundur J. Johnson, Winnipeg, Randver Sigurdson, Winnipeg, Gunnar Brynjólfsson, Winnipeg.

Við minnumst ofangreindra félagsmanna og kvenna með virðingu og þökk fyrir samstarfið.

Næst skal vikið að atburðum liðins árs og störfum stjórnarnefndar félagsins.

Fyrst vil ég geta starfa fyrrverandi forseta Þjóðræknisfélagsins, dr. Richards Beck:

Síðan dr. Richard Beck lét af forsetaembætti í Þjóðræknisfélaginu hefir hann bæði í ræðu og riti haldið áfram að vinna málstað félagsins til eflingar. Má fyrst geta þess, að stuttu eftir þjóðræknisþingið í fyrra flutti íslenzka Ríkisútvarpið forsetaræðu hans af segulbandi, og var henni vel tekið af hlustendum. Þá hefir hann á árinu flutt kveðjur félagsins og ræður um þjóðræknis- og menningarmál á árssamkomu kvenfélagsins „Hekla" í Minneapolis, á lýðveldishátíð og 25 ára afmæli deildarinnar „Bárunnar" í N. Dakota og á Íslendingadeginum í Blaine, Wash. Á flestum þessum samkomum sýndi frú Margrét Beck einnig og skýrði, litskuggamyndir frá Íslandi. Sameiginlega hafa þau hjónin einnig flutt skemmtiskrá um Ísland á samkomu Byggðarfélagsins í Gardar, N.Dakota; deildarinnar "Ísland" í Morden, Manitoba, og á tveim samkomum í Grand Forks. Útvarpsstöð Ríkisháskólans í N.Dakota (KFJM) flutti 17. júní af segulbandi ræðu, sem dr. Beck hafði samið í tilefni af Lýðveldisdegi Ísl., og sjálfur flutti hann í október erindi frá þeirri stöð um Leif Eiríksson og Vínlandsfund hans. Loks skal þess getið, að þ. 15. okt. flutti Ríkisútvarpið íslenzka hálftíma erindi um landnám Íslendinga í N.Dakota, sem dr. Beck hafði talað á segulband í tilefni af 85 ára afmæli landnámsins síðastliðið sumar. Hann hefir einnig á liðnu starfsári ritað fjölda greina um íslenzk efni í blöð og tímarit beggja megin hafsins.

Enn skal þess getið, að stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins hefir séð um að allar deildir félagsins í Manitoba hafi verið heimsóttar, og hafa ýmsir nefndarmenn skemmt þar á samkomum. Í haust er leið var farið til Selkirk, Gimli, Árborgar og Lundar. Þá var og haldin Frónssamkoma í Winnipeg. Á öllum þessum samkomum hafa þau dr. Beck, frú hans, og frú Hólmfríður Danielson

skemmt og prófessor Haraldur Bessason á flestum þeirra.

Mitt starf fyrir Þjóðræknisfélagið hefir aðallega verið í því fólgið að stjórna nefndarfundum þeim, sem haldnir hafa verið á árinu og nokkrum samsætum, sem efnt var til. Ég flutti kveðjur félagsins á Íslendingadeginum að Gimli í ágúst síðast liðið sumar og var í fylgd með ræðismanni, herra Gretti L. Johannson og öðrum til Gimli á tuttugu ára afmæli deildarinnar þar. Var sú samkoma fjölmenn og í alla staði hin skemmtilegasta. Dagskrárefni var m.a. ræðuhöld, söngur og hljóðfærasláttur. Þar var staddur fyrsti forseti deildarinnar, dr. Kjartan Johnson, og flutti hann ræðu, en núverandi forseti, Franklin Olson kennari stjórnaði samkomunni. Báðir þessir menn voru sæmdir merki Þjóðræknisfélagsins við þetta tækifæri til minningar um daginn og sem viðurkenningu á starfi þeirra.

Til merkisatburða í sögu félagsins á liðnu ári má telja heimsókn gesta frá Íslandi. Má þar m.a. nefna dr. Sigurð Þórarinsson jarðfræðing og Sindra Sigurjónsson umboðsmann Lögbergs-Heimskringlu á Íslandi. Þá bar hér að garði í nóvember dr. Halldór Halldórsson prófessor við Háskóla Íslands, og flutti hann erindi um íslenzkt mál á háskóla Manitobafylkis við góða aðsókn og undirtektir.

Snemma hausts kom hingað hinn kunni hljómlistarmaður, Rögnvaldur Sigurjónsson, frá Reykjavík, og stóð Þjóðræknisfélagið fyrir því, að honum yrði gert það kleift að halda hljómleika í „Playhouse Theatre" í Winnipeg. Hljómleikar þessir hlutu góða aðsókn og undirtektir og góða dóma í blöðum Winnipegborgar. Rögnvaldi Sigurjónssyni var haldið samsæti á heimili íslenzka ræðismannsins í Winnipeg, sem efnt var til af ræðismanninum Gretti L. Johannson og frú Hólmfríði Danielson. Þjóðræknisfélagið hafði og sérstakt samsæti Rögnvaldi til heiðurs, ráðstafaði hljómleikaför fyrir hann til Vancouver og Seattle, þar sem hann hitti marga Íslendinga og hélt hljómleika við hinar beztu undirtektir.

Þess ber að geta, að á liðnu ári önnuðumst við ekki einungis móttöku fyrir gesti frá Íslandi, heldur gerðust margir úr okkar hópi gestir á Íslandi.

Svo bar við á árinu, að flugfélagið Loftleiðir á Íslandi ákvað að gefa Þjóðræknisfélaginu tvo farmiða frá New York til Íslands. Var svo mælt fyrir, að miðum þessum yrði ráðstafað til styrktar vikublaðinu Lögbergi-Heimskringlu. Að frumkvæði Þjóðræknisfélagsins keyptu nokkrir vinir Guttorms J. Guttormssonar skálds annan miðann og buðu honum í Íslandsferð. Hinn miðann keypti dóttir Guttorms, Mrs. J. Sigurðsson til þess að geta fylgzt með föður sínum heim til ættjarðarinnar. Á Íslandi hlutu þau Guttormur og dóttir hans hinar beztu viðtökur, og flutti Guttormur kveðjur frá Þjóðræknisfélaginu í ýmsum samkvæmum, sem honum voru haldin til heiðurs.

Síðast liðið vor fór sérstakur hópur fólks frá Winnipeg til Íslands. Þar á meðal voru tveir menn úr stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins, þeir Jóhann T. Beck og Walter J. Lindal dómari. Nokkru áður hafði þriðji nefndarmaðurinn, Jakob F. Kristjánsson, farið til Íslands, og var hann þar staddur, er hópurinn kom frá Winnipeg. Þessir þrír menn fluttu allir kveðjur frá félaginu, og var þeim öllum vel tekið.

Stjórnarnefnd Þjóðræknisfélagsins efndi til sérstaks hófs fyrir Guttorm skáld, þegar honum var afhentur farmiðinn til Íslands. Voru nefndarmenn á einu máli um það, að vel færi á að senda Guttorm til Íslands sem fulltrúa félagsins og heiðursfélaga þess.

Þegar ég renni huganum yfir störf samverkamanna minna í stjórnarnefnd, undrar mig mjög, hversu miklu þeir hafa komið í verk í félagsins þágu, þar sem slík störf hafa öll verið í hjáverkum unnin. Ég vona, að nefndar mönnum þyki ekki við mig, er ég sérstaklega nefni tvö nöfn þau Gretti L. Johannson gjaldkera og frú Hólmfríði Danielson ritara.

Frú Danielson hefur flutt erindi og upplestra á mörgum stöðum og samið margar greinar, stuttar og langar í blaðið, Lögberg-Heimskringlu sem og í Icel. Canadian um mál félagsins. Hún hefur verið öðrum félögum hjálpsöm um útvegun á íslenzkum búningum fyrir skemmtifundi og fræðslumót. Hún hefur komið víða fram fyrir hönd Þjóðræknisfélagsins, eins og til dæmis á fundi „the Women's Committee of the Sympony Orchestra". Í samvinnu við féhirði sendi hún út um 600 auglýsingabréf varðandi tónleika Rögnvalds Sigurjónssonar.

Um féhirði okkar er það að segja, að félagið nýtur þess, að hann skipar ræðismannsembættið, sem í sjálfu sér er mikill hagnaður fyrir félagið. Auk þess gegnir hann embætti sínu í stjórnarnefnd af slíkri einlægni og alúð, að á betra verður ekki kosið. Vegna langrar reynslu og mikillar þekkingar á rekstri þjóðræknismála er hann stjórnarnefndinni algjörlega ómissandi. Ég er ekki að slá honum neina gullhamra, en margt er það við rekstur eins fyrirtækis, sem

ekki liggur almenningi í augum uppi, og svo er hér. Ég vil með þessu strá nú við þetta tækifæri nokkrum blómum á götu féhirðis, en ekki láta það bíða seinni tíma.

Meðal starfa féhirðis má nefna afhendingu á námsstyrk Menntamálaráðuneytis Íslands til handa Elínu Josephson, ráðstafanir vegna $500.00 láns til styrktar bókar Wilhelms Kristjánson's „The Icelandic People in Manitoba", afhending fimm hundruð dala gjafar til Lögbergs-Heimskringlu og hundrað tuttugu og fimm dala gjafar í Skálholtssjóð. Gjaldkeri félagsins sá einnig um frágang á skjali, sem sent var Thor Thors ambassador í tilefni af sextugsafmæli hans. Fór hann sjálfur til Washington og afhenti skjalið fyrir hönd þeirra, sem að því stóðu. Hann hefir og séð um útbúning annarra skjala og skrautmuna bæði fyrr og síðar. Hann hefir tekið að sér mörg störf, sem réttilega falla innan verkahrings annarra nefndarmanna, af fúsum vilja og góðum. Ég veit, að forsetaembættið er miklum mun léttara en annars væri vegna margs, sem hann hefur að sér tekið.

Við erum hér mætt á fertugasta og fimmta ársþingi Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi. Félagið á langa og glæsilega sögu að baki. Það er undir okkur og eftirkomendum okkar komið, hver framtíðarsaga félagsins verður.

Hingað sækja þessu sinni fulltrúar frá öllum nærliggjandi deildum Þjóðræknisfélagsins og góðir gestir, sem lengra hafa sótt, bæði frá Bandaríkjunum og heiman af Íslandi. Ég býð alla gesti og fulltrúa velkomna á þing um leið og ég varpa fram þeirri ósk, að þingdagarnir þrír megi verða dagar góðra starfa og giftudrjúgra málalykta.

Að svo mæltu segi ég fertugasta og fimmta ársþing Þjóðræknisfélagsins sett og bið þingheim að taka til starfa.

**Philip M. Pétursson**
forseti.

---

Þingið var haldið í samkomusal Fyrstu lúthersku kirkju, dagana 17., 18., 19. febrúar. Forseti, séra Philip M. Pétursson setti þingið, bauð gesti velkomna og flutti forsetaskýrslu. Mættir á þingi voru tuttugu og fjórir tulltrúar frá átta deildum og ágætar ársskýrslur voru lesnar frá öllum deildum (tíu) sem sýndu mikið og margbreytilegt starf. Allir fundir þingsins voru mjög vel sóttir og yfir 70 manns samankomnir á mánudaginn e. h. þá er hinn virðulegi fulltrúi Íslands, Einar B. Guðmundsson, formaður stjórnar Eimskipafélagsins, flutti kveðjur og heillaóskir frá: Eimskipafélaginu, Dr. Bjarna Benediktssyni, forsætisráðherra Íslands, Ármanni Snævarr, rektor háskólans og herra Ásgeiri Ásgeirssyni, forseta Íslands.

Aðrar góðar kveðjur bárust þinginu frá: Árna Helgasyni, Chicago; Þjóðræknisfélagi Íslands; Ambassador Thor Thors; Dr. Starcher, forseta ríkisháskóla N. Dak.; G. Grimson, fyrrv. forseta hæstaréttar, N.Dak.; séra Benjamín Kristjánssyni, Syðra Laugalandi; og fagur blómvöndur frá Mr. og Mrs. Walter Johannson, Pine Falls.

Langt að komnir gestir voru boðnir velkomnir: Herra Einar B. Guðmundsson og frú hans, Kristín Ingvarsdóttir; Valdimar Bjornson, Minneapolis, og frú Guðrún Jónsdóttir; Hörður Bjarnason, húsameistari ríkisins (Íslands) og frú; Jón H. Magnússon og kona hans (dóttir Harðar Bjarnasonar,); H. Rutford, frá Fargo, N. Dak.

Að máli sínu loknu færði Einar B. Guðmundsson þjóðræknisfélaginu gjöf frá Eimskip fána félagsins á silfurstöng, á silfurstalli.

Þingnefndir voru:

Kjörbréfanefnd: Mr. Kristín Johnson, Guðmann Levy, T. Böðvarsson.

Dagskránefnd: Dr. Beck, Gestur Pálsson, Gísli S. Gíslason.

Útgáfunefnd: J. B. Johnson, Herdís Eiríkson, Sigrún Nordal.

Allsherjarnefnd: Dr. V. J. Eylands, Gestur Pálsson, Lovísa Gíslason, Óskar Howardson.

Útbreiðslu- og fræðslumálanefnd: Prof. H. Bessason, Kristín Johnson, Mrs. Ingólfur Bjarnason, Johann K. Johannson, Gunnar Baldwinson.

Samvinnumál við Ísland: Dr. R. Beck, Miss Guðbjörg Sigurdson, Judge W. J. Lindal, Miss Kristín Skúlason, Oskar Howardson.

Féhirðir, G. L. Johannson, konsúll, lagði fram skýrslu sem sýnir: tekjur $6.310.01 (með innstæðu, 1963); útgjöld, $4,454.27; Innstæða, 17. febrúar, 1964, $1,755.74. Forseti skýrði frá hugmynd stjórnarnefndarinnar um að stytta þingtímann um einn dag. Skýrslur lesnar frá milliþinganefndum: 1. Skógræktarmál, frá frú Marju Bjornson, lesin af J. F. Kristjansson; 2. Minjasafn: lesin af formanni, J. F. Kr. Dr. Beck sem mun verða á ferð um Ísland á næsta sumri kvaðst mundi fá frekari upplýsingar um reit V. Íslendinga á Þingvöllum. Þessar milliþingan. voru endurkosnar: 1. Skógrækt: frú Marja Bjornson, Herdis Eirikson; 2. Minjasafn: J. F. Kristjánsson, Hólmfríður Danielson, Kristín Johnson.

Prof. H. Bessason bar fram skýrslu um för til Chicago þar sem hann flutti ræðu á samkomu ísl. félagsins og munu þeir þar syðra vera að athuga það mál sem hann bar upp að gerast meðlimir Þjóðræknisfélagsins.

Þingmál voru með venjulegum hætti og verður hér ekki minnzt á úrskurð þeirra sem runnu í sama farveg sem á mörgum undanförnum þingum; en ýms mál voru rædd með nokkuð nýstárlegum hætti og mikill áhugi kom fram hjá fulltrúum og öðrum. Þetta er einsog það á að vera þegar bezt lætur, — að ALLIR fylgist sem bezt með áhugamálum og láti í ljósi hugmyndir sínar og góð ráð, — þá blessast og blómgast starfið í heild.

SAMVINNUMÁL, 7. liður: „Samkvæmt ósk nokkurra félagsmanna felur þingið stjórnarn. Þjóðræknisfélagsins að athuga möguleika á því með málaleitun við hlutaðeigandi stjórnarvöld, að leyft verði að senda sem jólagjafir frá Íslandi til Kanada, gjafaböggla með hangikjöti sem eigi fari fram úr tíu pundum". Samþykkt.

ALLSHERJARNEFND, 5. liður: „Þingið telur nauðsynlget að efla samband milli stjórnarnefndar félagsins og deilda þess, víðsvegar, og forráðamanna þeirra, svo að gagnkvæmur skilningur eflist, og upplýsingar berist sem skjótast á milli um áhugamál og stefnumið. Þess vegna mælist þingið til þess að stjórnarn. félagsins láti fjölrita (eða prenta) útdrátt úr þingtíðindum, og einnig úrdrátt úr stjórnarnefndar fundargjörningum, og sendi til forseta allra deilda. Einnig að deildir séu hvattar til þess að senda fundargerninga sína jafnóðum til skrifara Þjóðræknisfélagsins." Samþykkt.

ÚTBREIÐSLU- OG FRÆÐSLUMÁLANEFND. „Nefndin leggur til að stjórnarn. Þjóðræknisfélagsins haldi áfram, og efli heimsóknir til deildanna, þar sem það er mjög þýðingarmikið fyrir samtök og samstarf". Samþykkt.

„Nefndin leggur til að leskaflar í íslenzku (L-H) verði gefnir út sérprentaðir eða fjölritaðir". Þessu var vísað til stjórnarnefndar.

NÝ MÁL. „Að milliþinganefnd sé skipuð af stjórnarnefndinni í minnisvarðamál V. Stefanssonar og skal sú nefnd gefa skýrslu á næsta þingi". Samþykkt.

Tillaga Miss Sigurbjargar Stefansson (Gimli) að reynt sé að mynda varanlegan sjóð í minningu um V. Ísl., landnámsmenn og konur, og verja vöxtum af þeim sjóði til þess að veita styrk þeim af ísl. stofni vestan hafs sem sýna sérstaka hæfileika til náms í listum á einhverju sviði. Vísað til stjórnarnefndarinnar.

KOSNIR Í EMBÆTTI FYRIR NÆSTA ÁR: Forseti. séra P. M. Petursson; vara-f. Prof. H. Bessason; skrifari, Hólmfríður Danielson; vara-skrif. Páll Hallson; féhirðir, G. L. Johannson; vara-féh. Johann T. Beck; fjármálarit. Guðmann Levy; vara-fjármálarit. Kristín Johnson; Minjasafn, Jakob F. Kristjansson. Forseti vottaði þakklæti þeim er gengu úr nefndinni og bauð velkomna hina nýju meðlimi.

Þrjár samkomur voru haldnar í sambandi við þingið: Frónsmótið, 17. febr. (ræðumaður, Valdimar Bjornson); Icel. Can. Club, 18. febr. ræðumaður Dr. W. C. Lockhart, forseti, United College); Þjóðræknisfélagssamkoman, 19. febrúar. Ræðumaður var heiðursgestur félagsins, Einar B. Guðmundsson. Afhenti G. L. Johannson, heiðursgestinum skrautritað skjal frá Þjóðræknisfélaginu til Eimskipafélagsins og þeim hjónum einnig fagran silfurbakka sem þakklæti fyrir komuna.

Heiðursmeðlimir voru kjörnir: Einar B. Guðmundsson og dr. Finnbogi Guðmundsson. Þingið hyllti Gretti L. Johannson og konu hans sem ætíð hefur verið hans hægri hönd í öllu hans góða starfi fyrir Ísland. Hefir hann nú verið féhirðir Þjóðrknisfél. í tuttugu ár og konsúll fyrir Ísland í sléttufylkjunum í tuttugu- og fimm ár. Þegar vér nú búum þessa skýrslu til prentunar þá minnumst vér með söknuði hinnar góðu og glæsilegu konu, Lalah Johannson, sem féll frá snögglega 10. nóvember, og vottum hjartanlega samúð eiginmanni hennar, Gretti L. Johannson.

Mörg gildi og heimboð voru haldin í sambandi við þingið, til heiðurs ræðumönnum og öðrum gestum. Svo endaði þetta þing sem var í alla staði fjölmennt, fróðlegt, skemmtilegt og uppbyggjandi.

**Hólmfríður Danielson,**
ritari.

# Auglýsingaskrá Tímaritsins

(Index to Advertisers)

Mr. & Mrs. H. F. Danielson
Mr. Páll Hallson
Miss Margrét Sigurðson
Mrs. Sigríður Jakobson
Mr. & Mrs. Helgi Olsen
Mr. R. Bergsson
Dr. V. J. Eylands
Mr. H. V. Larusson
Mrs. Ingun Steinthorson
Mr. Guðmundur Friðriksson
Mr. & Mrs. Magnús
Mrs. Jónína Hjálmson Gunnlaugson
Mr. Th. Thorsteinson
Mr. O. C. Einarson
Mrs. A. P. Johannson
Mr. Sigurþór Sigurðsson
Mr. Harold Westdal
Mrs. Valgerður Thorsteinson
Mr. S. Matthews
Mr. & Mrs. Hans Sveinsson
Mrs. Hólmfríður Pétursson
Mr. Olafur Bjarnason (Seattle)
Mr. John E. Marteinson
Mrs. R. Davidson
Mrs. Th. Isleifson
Mrs. Lena Dunning
Mrs. Johanna Cooney
Mr. Ari Magnusson
Mr. Halldór Sigurðson
Mr. Fred Fridfinnson
Mr. Snorri Olson
Mr. Steindór Jakobson
Mrs. Margrét Thorbergson
Mr. Skúli Johannsson
Mr. & Mrs. Egill Jonasson
Mrs. Kristín Snidal
Mrs. Olöf Bailey.

**„Vestri" Seattle, Wash.**

Mr. Ólafur Bjarnason
Mrs. Ólafur Bjarnason
Mr. S. Margeirsson
Mrs. S. Margeirsson
Mr. Ted Samúelson
Mrs. Ted Samuelson
Mr. Jón Th. Johnson
Mr. Stefán Hauksson
Mr. Thor Viking
Mrs. Thor Viking
Mr. Fred Nelson
Mr. Snorri Hauksson
Mr. Byron Samúelson
Mrs. Byron Samúelson
Mr. J. J. Miðdal
Mrs. J. J. Miðdal
Mr. Jón Magnússon
Mrs. Jón Magnússon
Mr. Steve B. Johnson
Mrs. Steve B. Johnson
Mr. B. O. Johannson
Mrs. B. O. Johannson
Mrs. Ruth Sigurdson
Mrs. Anna Hanley
Mrs. S. S. Thordarson
Mrs. Emma Scheving
Mr. Pálmi Pálmason
Mrs. Pálmi Pálmason
Mr. Bjarni Jónsson
Mrs. Bjarni Jónsson
Miss Dóra Grimson
Mr. Kristinn Thorsteinson

**Deildin „Aldan", Blaine, Wash., U.S.A.**

Forseti
Rev. Guðmundur P. Johnson
Vara-forseti
Gísli Guðjónson
Gjaldkeri
Johann J. Straumfjörð
Skrifari
Mrs. Dagbjört Vopnfjörð

Meðlimir:
Ágúst G. Breiðfjörð
Bertha Björnson
Rósa Casper
Hólmfríður Guðjónson
Margrét Johnson
Rúna Johnson
Thorbjörg Johnson
Rev. Albert E. Kristjánsson
Anna Kristjánsson
Kristin F. Lindal
Margrét Sigmar
Einar Símonarson
Dr. Sveinn E. Björnson
Marja Björnson
Thorbjörg R. Couch
Gísli Benedictson

Helga Guðmundson
Olgeir Gunnlaugson
Kristin Gunnlaugson
Kristin Steinberg
Herdís Stephanson
Sólveig Sveinsson

**Deildin „Báran"**
**Mountain, N. Dak.**

Heiðursmeðlimir:
Dr. & Mrs. Richard Beck
H. B. Grímsson

Meðlimir:
S. A. Björnson
G. J. Jonasson
Joseph Anderson
H. B. Thorfinnson
S. F. Björnson
Chris S. Gudmundson
Simon S. Johnson
F. M. Einarson
G. A. Gudmundson
Steini Myrdal
Theodore Thorleifson
Helgi Laxdal

Frank Hall
Alvin Melsted
Mrs. John H. Johnson
Leo Melsted
Fred G. Johnson
Mrs. Larena Northfield
H. S. Walter
K. Kristjanson
Fred Olafson
John J. Einarson
A. E. Pálson
Einar J. Einarson
O. G. Johnson
H. T. Hannesson
Mrs. John A. Hanson
L. G. Benson
Stefan Indridason
Sylvia Stevenson
V. G. Gudmundson
H. M. Jonasson
Leo J. Laxdal
Mrs. Gardar Johnson
Barney Einarson
Steve Thordarson
G. Gudmundson
Wm. K. Halldorson

Ivan Gudjonson
Vilhjalmur Thorsteinson
Garnett Johnson
Dwight Myers
Augusta Johnson
G. B. Olafson
Kristjan S. Johnson
Matt Bjornson
John H. Axdal
Wm. Sigurdson
Victor Sturlaugson
John Magnsusson
Adalsteinn J. Byron
Mundi Goodman
L. S. Jensen
Reynis F. Fafnis
S. S. Johnson
S. F. Steinolfson
Kenneth D. Indridason
Rodney D. Byron
Helgi Reykdal
H. Olafson
Helgi Finnson
Wm Gutterud
Julius Keller
J. C. Hallgrimson

A. M. Asgrimson
Fred Halldorson
Mrs. Ingibjorg Jonasson
Hannes J. Bjornsno

**„Esjan", Arborg, Man.**

Þórarin Gislason, heiðursmeðlimur
Þorbjörg Sigurðson, heiðursmeðlimur
Johann K. Johnson
Gestur Palsson
Guðrún Jónasson
Páll Stefansson
Herdis Eiríkson
Timóteus Böðvarsson
Jón Þórðarson
Helgi Jacobson
Lauga Eyolfson
Veiga Johannesson
Laugi Johnson
Ragnar Karvelson
Siggi Pálsson
Þórður Anderson
Lára Danielson
Jodis Brandson
Lóa Guðmundson
Eiríkur Einarson
Johann M. Einarson
Maria Nordal
Jón Baldvinson
Gestur Vidal
Helgi Sigurdson
Lilja Martin
Kristjan Albertson
Jönina Alexanders
Jón Pálsson
Welhelm Pálsson
Björn Bjarnason
Joe Magnusson
Lara Magnusson
Malli Brynjolfson
Sigurður I Sigvaldason
Kristján Th. Johnson
A. S. Johnson
Stefania Sigurdson
Elli Guðmundson
Lara Sigvaldason
Emily Vigfusson
Guðní Sigvaldason
Aðalbjörg Sigvaldason
Gunnar Simundson
Oli Gislason
Björn Björnson
Jacobina Fridfinnson
Sigurður Wopnford
Björgvin Holm
Olga Anderson
Sigfús Hildibrandson
Óli Ólafson
Þorgrímur Pálsson
Valgerður Sigurdson (látin)
Valdi Jonasson
Kristjon Sigurdson (látinn)
Edward Gislason
Eirikur Bjarnason
Guðrun Magnusson
Kristin L. Skulason
Anna Austman
Halldór Austman, (látinn)
Elin Einarson
Bjarni Sigvaldason
Gunnl. K. Oddson
Andres Fjeldsted
Pálína Hornfjörd
Eymundur Danielson
Beatrice Martin
Sigurður Sigvaldason
Sigríður Kristjanson
Ragnar Guðmundson
Brandur Finnson
Victor Johannesson
Bjorn Arnason
Inga Arnason
María Boundy
W. S. Eyolfson
Jon Hornfjord
Bergur Vigfusson
Stefan V. Guttormson
Valdi Johnson
S. H. Johannesson (látinn)
Einar Johnson
Guðríður Gíslason
Axel Eyolfson
Jon Eirikson
S. S. Johnson
Gordon E. Danielson
Málfríður Einarson
Valgerður Nordals
Friða Kristinnson
Guðmundur Sigvaldason
Guðjon Stefanson
Dr. Bjarki Jacobson
Njáll Johnson

**Meðlimir Þjóðræknis-deildarin Lundar**

Mr. Ási Freeman
Mrs. Ási Freeman
Mr. Kári Byron
Mrs. Kári Byron
Dr. Númi Hjálmarson
Mrs. Númi Hjálmarson
Mr. Steini Gíslason

Mrs. Steini Gíslason
Mr. Leo Danielson
Mrs. Leo Danielson
Mr. Jón Steinþórson
Mrs. Jón Steinþórson
Mr. Oli Hallsson
Mrs. Oli Hallsson
Mr. Gísli S. Gíslason
Mr. Albert Thorgilsson
Mr. Jón A. Björnsson
Mr. Ágúst Eyjólfson
Mr. Óli Jónsson
Mr. Varði Hávarðson
Mrs. Ásta Sigurðson
Mrs. Ragnheiður Magnússon
Mrs. Sigrún Johnson
Mr. Hjörtur Hjartarson
Mr. Sveinn Johnson
Mr. Óskar Johnson
Mr. Ásgeir Jörundson
Mrs. Björg Björnsson
Mrs. Rannveig Guðmundson
Mrs. Kristin Pálsson
Mr. Lárus Johnson
Mr. Barny Thorsteinson
Mr. Jón Thorgilsson
Mr. Eiríkur Hallsson
Mrs. Valdi Rafnkélson
Mr. Hjalti Johnson
Mrs. Margrét Jóhnson
Mrs. Margrét Björnsson
Mrs. Margret Líndal

**Deildin Gimli, Gimli, Man.**

Benjamin Franklin Olson forseti.
J. B. Johnson, v.-forseti
Ingólfur N. Bjarnason, skrifari
Mrs. I. N. Bjarnason, vara-skrifari
W. J. Árnason, gjaldkeri
Mrs. W. J. Árnason, vara-gjaldkeri
Adolf L. Holm, fjármálaritari.
Mrs. Emma Von Renasse, vara-fjármálaritari.
Mrs. Helgi Stevens, skjalavörður

**Meðlimaskrá**

Mr. B. V. Árnason
Mr. Gordon Árnason
Mrs. Guðjón Árnason
Mr. Joe T. Árnason
Mrs. Sigríður Árnason
Mr. Ted Árnason
Mr. Björn Baldwinson
Mrs. Björn Baldwinson
Mr. Helgi Benediktson
Mrs. Jonassina Benson
Miss Saeunn Bjarnason
Mr. G. B. Bjarnason
Mrs. Helga Demedash
Mr. Einar S. Einarsson
Mrs. E. S. Einarsson
Mr. Harry Einarsson
Mrs. Harry Einarsson
Mr. Ingi Einarsson
Mrs. Ingi Einarsson
Mr. Stefan Eldjarnsson
Mr. August Eliasson
Mr. Palmi F. Einarsson
Mrs. G. Eyolfsson
Miss. M. Halldórsson
Miss. Sigríður Hjartarson
Mrs. Adolf L. Holm
Dr. A. B. Ingimundsson
Interlake Insurance Agencies
Mr. Helgi Johannesson
Mrs. Pálmi Johannson
Dr. Jonas G. L. Johnson
Mr. Jon V. Johnson
Mr. Jonas Th. Jonasson
Mr. Oli P. Josephson
Mrs. O. P. Josephson
Mr. Ólafur N. Kardal
Mr. Ted Kristjánsson
Lestrafjelagið - Gimli
Mrs. Una Th. Lindal
Mr. G. E. Narfason
Mrs. G. E Narfason
Mr. Dori Peterson
Mrs. Dori Peterson
Mr. Baldur Peterson
Mr. Gudmundur Peterson
Mrs. Larry Rye
Mrs. F. E. Scribner
Mrs. Daniel Sigmundson
Mr. Bjorn Sigurdson
Miss. Gudrun Sigurdson

Mrs. Margret Sigurdson
Mr. Eric Stefansson, M. P.
Mrs. Eric Stefansson
Miss. Sigurbjorg Stefansson
Mr. Valdimar Stefansson
Mrs. Valdimar Stefansson
Mrs. Laurence Stevens
Mrs. Norman K. Stevens
Mrs. Ingibjorg Sveinsson
Mr. S. Th. Sveinsson
Mrs. H. R. Tergesen
Mrs Lara Tergesen
Mrs. Gudrun Thompson
Mr. Bjorgvin Thordarson
Miss. J. V. Thordarson
Mrs. Kristin Thorsteinsson, heiðursmeðlimur

**Deildin „Ísland" Morden, Man.**

Stefán G. Einarson
Ben S. Einarson
Lorry Einarson
Árni Gillis, Jr.
Andy Gíslason
Lovisa Gíslason (ævifélagi)
Jón Gudmundson
Mrs. Olive Kunzelman
Leonard Helgason
J. B. Johnson
Mrs. J. B. Johnson
Óli Lindal
Mrs. Freda Lindal
Mrs. Willie Ólafson
Willie Ólafson
Joe Ólafson
Páll Sigurðson
Jóhann P. Thomasson
Thomas Thomasson
Mrs. Kristín Thomasson
Guðrún Thomasson
Janathan Thomasson

**„Brúin", Selkirk, Man.**

Forseti - Leifi Skagfjord
Vara. - Gestur Johannson
Skrifari - Sigrún Nordal
Féhirðir - Allie Goodhandson
Vara - Óla Magnusson
Asta Erickson
Margaret Goodman
Kristinn Goodman

Jóa Goodman
Vigdís Johnson
Christie Johnson
Dr. Oli Johnson
Rúna Magnússon
Freðrik Nordal
Jofsta Skagfjörð
Árni Stefánson
Kristin Stefanson
Pete Thorsteinson
Einar Thorwaldson

**Ströndin — Vancouver**

Siggi Anderson
Mrs. S. Anderson
Ingi Anderson
Mrs. I. Anderson
Margret Anderson
Oli Anderson
Mrs. O. Anderson
James Amdal
Helga Amdal
Elias Arnason
Frú Olga Árnason
Mrs. R. L. Arneson
Margaret Arngrimson
Harold W. Baird
Vigfus Baldwinson
Clara Baird
Mrs. S. Baldwinson
Gisli Benedictson
Runa Benedictson
Noi Bergmann
B. Bergvinsson
Mrs. Gulla Bergvinsson
G. Bergvinson
D. G. Barber
Mrs. D. G. Barber
Jonatan Bjornsson
Mrs. J. Bjornsson
B. Bjornson
Mrs. L. Bjornson
Mrs. B. Bjornson
Dr. Sveinn E. Bjornsson
Marja Bjornsson
Mrs. A. Bjornson
Wilhelm Bjornson
Bert J. Bjornson
Mrs. E. S. Brynjolfsson
B. Brynjolfsson
Mrs. S. Brynjolfsson
Mrs. B. Brynjolfsson
Mrs. Emily Burt
William Burnette
Jennie G. Burns
Dora Cheever
Margaret Christianson
Mr. Cross
Inga Cross
Carry Christopherson
Mrs. Maria Cray
Miss N. G. Dall
W. R. Darling
Thora B. Darling
Finna Drewry
Harold G. Eastvold
Eyrika Eastvold
David Eggertson
Mrs. D. Eggertson
Gudbjorg Eggertson
Inga Egilsson
Edna Einarson
Thorunn Einarsdottir
Rebecca Einarson
E. Eliasson
Mrs. G. Erickson
Frank Eyford
Mrs. F. Eyford
Herman Eyford
Mrs. H. Eyford
Haraldur Eyford
Mrs. H. Eyford
Chris Eyford
Mrs. C. Eyford
Stefan Eymundson
Gudbjorg Eyrikson
Mrs. Ellen Fafnis
Geira Farris
Eggert Felsted
Mrs. E. Feldsted
Mrs. C. Finnbogason
Matthildur Frederickson
Miss Emily Freeman
Mrs. M. Fridrikson
Margret Fridrikson
G. Fridrikson
Mrs. G. Fridrikson
Dr. E. J. Fridleifson
Mrs. E. J. Fridleifson
S. V. Gillis
Elizabeth Goodman
G. G. Gislason
Mrs. G. G. Gislason
Mrs. Erna Graveline
S. Grimson
Mrs. S. Grimson
Edwin N. Grubbe
Gerri K. Grubbe
Bara Gudlaugson
Clara Gudmundson
Mrs. G. J. Gudmundson
J. Gudmundson
Miss Rosa Gudmundson
Miss Helga Gudmundson
Agust Gudmundson
V. Gudmundson
Agust Gudjonsson

**Þjóðræknisdeildin Gimli**

að Gimli, Manitoba

óskar Þjóðræknisfélagi Íslendinga í Vesturheimi allra heilla.

Mrs. A. Gudjonsson
S. R. Gunnarsson
Asthildur Gunnarsson
Thor Gunnarsson
Disa Gunnarsson
Olgeir Gunnlaugson
Kristin Gunnlaugson
Oscar Gunnlaugson
Thorsteinn Hallgrimson
Mrs. S. Haralds
Mrs. E. F. Hall
Gudrun Hallson
Geir Jón Helgason
Mrs. G. J. Helgason
Gunnthor Henrikson
Mrs. G. J. Henrikson
Oscar Howardson
Mrs. O. Howardson
John Howardsson
Gunnlaugur J. Holm
Mrs. G. J. Holm
Mrs. Elsie Hyde
Ingthor Indridason
Mrs. I. Indridason
Marion W. Irwin
Herman Isfeld
Mrs. C. H. Isfjord
Bud Jacobson
G. Jacobson
Mrs. G. Jacobson
Thorir Jacobson
Victor Jakobson
Agla Jacobsen
Mrs. Gudl. Johannesson
Egill Johnson
Mrs. E. Johnson
H. B. Johnson
Margret Johnson
Miss Helga Johnson
J. S. Johnson
Jonas Johnson
Sigurdur Johnson
Mrs. Sig. Johnson
Mrs. O. W. Johnson
Bjorn S. Johnson
Mrs. B. S. Johnson
Miss Kristin Johnson
Th. Kjerulf Johnson
Albertina Johnson
Runolf Johnson
Pauline Johnson
M. Johnson
John J. Johnson
Olina Johnson
Bjarni Johnsson
Solveig Jónsson
Ölver Jónsson
Óli Jónsson
Snorri Kristjansson
Ragnar Kristjansson
Hakon Kristjansson
Mrs. H. Kristjansson
Mrs. Mary Kerr
Bjarni Kolbeins
Mrs. B. E. Kolbeins
Elma Larson
T. E. Laxdal
Jon Magnusson
Gudrun Magnusson
Kristin Magnuson
Gunnlaugur Magnusson
Violet Mary Magnusson
Mrs. Edith Martin
Walter Maxson
Colleen K. Mayovski

Mrs. Rósa Mórsson
Mrs. Freda McDonald
Mrs. Marie McIntosh
Kr. Olafson
Mrs. Maria Ólason
Sina Olason
Ray Olason
Mrs. R. Olason
Kristin Oliver
Mrs. Sigrun Olson
Mrs. S. I. N. Oddstad
Mrs. Emily Palsson
Mrs. Ragna Pedersen
Miss Ingrid Pedersen
Maria Penko
Mrs. Frida Philipson
Mrs. Sigridur Reykjalin
Kristin Rice
Dora Rosvick
Mrs. Anna Samson
Stefan Scheving
Mrs. Emma Scheving
Steve Scheving
Anna Scheving
Ásmundur Sigurbjörnsson
Johann Sigurdson
Bergþora Sigurdson
Bjorg Sigurdson
John F. Sigurdson
Mrs. J. F. Sigurdson
Keli Sigurdson
M. K. Sigurdsson
Agusta Sigurdsson
Sigurdur Sigurdson
Sigurbjorn Sigurdson
Mrs. S. Sigurdson
Elin Sigurdson
Harold Sigurdson
Norma Sigurdson
Mundi Sigurdson
Mrs. M. Sigurdson
Ruth Sigurdson
Jonina J. Skafel
Mrs. Mikka Smith
Loa Skulason
Mrs. Jennie Sophuson
Sigurdur Stefanson
Gunnbjorn Stefanson
Gudrun Stefanson
Oli Stefanson
Svava Stefanson
B. Sig. Sturlaugson
Kristbjorg Sturlaugson
Mrs. L. E. Lummers
J. Sumarlidason
Mrs. J. Sumarlidason
H. M. Sumarlidason
Mrs. H. M. Sumarlidason
Gudrun Sveinbjornson
Oscar Sveinson
Georeg L. Sveinsson
Mrs. G. L. Sveinsson
Thordur H. Teitsson
Mrs. T. Teitsson
Bjorn Thorlakson
Mrs. B. Thorlakson
Sigurdur Thorlakson
L. Halfdan Thorlakson
Mrs. L. H. Thorlakson
F. Thorsteinson
Mrs. F. Thorsteinson
Svavar Tryggvason
Sveinbjorg Tryggvason
S. S. Thordarson
Catherine Torlakson
Odin Thornton
Mrs. Emily Thorson
Laugi Thorstenson
Ella Thorstenson
Gudm. Thorsteinsson
Lilja Thorsteinson
Mrs. T. S. Thorsteinson
Birgir Valdimarson
Dr. Thos Wallace
Mrs. T. Wallace
Garth Wallace
Michel Wallace
Tove Walthers
Albert Wathne
Mrs. A. Wathne
Anna Williams